þat má finna á Starkaði, at honum þykir þetta eitthvert verk sitt verst ok úskapligast orðit hafa, er hann drap Víkar konung, ok ekki höfum vér frásagnir heyrðar, at hann hafi ílendr orðit í Noregi síðan. En er Starkaðr var at Uppsölum, þá váru þar 12 berserkir málamenn, ok váru mjök ágjarnir ok spottsamir við hann, ok váru óðastir at því brœðr tveir Úlfr ok Útryggr. Starkaðr var þögull, en berserkir kölluðu hann endrborinn jötun ok níðing, svá sem hér segir:

Hér settu mik
sveina milli,
heldr hæðinn
ok hvítbránn,
skelkja skatnar,
ok skop draga
ofs úframir
at jöfurs greppi.
Sjá þykjast þeir
á sjálfum mér
jötunkuml
átta handa,
er Hlórriði
fyrir hamar norðan
Hergrímsbana
höndum rændi.
Hlæja rekkar,
er mik sjá,
ljótan skolt,
langa trjónu,
hangar tjálgur,
hár úlfgrátt,
hrjúfan háls,
húð jórtraða.

En er Eiríkr konungr ok Álrekr settust heima, þá fór Starkaðr í hernað með skip þat, er Álrekr konungr hafði gefit honum, ok hafði skipat með Norðmönnum ok þeim Svíunum; fór hann víða um lönd, ok framdi orrostur ok einvígi, ok hafði jafnan sigr.

## 4. Ragna Adilsdatter.

Af „æfi Noregs konunga", almindeligviis kaldet „Fagrskinna".

Ragna hin ríkuláta hét mær ein, er átti bygð þá náliga alla er Þótn er kallaðr ok Land heitir ok ey þá alla er nú Eynabygð er kölluð; þat var ok mælt um Rögnu, at hon var allra meyja fegrst. Ragna var dóttir Aðils hins auðga; Aðils var Ásu sunr Þórudóttur, en Þóra var dóttir þeirra Eysteins konungs ok Ástríðar dóttur Aðils konungs, er Aðils svarti var kallaðr. En Aðils faðir Rögnu var þá fráfallinn, en Ragna var einberni hans; en þá var Haraldr konungr 12 vetra gamall er þetta var, ok Ragna var ok 12 vetra jafnaldra Haralds; en Haraldr lagði elsku mikla á Rögnu. En þá er Haraldr lét ástarorð sín í ljós við Rögnu, svaraði hon á þessa lund: „þat mæli ek víst með sannindum, at eigi em ek betra unnusta verð en þér erut, veldr því hvárttveggja konungligr burðr yðarr ok svá öll konunglig tign ok fegrð er á yðr er; en þó áðr en ek felli fulla ást til yðar, þá vil ek þess verða vör, hvárt heldr skulu verða arfar Neriðs hins ráðspaka frænda yðars, herra konungr, þér eða synir Gandálfs". Þá svaraði Haraldr reiðr ok mælti

svá: „þat ætlaða ek, Ragna, at þú skyldir fyrir ástar sakir með ágætri sœmd vera leidd til minnar sængr, en fyrir því at þú hefir brugðit mér þessum brigzlum, þá er nú þess vert at þú sér svá leidd til minnar sængr sem ein fátœk frilla“. Þá mælti Ragna við konunginn: „eigi skulu þér, herra konungr, reiðast viðr, þo at vér mælim oss gaman, ok hœfir þat ekki konungdómi yðrum at brjóta kapp við kvennmenn, ok þó allra sízt við meybörn smá sem ek em, heldr er yðr sœmd þat, herra konungr, at deila kappi við konunga aðra, er nú eru skipaðir um alt land innan. Þat vil ek ok segja yðr, ef ek ræð mér sjálf, þá verð ek hvárki yður frilla né enskis manns annars, ok annathvárt skal ek hafa þann at eignum manni, er alla Noregs menn gerir sér at þegnum, eða skal ek engan hafa“. Þá er Haraldr konungr heyrði þessi orð, þá strengði hann þegar heit ok sór við höfuð sitt, at hann skyldi enga eigna konu eiga í Noregi nema Rögnu, ok þó með þeim hætti, at hann gerði alla menn at þegnum sér í Noregi. Þat lét hann auk fylgja, at sú kona var verðari at eiga ágætan konung heldr en einhvern heraðshöld, er svá skörulig orð hefir í munni sér sem Ragna.

## 5. Haakon den Godes Död.

Af Fagrskinna.

Svá bar at einu sinni, at Gunnhildar synir sigldu sunnan af Danmörku ok fóru útleið ok kómu ekki meir við land en svá at menn höfðu njósn um farar þeirra, ok svá höfðu þeir ok njósn um veizlutökur Hákonar konungs; þeir höfðu skip vel búin at liði ok at vápnum, ok með þeim var víkingr einn mikill, sá hét Eyvindr skreyja.

Hákon tók veizlu, þá er þeir kómu, í Storð á Fitjum, ok var hann leyndr þessum tíðendum ok allir hans menn, alt þar til er skipin sigla sunnan ok eigu nú skamt til eyjarinnar. Þá sat Hákon konungr yfir borðum.

Nú kom kurr fyrir hirðmenn at skip váru sén sigla, ek géngu út nökkurir, þeir er glöggsýnastir váru, at sjá, og sagði hverr öðrum at þat myndi vera úfriðarmenn ok bað hverr annan segja konungi, en engi var til nema Eyvindr Finnsson, er kallaðr var skáldaspillir. Hann gékk inn fyrir konung ok mælir svá: „lítil er líðandi stund, herra! en langt matmál“. Konungr svaraði: „skáld! hvat ferr nú af víðum vegum“? Eyvindr svarar:

Blóðöxar tjá beiða
brynþings fetilstinga
(oss gerask hnept) ens hvassa
hefnendr (setuefni).

Heldr er vant, en ek vilda
veg þinn, konungr! segja,
(fám til fornra vápna
fljótt) hersögu dróttni.

Þá svaraði konungr: „Eyvindr, þú ert góðr drengr ok vitr maðr, eigi myndir þú segja hersögu nema sönn væri“. Þá mæltu allir at satt var, at

skipin sigldu ok áttu skamt til eyjarinnar; því næst fóru borð upp, ok gékk konungr út at sjá liðit; en þá er hann hafði sét, kallaði hann til sín ráðgjafa sína ok spurði, hvat þá skyldi at hafast; „hér sigla skip mörg sunnan, en vér höfum lið lítit ok þó frítt, ok vil ek eigi leiða í ofmikinn háska hina beztu vini mína, en víst vilda ek flýja, ef vitrum mönnum sýndist eigi, at þat væri mikil skömm eða fólska“. Nú svarar hverr öðrum, at hverr vildi heldr deyja um þveran annann en flýja fyrir Dönum. Þá mælti konungr: „segit allra drengja heilastir ok taki hverr sín vápn, ok man ekki til saka, hversu margir Danir eru um einn Norðmann“! Eptir þat tók konungr skjöld sinn ok fór í hringabrynju ok gyrði sik með kvernbít ok setti á gyltan hjálm á höfuð sér ok fylkti liði sínu, ok lét hirðmenn ok boðsmenn alla saman. Í þessum þys kvað Eyvindr Skáldaspillir einn gamankviðling til Hákonar konungs áðr en fylkingarnar hlœpist at:

Lýtr fyrir löngum spjótum
landsfólk; bifask randir;
kveðr oddviti oddum
Eyvindar lið skreyju.

Þá svaraði konungr:

Vel launa mér mínir
menn (œxlum styr þenna)
— hríð vex Hamdis klæða —
hodd ok rekna brodda.

Á þvílíku má sjá hversu úhræddr konungr var, er hann íhugði svá sína hluti.

Gunnhildar synir ganga nú á land upp, fylkja liði sínu, ok höfðu þeir lið miklu meira. Þann dag var veðr heitt af sólu; þá steypti Hákon konungr af sér brynjunni, ok setr upp hjálm sinn ok eggjar menn sína til framgöngu hlæjandi, ok gladdi svá lið sitt með sínu yfirbragði blíðligu. Eptir þat tókst bardagi ok varð hinn harðasti. Þá er skothríð var lokit, brá Hákon konungr sverði ok stóð framarla undir merkinu ok hjó á báðar hendr; misti aldrigi, ok beit sverðit þó sem misti; sem her segir:

Svá beit þá sverð
í siklings hendi o. s. fr. 1)

Eyvindr skreyja tók at ganga svá hart fram í orrostuna, at hann frýði Norðmönnum hugar, ok sótti hann mest at er merki Hákonar var, ok mælti: „hvar er konungr Norðmanna, hví leynist hann ok þorir eigi fram at ganga at sýna sik? hverr kann segja mér til hans“? Þá svaraði Hákon konungr: „haltu svá fram, ef þú vilt finna Norðmanna konung“. Þá kastaði Hákon konungr skildinum á hlið sér, ok tók báðum höndum á meðalkafla sverðsins,

1) s. nedenfor Hákonarmál.

ok hljóp fram undan merkjum. þá mælti þórálfr Skúmsson: „látit mik, herra, í móti Eyvindi“. Konungrinn svaraði: „mik vildi hann finna, ok svá skal hann mik fyrir hitta“. En er konungrinn kom þar sem Eyvindr var, hjó hann á tvær hliðar sér, ok þá hjó konungrinn með kvernbít báðum höndum í höfuð Eyvindi ok klauf hjálminn ok svá höfuðit í herðar ofan. Í þessarri orrostu var eigi gott blauðum mönnum mótgöngu at veita fyrir sakar afls ok vápna ok áræðis, ok þóttist sá danskra manna bezt hafa, er firstr var, en þeim leiddist brátt, er næstir váru; ok brátt eptir fall Eyvindar skreyju kom flótti í lið Gunnhildar sona ok flýðu þeir til skipa sinna. Féll þar mikit fólk af sonum Eiríks; en þeir flýðu sjálfir; en menn Hákonar konungs fylgðu þeim lengi um daginn ok drápu af þeim alt þat er þeir máttu; en konungr lét taka skeið sína ok róa norðr með landi, ok ætlaði til bús síns til Álreksstaða, því at hann hafði fengit sár, var lostinn öru í arminn, þá er hann rak flóttann, ok rann honum blóð svá mikit, at úmegin sótti á hann. Ok þá er hann kom þar sem heitir Hákonarhella, þar hafði hann verit fœddr, ok þar dvaldist hann um nátt, ok lét slá sér landtjald ok flytja sik þar á land. þá er Hákon konungr kendi, at sár hans var banvænligt, kallaði hann til sín ráðuneyti sitt ok talaði á marga lund fyrir ástvinum sínum um þá hluti, er gerzt höfðu á hans dögum, ok iðraðist hann þá þess, er hann hafði mjök gert í móti guði ok kristinna manna lögum í sinni meðferð. þá báðu vinir hans at flytja lík hans vestr til Englands ok grafa hann þar at kirkju. Konungrinn svaraði: „ek em eigi þess verðr, ek lifða sem heiðnir menn, skal mik ok svá jarða“. Með þessu marki sýndi hann iðrun sína, at hann aumkaði missætti þeirra frænda, ok sendi bréf Gunnhildar sonum, ok var þat á, at hann gaf Haraldi frænda sínum hirð sína ok alt ríki sitt. Eptir þetta andaðist Hákon konungr ok hafði þá ráðit fyrir Noregi 20 vetr ok 6 vetr. Hann hörmuðu vinir ok úvinir, sem segir Eyvindr Skáldaspillir:

Góðu dœgri verðr
sá gramr of borinn o. s. fr. [1]

Menn hans fluttu lík hans til Sæims í Lýgrisfirði á Norðhörðalandi ok gerðu haug at. Áðr en Hákon félli höfðu synir Haralds ens hárfagra 8 orðit vápndauðir, sem Eyvindr segir Skáldaspillir, ok kvað svá sem konungrinn kœmi til Valhallar, fyrir því at sá var átrúnaðr heiðinna manna, at allir þeir, er af sárum önduðust, skyldu fara til Valhallar. En þá er bréf kómu til Haralds Gunnhildarsonar ok þeirra brœðra, þau er Hákon lét gera, urðu þeir fegnir þessi orðsending ok skipuðust við, fóru norðr með landi ok vildu

1) s. nedenfor Hákonarmál.

á fund Hákonar konungs frænda síns; en þá er þeir kómu norðr, var Hákon konungr andaðr.

## 5. Slaget ved Svölder.

Efter Fagrskinna.

Ólafr konungr Tryggvason gerði ferð sína or landi, bauð út liði miklu ok hafði 60 skipa, fór austr til Vindlands ígegnum Danakonungs ríki fyrir útan hans þökk ok vilja. Ólafr konungr fær mikit fé ok alt eignaðist hann þat er hann vildi ok olli því mest liðveizla Ástríðar dóttur Búrisleifs, er átti Sigvaldi jarl at Jómi. Þá er Ólafr konungr fór af Vindlandi, sigldi hann yfir til Danmarkar lítinn byr ok fagrt veðr, ok fóru þau skip fyrir, er smærri váru, en þau síðar er stœrri váru, fyrir því at þau þurftu meira veðrit en þau er smærri váru. Við einn hólma fyrir Vindlandi váru margir stórhöfðingjar; þessi hólmi heitir Svöldr; í þessum flota var Sveinn Danakonungr, er miklar sakar þóttist eiga við Ólaf konung: sú var ein at Ólafr átti Þyri systur hans ok fengit hennar at úleyfi hans, önnur sök var at hann sagði, at Ólafr konungr hafði sezt í skattlönd hans, Noregs ríki, er Haraldr konungr faðir hans hafði lagt undir sik. Sigvaldi jarl var þar með Danakonungi fyrir þá sök at hann var Danakonungs jarl. I þessum flota var ok mikill höfðingi, Ólafr svænski, Svíakonungr, er hefna þóttist eiga á Ólafi konungi mikillar svívirðingar; hann hafði slitit festarmálum ok lostit Sigríði, móður Ólafs konungs, dóttur Sköglartosta; þá sömu Sigríði átti þá Sveinn Danakonungr, ok var hon mjök fýsandi, at Sveinn Danakonungr gerði Ólafi konungi mein eða svívirðing; ok í þessu liði var Eiríkr jarl Hákonarsonr er mestar sakar þottist eiga við Ólaf konung ok hans menn, er verit höfðu nær drápi föður hans, Hákonar jarls, ok flæmta or landi alla sonu hans ok sezt í ríki eptir. Ástríðr hafði fengit Ólafi konungi ellifu skip, ok skyldi þetta lið fylgja konunginum til þess er hann kœmi um Danmörk. En þat mest var til, at þau Búrisleifr ok Ástríðr tóku svá vel við Ólafi konungi, at Geira hafði verit dóttir Búrisleifs konungs ok systir Ástríðar, er Ólafr konungr hafði átta, þá er hann var á Vindlandi. Ólafr Tryggvason hafði alls eitt skip ok sjautigi skipa. Þessir höfðingjar höfðu úvígan her ok lágu í höfn einni innan at hólmanum, en skip Ólafs sigldu hit ytra fyrir, þá er höfðingjarnir váru uppi á hólmanum ok sá til, er flotinn sigldi austan. Nú sjá þeir eitt mikit skip ok mjök glasiligt; þá mælti Sveinn konungr: förum til skipa sem tíðast, þar

siglir nú Ormrinn langi"; þá svaraði Eiríkr jarl: „bíðum enn, fleiri hafa þeir stórskip en Orminn langa"; ok svá var, þetta skip átti Styrkárr af Gimsum. Þá sá þeir enn annat skip mikit ok vel búit höfðaskip; þá mælti Sveinn konungr: „nú man hér fara Ormrinn langi, ok verðum eigi ofseinir í móti þeim". Þá svaraði Eiríkr jarl: „eigi man þetta vera enn Ormrinn langi; fá hafa enn farit stórskip þeirra, en mörg munu til vera". Svá var þat sem jarlinn sagði. Nökkur skip fóru þá um áðr en skip sigldi með stöfuðu segli, þat var skeið ok miklu meira en önnur skip, þau er siglt höfðu. Þá er Sveinn konungr sá at þetta skip hafði engi höfuð, stóð hann upp, mælti ok hló við: „hræddr er Ólafr Tryggvason nú, eigi þorir hann at sigla með höfðum dreka síns; förum nú ok leggjum at sem harðast"! Þá svaraði Eiríkr jarl: „eigi er þetta, herra, Ólafr konungr; kenni ek þetta skip, opt hefi ek þat sét; þat er Erlingr Skjálgsson, ok er betr at vér leggim á skut honum til þessarrar orrostu; þeir drengir eru þar innanborðs, at vér megum víst vita, ef vér hittum Ólaf Tryggvason, at betra er oss skarð í flota hans en skeið þessi svá búin". Þá mælti Ólafr Svíakonungr: „eigi skyldum vér æðra at leggja til bardaga við Ólaf, þóat hann hafi skip mikit; er þat skömm ok neisa, ok man þat spyrjast á öll lönd, ef vér liggjum hér með úvígan her, en hann siglir þjóðleið fyrir útan". Þá svaraði Eiríkr jarl: „herra, lát sigla þetta skip, ek man segja þér satt; eigi man Ólafr Tryggvason um oss hafa siglt, ok þenna dag munum vér kost eiga at berjast við hann. Nú eru hér margir höfðingjar, ok væntir mik þeirrar hríðar, at allir vér skulum hafa œrit at vinna fyrr en vér skiljumst". Þá mæltu þeir enn, er framkom eitt mikit skip: „þetta man vera Ormrinn langi, ok eigi vill Eiríkr jarl", sögðu Danir, „berjast ok hefna föður síns, ef hann vill eigi nú". Jarlinn svaraði reiðr mjök, ok lét vera eigi minni ván, at Dönum myndi eigi vera úleiðara at berjast en hans mönnum. Þá var langt at bíða þess er þrjú skip sigla ok eitt miklu mest ok hafði þat höfuð gylt; þá mæltu allir, at jarlinn hafði satt sagt, „ok hér ferr nú Ormrinn langi". Eiríkr jarl svaraði: „eigi er þetta Ormrinn langi", ok bað þá þó tilleggja, ef þeir vildi; þá tók Sigvaldi jarl skeið sína ok réri út til skipanna, lét skjóta upp skildi hvítum; þeir hlaða seglum ok bíða. Þetta it mikla skip er Tranan, er stýrði Þorkell nefja konungs frændi. Þeir spyrja Sigvalda: „hver eru tíðendi"? Hann sagði þeim þau tíðendi af Sveini Danakonungi, þau er Ólafi Tryggvasyni er skylt at vita, „ok þarf hann þess, at hann varist". Þá létu þeir Þorkel fljóta skipin ok bíða. Því næst sjá þeir Sveinn konungr sigla fjögur skip ok eitt miklu mest ok á drekahöfuð, þau er gull eitt váru á at sjá. Þá mæltu allir senn: „furðu mikit skip er Ormrinn langi, ekki

langskip man jafnfrítt í veröldu vera, ok mikil hreysti er at láta gera slíkan grip“. Þá mælti Sveinn Danakonungr: „hátt mun Ormrinn langi bera mik, honum skal ek stýra í kveld fyrr en sól setist“. Þá mælti Eiríkr jarl, svá at fáir menn heyrðu: „þó at Ólafr Tryggvason hefði ekki meira skip en þat er nú má sjá, þá man Sveinn konungr við Danaher einn aldrigi þessu skipi stýra“. Sigvaldi, er hann sá hvar skipin stýrðu, bað þá Þorkel nefju draga Orminn undir hólminn; lét veðrit þeim betr standa at fara landhalt við stór skip ok lítinn byr en at sigla á hafit. Þeir gerðu svá, grunuðu at vera myndi nökkur tíðendi beita á veðr þeim nær hólmanum, hlóðu seglum ok taka til ára. Þetta it mikla skip er kallat Ormrinn skammi. Þá sá þeir höfðingjarnir, hvar sigla þrjú skip öll stór, ok it fjórða síðast. Þá mælti Eiríkr jarl við Svein konung ok við Ólaf Svíakonung: „standit upp ok til skipa, nú man ek eigi þræta at Ormrinn langi siglir, ok þar munu þér nú hitta Ólaf Tryggvason“. Þá þögnuðu þeir allir ok varð at ótti mikill, ok margr maðr hræddist þar við sinn bana. Ólafr Tryggvason sá hvar menn hans höfðu lagt undir hólmann, ok þóttist vita at þeir myndi hafa spurt nökkur tíðendi, vendir ok þessum skipum inn at hólmanum ok hlóðu seglum. Sigvaldi stýrði skeið sinni inn með hólmanum móti liði konunganna, er innan fóru.

Fyrir þessa sök kvað Stefnir þá um Sigvalda:

Mankat ek nefna,
nær man ek stefna;
níðrbjúgt er nef
á níðingi,
þeim er Svein konung
sveik or landi,
en Tryggva son
á tálar dró.

Sveinn Danakonungr ok Ólafr Svíakonungr ok Eiríkr jarl höfðu gert þat ráð á milli sín, ef þeir feldi Ólaf Tryggvason, at sá þeirra, er þessu væri næstr, skyldi eignast skip hans ok alt hlutskipti þat sem fengist í orrostu, en veldi Noregs konungs skyldi hafa at þriðjungi hverr við annan. Þá sá Ólafr konungr, at hann var svikinn, ok at sjór allr var þaktr í nánd þeim af herskipum, en Ólafr konungr hafði lítit lið, er lið hafði siglt ífrá honum. Þá lagði í sinn stað hverr þeirra þriggja höfðingja: Sveinn Danakonungr með sitt lið, Ólafr Svíakonungr með Svíaher, í þriðja stað bjó Eiríkr sitt lið. Þá mælti við Ólaf konung einn vitr maðr, Þorkell Dyrðill: „hér er ofrefli liðs, herra, við at berjast, drögum upp segl vár ok siglum út á haf eptir liði váru; er þat engum manni bleyði, at hann ætli hóf fyrir sér“. Þá svaraði Ólafr konungr: „leggi saman skipin ok tengit, herklæðist menn ok bregðit sverðum, ekki skulu mínir menn á flótta hyggja“? Þá spurði Ólafr Tryggvason menn sína: „hverr er höfðingi fyrir þessu liði er hér liggr

næst oss“? þeir svöruðu: „þat hyggjum vér at Sveinn Danakonungr sé“. þá mælti ólafr konungr: „eigi skulum vér óttast þat lið, því at aldrigi báru Danir sigr í orrostu, þá er þeir börðust á skipum við Norðmenn“. Enn spurði ólafr konungr: „hverir liggja þar út ífrá ok hafa mörg skip“? Honum var sagt, at þar var ólafr Svíakonungr. ólafr konungr sagði: „ekki þurfum vér at óttast Svía hrossæturnar; þeim man vera blíðara at sleikja blótbolla sína, en ganga upp á Orminn langa undir vápn yður“. þá spurði enn ólafr Tryggvason: „hverir eigu þau skip in stóru, er þar liggja út ífrá flotanum“? Honum var sagt, at þat var Eiríkr jarl Hákonarson með Járnbarðann, er allra skipa var mest. þá mælti ólafr konungr: „mjök hafa þeir tignum mönnum skipat í móti oss, ok af þessu liði er oss ván harðrar orrostu; þeir eru Norðmenn sem vér, ok hafa opt sét blóðug sverð ok mart vápnaskipti, ok munu þeir þykkjast eiga við oss skapligan fund, ok svá er“. þessir fjórir höfðingjar, tveir konungar ok tveir jarlar, leggja til orrostu við ólaf Tryggvason, ok er Sigvaldi lítt við orrostuna getit, en þó segir Skúli þorsteinsson í sínum flokki, at Sigvaldi var þar. þessi orrosta varð harðla snörp ok mannskœð, féllu Danir mest, því at þeir váru næst Norðmönnum; þeir héldust eigi við ok leggja ífrá or skotmáli, ok fór þessi herr sem ólafr Tryggvason sagði; en eigi at síðr var hörð orrosta ok löng, féll af hvárumtveggja mikit lið ok mest af Svíum, ok þar kom at ólafr Svænski sá þat at bezta ráði fyrir sér ok sínu liði at vera sem first, ok lét síga á hömlur aptr undan, en Eiríkr jarl lá við síbyrt. ólafr konungr Tryggvason hafði lagt Orminn langa millim Ormsins skamma ok Trönunnar, en hin smæstu skipin yzt, en Eiríkr jarl lét fráhöggva hvert sem hroðit var, en lagði at þeim, er eptir váru. Nú er smærri skip ólafs konungs ruddust, stukku menninir undan ok géngu upp á hin stœrri skipin, varð í því mikit mannspjall í hvárntveggja flokkinn, en svá sem liðit féll af skipum Eiríks jarls, þá kom annat í staðinn af Svíum ok Dönum, en ekki kom í staðinn þess liðs, er féll af ólafi konungi; ruddust þá skip hans öll nema Ormrinn langi eigi, fyrir því at hann var borði hæstr ok bezt skipaðr; en meðan liðit var til, þá hafði þangat á gengit, ok hafði hann haldit sinni fullri skipan at manntali, þó at sumir létist fyrir honum. En þá er hroðinn var Ormr skammi ok Tranan, þá lét Eiríkr jarl þau ífrá höggva, en síðan lagðist Járnbarðinn síbyrðr við Orminn langa. þessi orrosta varð nú svá hörð, at furða var at, fyrst af sókn drengiligri, ok þó mest af vörnioni, er alla vega lögðu skip at Orminum, en þeir er vörðust géngu svá í mót, at þeir stigu niðr af borðunum ok í sjóinn, ok sukku niðr með vápnum sínum ok gættu eigi annars, en þeir berðist á landi, ok vildu æ-fram. þá féllu menn

mest um mitt skipit, þar sem borðin váru lægst, en fram um stafninn ok aptr í fyrirrúminu héldust menninir lengst við. Þá er Eiríkr jarl sá at Orminn var auðr miðskipa, þá gékk hann upp með fimtán menn, ok er þat sá Úlfr enn rauði ok aðrir stafnbúar, þá géngu þeir or stafninum framan ok svá hart at þar jarlinn var, at jarlinum varð undan at hrökkva ok aptr á skip sitt, ok þá er hann kom á Barðann, þá eggjaði jarlinn sína menn at sœkja at vel, ok géngu þá upp í annat sinn með miklu liði, var þá Úlfr ok allir stafnbúar komnir at lyptingunni, en hroðit var alt skipit framan, sótti þá lið Eiríks jarls öllummegin at þeim Ólafi konungi. Þá sótti Eiríkr jarl aptr at fyrirrúminu með sína menn, ok var þar hörð viðrtaka. Ólafr konungr hafði verit þann dag allan í lyptingunni á Orminum. Hann hafði gyltan skjöld ok hjálm, þunga hringabrynju ok svá trausta, at ekki festi á henni, ok er þó svá sagt, at eigi skorti vápnaburðinn at lyptingunni, fyrir því at allir menn kendu konunginn af því, at vápn hans váru auðkend ok hann stóð hátt í lyptingunni. Íhjá konunginum stóð Kolbjörn stallari með þvílíkan vápnabúnað sem konungr hafði. Nú fór þessi orrosta sem líkligt var, þar sem hvárirtveggja höfðu hraustir áhizt, at þeir létust þó er fámennari váru; ok þá er alt var fallit lið Ólafs konungs, þá hljóp hann sjálfr fyrir borð ok brá skildinum yfir höfuð sér, ok svá Kolbjörn stallari, en hans skjöldr varð undir honum á sjónum, ok kom hann sér eigi í kafit, ok þeir menn er váru á smám skipum tóku hann ok hugðu, at konungrinn væri sjálfr. Hann fékk þó grið af jarlinum. En eptir þat þá hlupu allir fyrir borð þeir er eptir lifðu, ok þó flestir sárir, ok þeir er griðin féngu, váru af sundi teknir; þat var Þorkell nefja, Karlshöfuð ok Þorsteinn ok Einarr Þambarskelfir. En eptir þat er orrostunnni var lokit, þá eignaðist Eiríkr jarl Orminn langa ok önnur skip Ólafs konungs ok margs manns vápn þeirra, er drengiliga höfðu borit til dauðadags.

Þessi orrosta hefir frægust verit á Norðrlöndum af því, at sagt er um vörn drengiliga, þar næst af atsókn ok sigrinum, er þat skip varð unnit á djúpum sæ, er engi maðr ætlaði vápnum sótt verða, en þó mest fyrir sakar þess, er þvílíkr höfðingi féll, er þá var frægastr á danska tungu. Svá mikit gerðu menn sér um at vingast í allri umrœðu við Ólaf konung, at mestr hluti manna vildi eigi heyra, at hann mundi fallit hafa, nema létu at hann var í Vindlandi eða í Suðrríki, ok eru margar frásögur um þat görvar, en hans ástvinir rœddust at þat mundi logit vera, ok lýsti Hallfreðr því Vandræðaskáld, sá maðr er svá mikit hafði unt konunginum, at menn segja at eptir fall konungs fékk hann vanheilsu af harmi, þá er honum vanst til dauðadags.

# 6. Audun den Vestfjordske.

Efter Morkinskinna.

Maðr hét Auðun, vestfirzkr at kyni ok félítill; hann fór útan vestr þar í fjörðum með umráði þorsteins búanda góðs ok þóris stýrimanns, er þar hafði þegit vist of vetrinn með þorsteini. Auðun var ok þar ok starfaði fyrir honum þóri, ok þá þessi laun af honum: útanferðina ok hans umsjá. Hann Auðun lagði mestan hluta fjár þess er var fyrir móður sína, áðr hann stigi á skip, ok var kveðit á þriggja vetra björg. Ok nú fara þeir út héðan ok ferst þeim vel, ok var Auðun of vetrinn eptir með þóri stýrimanni, hann átti bú á Mœri. Ok um sumarit eptir fara þeir út til Grœnlands ok eru þar of vetrinn. þess er við getit at Auðun kaupir þar bjarndýri eitt, gersimi mikla, ok gaf þar fyrir alla eigu sína. Ok nú of sumarit eptir þá fara þeir aptr til Noregs ok verða vel reiðfara; hefir Auðun dýr sitt með sér ok ætlar nú at fara suðr til Danmerkr á fund Sveins konungs, ok gefa honum dýrit. Ok er hann kom suðr í landit, þar sem konungr var fyrir, þá gengr hann upp af skipi ok leiðir eptir sér dýrit, ok leigir sér herbergi. Haraldi konungi var sagt brátt, at þar var komit bjarndýri gersimi mikil, ok á íslenzkr maðr. Konungr sendi þegar menn eptir honum, ok er Auðun kom fyrir konung, kveðr hann konung vel; konungr tók vel kveðju hans ok spurði síðan: „áttu gersimi mikla í bjarndýri“? hann svarar ok kvezt eiga dýrit eitthvert. Konungr mælti: „Viltu selja oss dýrit við slíku verði sem þú keyptir“? Hann sagði: „eigi vil ek þat, herra“! „Viltu þá“, sagði konungr, „at ek gefa þér tvau verð slík, ok mun þat réttara, ef þú hefir þar við gefit alla þína eigu“? „Eigi vil ek þat herra“! sagði hann. Konungr mælti: „Viltu gefa mér þá“? Hann sagði: „eigi herra“! Konungr mælti: „hvat viltu þá af gera“? „Fara“, sagði hann, „til Danmerkr ok gefa Sveini konungi“. Haraldr konungr sagði: „hvárt er, at þú ert maðr svá úvitr, at þú hefir eigi heyrt úfrið þann, er í milli er landa þessa, eða ætlar þú giptu þína svá mikla, at þú munir þar komast með gersimar, er aðrir fá eigi komizt klaklaust, þó at nauðsyn eigi til“? Auðun svarar: „herra! þat er á yðru valdi, en engu játum vér öðru, en þessu er vér höfum áðr ætlat“. þá mælti konungr; „hví mun eigi þat til, at þú farir leið þína sem þú vill, ok kom þá til mín, er þú ferr aptr, ok seg mér hversu Sveinn konungr launar þér dýrit, ok kann þat vera at þú sér gæfumaðr“. „því heit ek þér“, sagði Auðun. Hann ferr nú síðan suðr með landi ok í Vík, ok þá til Danmerkr; ok er þá uppi hverr peningr fjárins, ok verðr hann þá biðja matar bæði fyrir sik ok fyrir dýrit. Hann kemr á fund ármanns Sveins konungs, þess er Áki hét, ok bað hann vista nökkverra bæði fyrir sik ok fyrir dýrit: „ek ætla“, sagði hann, „at gefa Sveini konungi

dýrit“. Áki lézt selja mundu honum vistir, ef hann vildi. Auðun kveðst ekki til hafa fyrir at gefa, „en ek vilda þó, sagði hann, at þetta kvæmist til leiðar, at ek mætta dýrit fœra konungi“. „Ek mun fá þér vistir, sem it þurfit til konungs fundar, en þar ímóti vil ek eiga hálft dýrit, ok máttu á þat líta, at dýrit mun deyja fyrir þér, þars it þurfut vistir miklar, en fé sé farit, ok er búit við at þú hafir þá ekki dýrsins. Ok er han lítr á þetta, sýnist honum nökkvert þat eptir sem ármaðrinn mælti fyrir honum, ok sættast þeir á þetta, at hann selr Áka hálft dýrit ok skal konungr síðan meta alt saman. Skulu þeir fara báðir nú á fund konungs, ok svá gera þeir; fara nú báðir á fund konungs ok stóðu fyrir borðinu. Konungr íhugaði hverr þessi maðr mundi vera, er hann kendi eigi, ok mælti síðan til Auðunar; „hverr ertu“? sagði hann. Hann svaraði: „ek em íslenzkr maðr, herra“, sagði hann, „ok kominn útan af Grœnlandi, ok nú af Noregi, ok ætlaðak at fœra yðr bjarndýr þetta; keypta ek þat allri eigu minni, ok nú er þó á orðit mikit fyrir mér, ek á nú hálft eitt dýrit; ok sagði konungi síðan, hversu farit hafði með þeim Áka ármanni hans. Konungr mælti: „er þat satt, Áki! er hann segir“? „Satt er þat“, sagði hann. Konungr mælti: „Ok þótti þér þat tilliggja, þar sem ek settak þik mikinn mann, at hepta þat eða tálma, er maðr gerðist til at fœra mér gersimi, ok mundi fara ella eigi, ok sá þat Haraldr konungr at ráði at láta hann fara í friði, ok er hann várr úvinr? Hygg þú at þá, hversu úsannligt þat var þinnar handar, ok þat væri makligt at þú værir drepinn; en ek mun nú eigi láta drepa þik at sinni, en braut skaltu fara þegar or landinu ok koma aldrigi aptr síðan mér í augsýn! En þér, Islendingr, kann ek slíka þökk, sem þú gæfir mér alt dýrit, ok ver hér með mér“. Þat þekkist hann, ok er með Sveini konungi um hríð; ok er liðu nökkverjar stundir, þá mælti Auðun við konung: „braut fýsir mik nú, herra“! Konungr svaraði heldr seint: „hvat viltu þá“, segir hann, „ef þú vill eigi með oss vera“? Hann sagði: „suðr vil ek ganga“. „Ef þú vildir eigi svá gott ráð taka“, sagði konungr, „þá mundi mér fyrir þykkja, er þú fýsist í brot“; ok nú gaf konungr honum silfr mjök mikit ok fór hann suðr síðan með Rúmferlum, ok skipaði konungr til um ferð hans, bað hann koma til sín, er hann kvæmi aptr. Nú fór hann ferðar sinnar unz hann kemr suðr í Rómaborg, ok er hann hefir þar dvalizt sem hann tíðir, þá ferr hann aptr; tekr þá sótt mikla, gerir hann þá ákafliga magran; gengr upp alt féit þat er konungr hafði gefit honum til ferðarinnar; tekr síðan upp stafkarlstig ok biðr sér matar. Hann er þá kollóttr ok heldr úsælligr; hann kemr aptr í Danmörk at páskum þangat sem konungr er þá staddr; en eigi þorði hann at láta sjá sik ok var í kirkjuskoti ok ætlaði þá til fundar við konung, er hann géngi til kirkju um kveldit; ok nú er hann sá

konunginn ok hirðina fagrliga búna, þá þorði hann eigi at láta sjá sik. Ok er konungr gékk til drykkju í höllina, þá mataðist Auðun úti, sem siðr er til Rúmferla, meðan þeir hafa eigi kastat staf ok skreppu, ok nú of aptaninn er konungr gékk til kveldsöngs, ætlaði Auðun at hitta hann, ok svá mikit sem honum þótti fyrr fyrir, jók nú miklu á, er þeir váru druknir hirðmenninir; ok er þeir géngu inn aptr, þá þekti konungr mann ok þóttist finna at eigi hafði frama til at ganga fram at hitta hann. Ok nú er hirðin gékk inn, þá veik konungr út ok mælti: „gangi sá nú fram er mik vill finna, mik grunar at sá muni vera maðrinn". Þá gékk Auðun fram ok féll til fóta konungi, ok varla kendi konungr hann, ok þegar er konungr veit hverr hann er, tók konungr í hönd honum Auðuni ok bað hann velkominn, ok hefir þú mikit skipast", sagði hann, „síðan vit sámst"; leiðir hann eptir sér inn, ok er hirðmenn sá hann, hlógu þeir at honum; en konungr sagði: „eigi þurfu þér at honum at hlæja, því at betr hefir hann sét fyrir sinni sál heldr en ér". Þá lét konungr gera honum laug ok gaf honum síðan klæði ok er hann nú með honum. Þat er nú sagt einhverju sinni of várit, at konungr býðr Auðuni at vera með sér álengðar, kvezt mundu gera hann skutilsvein sinn ok leggja til hans góða virðing. Auðun sagði: „Guð þakki yðr, herra! sóma þann allan, er þér vilit til mín leggja, en hitt er mér í skapi at fara út Íslands". Konungr sagði: „þetta sýnist mér undarliga kosit". Auðun mælti: „Eigi má ek þat vita", sagði hann, „at ek hafa hér mikinn sóma með yðr, en móðir mín troði stafkarlstig út á Íslandi, því at nú er lokit þeirri björg, er ek lagða til, áðr ek fœra af Íslandi". Konungr sagði: „vel er mælt ok mannliga, ok muntu verða giptumaðr; sjá einn var svá hlutrinn, at mér mundi eigi mislíka, at þú fœrir í braut héðan; ok ver nú með mér, þar til er skip búast"; hann gerir svá. Einn dag er á leið várit, gékk Sveinn konungr ofan á bryggjur, ok váru menn þá at búa skip til ýmissa landa, í Austrveg eða Saxland, til Svíþjóðar eða Noregs; þá koma þeir Auðun at einu skipi fögru, ok váru menn at at búa skipit. Þá spurði konungr: „hversu lízt þér, Auðun! á þetta skip"? Hann sagði: „vel, herra"! Konungr mælti: „þetta skip vil ek þér gefa ok launa bjarndýrit". Hann þakkaði gjöfina eptir sinni kunnustu; ok er leið stund ok skipit var albúit, þá mælti Sveinn konungr við Auðun: „þó viltu nú á braut, þá mun ek nú ekki letja þik, en þat hefi ek spurt, at ilt er til hafna fyrir landi yðru, ok eru víða örœfi ok hætt skipum, nú brýtr þú ok týnir skipinu ok fénu, lítt sér þat þá á, at þú hafir fundit Svein konung ok gefit honum gersimi". Síðan seldi konungr honum leðrhosu fulla af silfri, „ok ertu þá enn eigi félauss með öllu, þótt þú brjótir skipit, ef þú fær haldit þessu". „Verða má svá enn", segir konungr, „at þú týnir fé, lítt nýtr þú þá þess, er þú fant Svein konung ok

gaft honum gersimi“. Síðan dró konungr af hendi sér hring ok gaf Auðuni, ok mælti: „þó at svá illa verði, at þú brjótir skipit ok týnir fénu, eigi ertu félauss, ef þú kemr á land, þvíat margir menn hafa gull á sér í skipsbrotum, ok sér þá at þú hefir fundit Svein konung ef þú heldr hringinum; en þat vil ek ráða þér“, sagði hann, „at þú gefir eigi hringinn, nema þú þykkist eiga svá mikit gott at launa nökkverjum göfgum manni, þá gef þeim hringinn, þvíat tignum mönnum sómir at þiggja, ok far nú heill“! — Síðan lætr hann í haf ok kemr í Noreg, ok lætr flytja upp varnað sinn, ok þurfti nú meira við þat en fyrr, er hann var í Noregi; hann ferr nú síðan á fund Haralds konungs ok vill efna þat, er hann hét honum, áðr hann fór til Danmerkr, ok kveðr konung vel. Haraldr konungr tók vel kveðju hans: „sezt niðr“, sagði hann, „ok drekk hér með oss“; ok svá gerir hann. Þá spurði Haraldr konungr: „hverju launaði Sveinn konungr þér dýrit“? Auðun svaraði: „því, herra! at hann þá at mér“. Konungr sagði: „launat munda ek þér því hafa; hverju launaði hann enn“? Auðun sagði: „Gaf hann mér silfr til suðrgöngu“. Þá sagði Haraldr konungr: „mörgum manni gefr Sveinn konungr silfr til suðrgöngu eða annarra hluta, þótt ekki fœri honum gersimar; hvat er enn fleira“? Hann bauð mér“, sagði Auðun, „at gerast skutilsveinn hans ok mikinn sóma til mín at leggja“. „Vel var þat mælt“, sagði konungr, ok launa mundi hann enn fleira“. Auðun sagði: „gaf hann mér knörr með farmi þeim, er hingat er bezt varit í Noreg“. „Þat var stórmannligt“, sagði konungr, “en launat munda ek þér því hafa. Launaði hann því fleira“? Auðun svaraði: „gaf hann mér leðrhosu fulla af silfri, ok kvað mik þá eigi félausan, ef ek hélda því, þó at skip mitt bryti við Ísland“. Konungr sagði: „þat var ágætliga gert, ok þat munda ek ekki gert hafa; lauss munda ek þykkjast, ef ek gæfa þér skipit; hvárt launaði hann fleira“? „Svá var víst, herra“! sagði Auðun, „at hann launaði, hann gaf mér hring þenna, er ek hefi á hendi, ok kvað svá mega at berast, at ek týnda fénu öllu, ok sagði mik þá eigi félausan ef ek ætta hringinn, ok bað mik eigi lóga, nema ek ætta nökkverjum tignum manni svá gott at launa, at ek vilda gefa; en nú hefi ek þann fundit, því at þú áttir kost at taka hvárttveggja frá mér, dýrit ok svá líf mitt, en þú lézt mik fara þangat í friði, sem aðrir náðu eigi“. Konungr tók við gjöfinni með blíðu, ok gaf Auðuni í móti góðar gjafir, áðr en þeir skildust. Auðun varði fénu til Íslandsferðar, ok fór út þegar um sumarit til Íslands ok þótti vera inn mesti gæfumaðr.

# 7. Brand den Gavmilde.

(Efter Morkinskinna).

Nú er frá því sagt, at eitthvert sumar kom Brandr inn örvi til bœjarins; hann var sonr Vermundar í Vatnsfirði; hann var maðr vinsælastr ok örvastr; en þjóðólfr skáld hafði sagt konungi jafnan frá Brandi, hve mikilmætis hann var ok vel at sér, ok svá hafði hann mælt þjóðólfr, at honum þœtti eigi sýnt at annarr maðr væri betr til konungs fallinn í Íslandi fyrir sakir örleika hans ok stórmensku. Hann hefir sagt konungi mart frá örleikum hans, ok mælti konungr: „þat skal ok nú reyna", sagði hann; „gakk til hans, ok bið hann gefa mér skikkju sína". þjóðólfr fór ok kom inn í skemmu, þar er Brandr var fyrir, hann stóð á gólfinu ok stikaði lérept; hann var í skarlatskyrtli, ok hafði skarlatsskikkju yfir sér, ok var bandit uppi á höfðinu, hann hafði öxi gullrekna í handarkrikanum. þjóðólfr mælti: „konungr vill þiggja skikkjuna". Brandr hélt fram verkinu ok svaraði engu, en hann lét falla af sér skikkjuna, ok tekr þjóðólfr hana upp ok fœrir konungi; ok spurði konungr, hversu fœri með þeim; hann sagði, at Brandr hafði engi orð um, sagði síðan hvat hann hafðist at ok svá frá búningi hans. Konungr mælti: „víst er sjá maðr skapstórr ok mun vera mikilsháttar maðr, er honum þótti eigi þurfa orð um at hafa. Gakk enn ok seg, at ek vil þiggja at honum öxi þá ena gullreknu; ekki þykki mér hann örr, nema hann gefi". Ferr nú þjóðólfr til fundar við Brand ok segir, at konungr vill þiggja öxina; hann rétti frá sér öxina ok mælti ekki. þjóðólfr fœrir konungi öxina ok segir, hve fór með þeim. Konungr mælti: „meiri ván at þessi maðr muni vera fleirum örvari, ok heldr fénar nú of hríð; far þú enn ok seg, at ek vil hafa kyrtilinn, er hann stendr í". þjóðólfr sagði: „ekki samir þat, herra! at ek fara optar". Konungr mælti: „þú skalt at vísu". Ferr hann enn ok kemr í loptit, ok segir, at konungr vill þiggja kyrtilinn. Brandr bregðr þá sýslunni, ok steypir af sér kyrtlinum ok mælti ekki; hann sprettir af erminni annarri ok kastar braut síðan kyrtlinum, en hefir eptir ermina aðra; þjóðólfr tekr hann upp ok ferr á fund konungs, ok sýnir honum kyrtilinn. Konungr leit á ok mælti síðan: „þessi maðr er bæði vitr ok stórlyndr; auðsætt er mér, hví hann hefir erminni afsprett, honum þykkir sem ek eiga eina höndina, ok þá þó at þiggja ávalt en gefa aldrigi, ok fari nú eptir honum; ok var svá gert, ok fór Brandr til konungs ok þá af honum góða virðing ok fégjafar; ok var þetta gert til raunar við hann.

# 8. Magnus Barfods Fald.

Efter Morkinskinna.

Nú er þat sagt, þá er Magnús konungr hafði ráðit landinu 9 vetr, þá byrjar hann annat sinni ferð sína vestr um haf; þar var þetta kveðit:

Hví launa þér þínir (vestr bifask rengr í röstum)
þingmæltir dýrlingar, reyndu oss, jöfurr! hnossir?

þá svaraði konungr:

Auð hefi ek minn, þanns mönnum (húf lét ek klökkvan klífa
margteitum réð ek veita, kólgur) illa fólginn.

Í þessi ferð hafði konungr allmikit lið ok frítt. Ferr nu konungr fyrst til Orkneyja ok hefir þaðan með sér Erling son Erlends jarls, ok mikit lið annat; sigldi þaðan til Suðreyja, ok síðan út til Írlands ok herjar þar ok átti marga bardaga við Íra, ok hafði jafnan sigr; sigldi eptir þat suðr til Dýflinnar ok settist um borgina at vinna hana. þá mælti Magnús konungr við lið sitt: „þat er mönnum kunnigt, at vér höfum görvar nökkurar ferðir vestr í lönd þessi, ok hefir jafnan mikit at unnizt, ok má þat nú vera at vér vinnim enn nökkut til sœmdar váru ríki Noregi. En nú er þó eptir meira miklu at sœkja en fyrr, þvíat þetta land stendr saman með miklum gœðum; megum vér þat ætla, ef vér vinnum sigr á þeim Írunum, hversu mikit í mun kaupast, mér fyrst at upphafi, ok svá yðr út ífrá; leggit á at betra hug, at þat er líkligast, at ek unna mér landa; en hér er þó mikil gnótt fjár, ok munu þér taka þat jöfnum höndum, ok eigi nú at eins, heldr mætti þat eigi forverkum gerast meðan þetta land stendr með svá miklu fé ok prýði, ok er þessi borg ein auðgust er nú sitjum vér um; höfum vér ok lið svá frítt ok gott, at ek hygg at oss sœkist vel, ok leggjum á sem beztan hug“. þá sagði Sigurðr Sigurðarson: „Herra! Allir mundu þess búnir at vinna yðr til sœmdar, en hræddir erum vér um nökkut í þessu landi, hvat til sœmdar vill gerast; er land þetta fjölment, en fólkit svikalt, ok er os uggr á hve til verðr geymt; fór svá um frænda yðarn Harald konung, at fyrst var honum alt uppgefit í Englandi, þar sem hann kom við, en þó lauk svá, at hann lézt þar sjálfr. Mundi vinum þínum þykkja allrabezt, at þú hefðir kyrr setit í þínu ríki, svá gott sem þú átt um at véla“. Konungr svaraði: „Um þetta er nú at ráða, sem komit er, ok mun oss frábært ganga, ef vér erum fullskeleggir“. þeir gera síðan atgöngu at borginni, ok verðr þar hörð orrosta; þeir vinna borgina at lyktum ok þó með mörgum brögðum, þótt vér kunnim þar eigi greiniliga frá at segja, ok fær Magnús konungr þar vald yfir, ok setr þar yfir sína menn til gæzlu. En Magnús konungr sjálfr fór upp á Kunnaktír, ok var þar lengi um vetrinn, ok átti lag ok vináttu við konung er fyrir Kunnaktíri réð, er Myrkjartan hét.

Magnús konungr fór nú víða um Ulaðstír ok herjaði ok þýddi sér landit, ok fékk unnit þann hluta landsins, bjóst þá síðan um sumarit til Noregs ok setr gísla sína ok gæzlumenn í Dýflinni, en hann lá þá albúinn til brautferðar með öllu liði sínu ok ætlaði at sigla þaðan norðr til eyja. Magnús konungr þóttist þurfa strandhögg, ok skyldi Myrkjartan konungr senda honum ofan af Kunnaktum, ok beið þess um hríð, ok er seinkaðist at strandhöggin kœmi, þá sendi hann eptir menn sína, ok enn bar svá til at þessir menn váru nökkuru seinni en hann hugði, ok þá gengr Magnús konungr sjálfr á land upp með mestan hluta liðs, ok vildi leita eptir mönnum sínum, er eigi kómu aptr með strandhöggin, en þat var Bartholomeus messu-aptan; ok þá er hann fann sína menn, var hann genginn mjök langt á land, ok kómu þeir þá móti honum með strandhögg ok ætluðu at fœra honum. Snýr konungr þá aptr liði sínu, en þar var svá landsleg, sem þeir fóru, at í stöðum váru hrískjörr þau ok mýrar nökkurar ok sumum stöðum djúp milli hrísanna, ok váru klappir yfir fenin. Þá hafði þó samnazt fyrir hann herr íranna, ok var kominn mjök nær þeim, þá er þeir fundu, á milli þeirra ok skipanna. Þá mælti konungr: „búist menn nú við“, sagði hann, „ok hyggit at því, at þér snúist eigi á flótta fyrir brœklingum, ok þat er nú drengiligt at sýna sik, sem þér eruð, góðir drengir, kann ok vera at nú megi þat sýnast, hvat þér vilit veita yðrum konungi“. Biðr nú skipa liðinu undir merkit, ok verðr þar nú mikil orrosta, ok dróst írunum svá mikit lið saman, þótt mart væri drepit, at hálfu meira var þá en fyr öndverðu. Kom þá svá at Norðmenn féllu, en sumir flýðu. Magnús konungr vildi eigi flýja. Hann hélt æ skúrinni sinni ok skjaldborg fyrir merki sínu, ok hugði, at Upplendingar myndi skjóta til íranna, er þeir drógust yfir fenin, en þeir köstuðu þó heldr skjöldum á bak sér ok runnu, sem þeir máttu aftaka, til skipanna; þá kallaði Magnús konungr á Þorgrím húfu ok mælti: „úvitr var ek þann dag, er ek gerða útlagan Sigurð hund, ok var hitt þó miklu fíflsligra, er ek görða þik lendan mann, ok údrengiliga skilst þú nú við mik, ok minnast mætta ek þessa, ok eigi mundi Sigurðr svá fara, ef hann væri hér“. Eptir þetta flýðu allir þeir, er aptar stóðu ok yfir fenit, en konungr sjálfr stóð undir merkinu ok barðist, ok hugði at hlýða mundi, fyrir því at langa hríð hjoggu þeir íra niðr sem búfé, en æ þars einn var höggvinn, þá kómu tveir í staðinn af landi ofan. Ok þá er þyntist um merkit, fékk Magnús konungr lag af spjóti í gegnum báða fótleggi, ok braut hann af sér þegar spjótit ok kastaði á brot, kallaði síðan ok bað þá berjast, kvað sik ekki mundu til saka. Magnús konungr var auðkendr, hann hafði hjálm gyldan á höfði ok skjöld fyrir sér, ok var skrifat á leó með gulli, sverð í hendi er kallat var Leggbiti, váru at tannhjölt, ok vafiðr gulli meðalkaflinn, ok var

allra sverða bitrast; hann hafði dregit silkihjúp rauðan um útan skyrtuna, ok var þat allra manna mál, at eigi hèfði sét vígligra mann með jafnmörgum vápnum eða tíguligra höfðingja. Ok litlu síðar fékk Magnús konungr högg af spörðu írskri, ok kom á hálsinn við herðarnar, ok var þat hans bani ok féll konungr þá. Víðkuðr Jóansson hafði næst konungi verit um daginn, ok þat sýndist enn, þvíat hann hjó þann mann er konungi hafði veitt banasár, ok svá at hann tvískipti hlutum hans ísundr, síðan tók hann Leggbita, sverð Magnúss konungs, en skjöldrinn var únýtr. Víðkuðr hafði fengit þrjú sár í bardaganum, ok nú er konungr fann, at hann var sárr til úlífis, þá bað hann Víðkunn hjálpa sér með flótta, „ok er mest vánu", sagði hann, „at hér verði nú várr skilnaðr, ok hefir þú vel mér fylgt ok drengiliga, ok ber kveðju mína Sigurði konungi ok öllum vinum mínum". Ok nú flýði hann ok svá annat liðit þat er undankomst til skipa sinna, ok þat sagði Víðkuðr sjálfr, at þá er menn runnu ok hann rann frá konunginum, at fáir mundi þá kunna frá þeim tíðindum at segja, er þar váru eptir á vetfanginum. Þar féll Erlingr son Erlends jarls, ok Eyvindr Finsson ok margir stórir höfðingjar féllu þar með Magnúsi konungi. Víðkuðr komst til skipa, ok alt flóttalið þat, sem brautkvámu varð auðit, ok géngu þeir á skip sín ok fóru unz þeir kómu í Noreg. Ok it sama haust hittu þeir Sigurð konung vèstr í eyjum, ok höfðu hann til Noregs með sér. En þá váru settir jarlar yfir Orkneyjar Magnús Erlendsson ok Hákon Pálsson. Ok nú áðr þeir fœri frá Orkneyjum, ok Sigurðr konungr hafði spurt tíðendin um fráfall föður síns, ok kunni engi frá því glöggra at segja en Víðkuðr Jóansson, þvíat hann hafði einna manna bazt fylgt konungi, ok flýði eigi fyrr, sem áðr gat ek, en konungi var ráðinn bani ok konungr sjálfr bað hann flýja, ok því fær Víðkuðr mikinn metnað af sonum Magnúss konungs. Ok nú lætr Sigurðr eptir vestr þar dóttur Mælkolms Skota konungs ok vildi ekki eiga hana, ok kveðr sér alt leitt þat er kom til höfðingja vestr þar bæði í Skotlandi ok svá Irlandi, svá mikit sem hann hafði þar látit.

## 9. Thorgils Skarde.

Efter Sturlunga Saga.

Böðvarr son Þórðar Sturlusonar bjó at Stað, hann átti Sigríði Arnórsdóttur, synir þeirra váru þeir Þorgils, Sighvatr ok Guðmundr, dœtr þeirra váru þær Helga, er fyrr átti Páll Sámsson, en síðar Þjóðúlfr Kotkarl, ok Alfdís, er átti Þórðr Hítnesíngr, ok Hallbera er átti Guðlaugr prestr Hallfreðarson, ok Guðrún ok Vígdís. Þorgils var elztr sona Böðvars. Guðmundr biskup biskupaði hann tvívetran, ok spurði hverrar ættar hann væri? honum

var þat sagt. Biskup var þá atspurðr, hvat honum litist um sveininn? hann mælti: „ef þessi maðr fær aldr ok þroska, þá man hann verða hraustr maðr ok höfðingi mikill, en eigi kemr þat mér úvörum at hann verði eigi ellidauðr“. Guðmundr biskup gaf sveininum gullsylgiu ok mælti vel fyrir honum. Þorgils var vænn maðr yfirlits, herðamikill ok gerviligr, hvítr á hár ok hörund, eygðr manna bezt, miðmiór, herðabreiðr, hrokkit hár ok fór vel, hann var hraustr ok harðgerr, syndr vel ok hinn mesti harðfari í hvívetna, fámæltr ok fastheitinn, hvert hann hét góðu eða illu, þá var hann örr í at efna; í efri vör hans var skarð þat er hann var með alinn, því var hann kallaðr Þorgils Skarði. Sighvatr Böðvarsson var seingerr maðr í uppvexti, en varð þó mikill maðr ok mjúkr ok vel glímufœrr, hann var ok syndr vel ok hagr ok örðigr nökkut ok lagamaðr mikill, ekki var hann friðr sýnum, en þó var hann yfirbragðsmikill ok kominn á sik vel, brigðlyndr ok nökkut bráðskapaðr. Guðmundr Böðvarsson var friðr sýnum, mikill maðr á vöxt, harðfengr í knáleikum, hœgr hversdagliga ok hélt mjök til gleði. Þorgils Böðvarsson óx upp at Stað með föður sínum, þar til er varð víg Snorra Sturlusonar í Reykjaholti, gerði Gissurr þann kost Böðvari at sverja honum trúnaðareið eðr fá honum gísla, tók Böðvarr þat ráð, at fá honum í gíslíngu Þorgils son sinn ok Guttorm Þórðarson bróðurson sinn, Þorgils var þá fimtán vetra gamall, váru þeir þann vetr í Túngu með Gissuri, fékk hann sinn mann hvárum þeirra til þjónustu, hét annarr þeirra Björn Sigurðarson, en annarr Steinn Bersason. Gissurr var vel til Þorgils, ok þótti hann meira háttar ok setti hann hit næsta sér. Þorgils var heldr illr viðskiptis ok vandlyndr. Guttormr var hœgr ok góðr við hvern mann. Gróa húsfreyja var bezt til þeirra. Sá atburðr varð þar, at þá skildi á um tafl Þorgils Böðvarsson ok Sám Magnússon frænda Gissurar, vildi Sámr bera aptr riddara, er hann hafði teflt í uppnám, en Þorgils lét því eigi ná, þá lagði til Markús Marðarson, at aptr skyldi bera riddarann, „ok látit ykkr eigi áskilia um taflᵘ“. Þorgils sagðist ekki fyrir hans orð gera mundu, ok svarfaði taflinu ok lét í punginn ok stóð upp ok laust við eyra Sámi svá at blœddi ok mælti við: „mikit er þat at vita, at vér skulum engan hlut þora at halda til jafns við frændr Gissurs“! þá var hlaupit fram ok sagt Gissuri, ok kom hann inn ok spyrr, hvert Sámr þyrði eigi at hefna sín? Þau Guttormr ok Gróa höfðu setit á palli, er Gissurr kom í stofu, ok heyrðu at hann andsakaði sveinana reiðuliga, géngu þau til ok prestr með þeim. Þorgils svaraði Gissuri heldr skapraunasamliga; Gróa tók í hönd Gissuri ok mælti: „hví lætr þú svá reiðuliga? mér þœtti þú eiga fyrir at svara, þótt hann hefði þat nökkut gert er bótþurfa væri“. Gissurr mælti: „ekki vil ek á þessu þinn dóm“. Hon svarar: „ek skal þá bœta, ef þarf“. Leiddu þau Þorgils á brott ok

báðu hann vel svara Gissuri, en þorgils kvazt þat eigi mundu gera. Lögðu þá margir til ok kölluðu þetta vera bernsku bragð, féll þat þá niðr, ok var Gissurr færri við þorgils en áðr. Fyrir jól lét Gróa gera þorgilsi grœnan kyrtil af nýju klæði, en hann átti áðr blán ok gaf hann Sámi, ok váru þeir jafnan síðan góðir vinir. þenna vetr lét Úrœkia Snorrason drepa Klœing Bjarnarson í Reykjaholti annan dag jóla, ok fór síðan at Gissuri í Skálaholt, var þar þá bardagi hinn níunda dag jóla. þorgils var þá í kirkjunni, þvíat Gissurr vildi eigi at hann væri í bardaga, fór þá svá at þeir Gissurr ok Úrœkia sættust; fór þorgils eptir þat vestr til Staðar ok þeir félagar.

þat er nú því næst at segja, at þá er þorgils var átján vetra, rézt hann til útanferðar með þeim manni er Eiríkr Skarði hét, hann var maðr norrœnn. Sá maðr fór með þorgilsi er Bergr hét. En er þorgils var við skip, kom þar þórðr Sighvatsson, ok mæltust þeir þorgils vel við, hét þórðr honum sínu trausti, þá er hann kynni þurfa, bauð hann honum til sín, ef hann vildi þat, þorgils kvazt þat mundu þegit hafa, ef hann hefði fyrr boðit, en kvazt nú eigi vilja bregða ferð sinni. þórðr kvað þat fyrir hönduni, þótt síðar væri. Skildu þeir með vináttu, létu þeir þorgils í haf ok fórst þeim vel, tóku þeir land við Björgvin. Eiríkr bauð þorgilsi til vistar með sér ok þeim félögum, ok fóru þeir með honum inn í Sogn, en þorgils kvazt með þeim manni vera vilja, er göfgastr væri í því heraði, en þá var ríkastr maðr í því heraði Brynjúlfr son Jóns Stáls, hann átti höfuðból at Hváli. En er þorgils kom heim með Eiríki, veitti Eiríkr honum vel ok með mikilli sœmd, mátti þorgilsi þar gott þykkja fyrir manna sakir, en eigi gazt honum þar at hýbýlum. þar var vandi Eiríks, þá hann kom heim or kaupferðum, at hann hafði vinaveizlu ok bauð til vinum sínum ok grönnum, ok eigi nú sízt, er þar váru komnir með honum þeir menn er mikils þóttu verðir; bauð hann þangat Brynjúlfi frá Hváli ok þóri af Steðja, þar var ok annat fjölmenni mikit ok veizla góð; váru þeir sessunautar Brynjúlfr ok þorgils, töluðu þeir mart ok lagðist vel á með þeim, þóttist Brynjúlfr finna, at þorgils var miklu meira háttar en alþjóð manna, vissi hann ok góð skil á ætt hans ok bauð honum heim með sér ok þeim félögum. þorgils vildi þat þiggja, en Bergr var þess hvergi fúsari, þó réð þorgils, ok fóru þeir með Brynjúlfi, en er þeir koma heim, tekr hann við þeim báðum höndum, ok slær á algleyming við þorgils, ok setr hann hit næsta sér. Brynjúlfr fékk honum svein til þjónustu er Pétr hét; fór þat svá at sveinninn var eigi athugall, en þorgils þá heldr illa, ok var útraust at hann svipaði honum eigi stundum, en Brynjúlfi gazt ekki at því, er sveinninn var skyldr honum. þar váru hýbýli góð ok

mannmart löngum, drykkjur miklar ok glaðværi, urðu bœndr misjafnt við drykkinn. Geirmundr hét nágranni Eiríks Skarða ok frændi, hann hafði vingazt við þorgils, er hann var með Eiríki, ok gefit honum tapar-öxi snaghyrnda ekki mikla ok hit bezta járn, hann var í jólaboði Brynjúlfs með Eiríki ok drakk eigi varliga, váru þar miklar drykkjur ok mörg víti. Björn hét maðr er var með Brynjúlfi, aldraðr maðr ok hafði lengi verit með honum, ok hafði þat starf, at hann gerði öl ok varðveitti drykk hversdagliga. þorgilsi þótti Björn vera heldr fastr af drykk hversdagliga, hafði hann af því grun, at Björn fœri með rógi ok hviksögum milli þeirra Brynjúlfs, ok var þá heldr fátt með þeim. Björn var maðr skapbráðr, ok þóttist eiga traust mikit ok örugt, var áleitinn ok öfundsamr. Eiríki var skipat hjá Bergi, þá Geirmundi, þá sátu bœndr hverr hjá öðrum ok höfðu sveit eigi alllitla. Bergr drakk jafnan lítit, þvíat hann var krankr, ok skyldi hann því eigi meira drekka en hann vildi ok engi víti, var Brynjúlfr vel til hans, þótti hann vera gegn ok úskapbráðr. þorgils var hinn mesti drykkjumaðr ok misjafnt skapgóðr við drykkju, þat var hit áttunda kveld jóla at drukkit var allrafastast, var þá drukkit vín er áleið. Á annan bekk sátu frelsingjar Brynjúlfs ok tveir hirðmenn Hákonar kounngs, Árni Ivarsson ok Ketill Langr, váru þar fyrst druknar sveitardrykkjur, síðan slógust í hnýfildrykkjur, gerðust þá flestir druknir þeir er inni váru, talaði Geirmundr flest um, at hann þóttist vera ofsettr, en þótti sem drykkr væri falsaðr. þá bar Björn ker at Geirmundi, en hann drap við hendinni ok sló upp í fang honum, fór drykkrinn niðr í hálm. Björn reiddist við ok varð málóði, kvað Geirmund vera snáp mikinn ok laust með hnefa sínum á nasir honum, svá at blóð flaut um hann allan ok mælti ilt við. þorgils varð skjótastr upp at hlaupa, þreif hann upp dýrshorn mikit ok þungt af búningi silfrs ok steina ok setti millum herða Birni svá at hann steyptist áfram ok kom ennit niðr, ok varð þar undir kerit er hann hafði haldit á, skeindist hann á enninu, en kerit brotnaði alt í sundr. þorgils vildi ljósta annat, en Bergr hélt honum. Brynjúlfr hljóp þá upp ok allir menn hans, slíkt hit sama Eiríkr ok bœndr með honum, var þorgils þar í liði, hélt þá maðr á manni, Brynjúlfr var hinn reiðasti. Eiríkr mælti til Brynjúlfs: „geymit til, bóndi, at hark þetta semist, ok er þat yðr sœmd ok allra þeirra er hér eigu hlut at“. Brynjúlfr mælti: „lítill vani hefir þat hér verit, at menn væri barðir í hýbýlum mínum“. þá mælti Arni: „lítit á hitt, bóndi, hver fyrstr barði, ok er þat siðr yðarr Sygna, at drekka þar til at engi veit hvat at sér horfir, en Birni kom þetta eigi fyrr at höndum en ván var“; lögðu nú margir gott til. Árni mælti þá enn: „þat er betr at hér er engi maðr sakaðr, er fyrir þat gott um at tala, ok förum fyrst at sofa, en tölum um þetta á myrgin er vér erum údruknir,

man oss þá öllum einn veg sýnast«. Eiríkr stóð vel undir þetta ok margir aðrir, fóru menn þá at sofa, en um myrgininn eptir hlýddi Brynjúlfr tíðum, síðan géngu menn til drykkju, ok er menn váru þar komnir, þá setjast menn niðr, þá mælti Árni: »þat er öllum mönnum kunnigt þeim sem hér eru, hverir atburðir hér urðu í gærkveld manna í millum, erum vér nú allir údruknir ok megum virða þessi mál eptir sönnum efnum, er þat eigi vel, bóndi, at svá varð er þér mislíkar, en mér lízt svá sem sá væri eigi friðarins allmákligr er braut jólafriðinn fyrstr í þínum hýbýlum«. Ketill mælti: »svá lízt mér«. Björn mælti: »þat kann ek þér at segja, Árni, þótt yðr þyki mín skömm lítilsverð, at vera skal annathvárt, at ek skal hafa fyrir fulla sœmd eðr hefna mín sjálfr«. þorgils svarar: »ef þú heitast við mik, Björn, at gera mér eina skömm, þá skal ek gera þér tvær skammir, þær er þú skalt mega báðar hendr á festa«. Björn mælti mart, en þorgils þagnaði. Eigi má þar inna hvers manns tillögur, en þeir lögðu þar bezt til hirðmenninir Arni ok Ketill, Eiríkr ok Bergr, báðu þeir þorgils vægja til fyrir Brynjúlfi bónda ok ráði þeirra manna er þar váru mest virðir, en þorgils þagði, sem hann var vanr, ef hann reiddist. Allmisjafnt lögðu menn til, en þessi varð lykt á með ráði Brynjúlfs bónda ok þeirra manna er þar váru mest virðir í hjá ok bezt vildu tilleggja, at mál þessi féllust í faðma, ok skyldi engi öðrum fé bœta, seldi þá hvárr öðrum grið, en síðan settust þeir niðr ok drukku, var bóndi þá allkátr ok hvárr við annan, drukku nú af jólin, fóru nú bœndr heim síðan ok kurraði þat hverr í sínum hýbýlum, at vetrgestr Brynjúlfs mundi eigi vera hvers manns leika. Eptir jólin varð með Brynjúlfi ok þorgilsi engir margleikar, en þó góðar afleiðingar. þat er nú þessu næst at segja, at Brynjúlfr átti erindi yfir fjörð, at sœkja skjöldu sína ok vápn, þótti honum vel, at hann reyndi hve auðsveipr þorgils væri, ok beiddi at hann mundi vera fyrir ferð þessarri, er þá var ekki mannmart heima, en þorgils segir: at þess eins sendimaðr eðr lestreki vill hann vera í Noregi, er enn væri ríkari en Brynjúlfr. Brynjúlfi þótti þar opt hit sama uppspretta. Bergr bauð Brynjúlfi at sœkja skjöldana fyrir þorgils með öðrum manni, ok þat vildi hann. Bergr tók sjúkleik um vetrinn ok lá lengi ok var atkominn bana, ok batnaði er áleið, var nú atburðalaust héðan frá um þarvist þorgils, svá at vér vitum frá at segja.

Um várit eptir páska byrjaði Brynjúlfr ferð sína suðr til Björgvinar til móts við Hákon konung, fór þá með honum þorgils ok Bergr, var hann þá fœrr, en er þeir kómu suðr, fundu þeir Hákon konung, tók hann þeim vel. Konungr hafði frétt af, at um vetrinn hafði verit með Brynjúlfi íslenzkr maðr einn af Sturlunga ætt, er orð fór af, hafði þar þat sannazt, sem mælt er, at mörg eru konungs eyru, hafði hann frétt af þeim viðskiptum,

er orðit höfðu millum þeirra Brynjúlfs ok Íslendinga um vetrinn. Aron Hjörleifsson var þá með konungi, hann hafði reynt af Böðvari vináttu mikla, þá er hann var skógarmaðr Sturlu Sighvatssonar. Aron var hirðmaðr Hákonar konungs ok var kærr konungi, var hann ok góðr drengr. Aron gékk at þorgilsi ok fagnar honum vel, „ok skal þér heimilt alt þat gott, er ek hefi til at veita þér, hvert sem þat er fé eðr fulting". þorgils þakkaði honum vel ok kvað eigi annat líkara þykkja en hann mundi með honum vera, en fyrst mun ek vera með Brynjúlfi. Aron hafði fjárkost ekki mikinn, en sparði engan hlut við vini sína, bauð hann þorgilsi því til sín, at hann átti garð, var hann jafnan fullr af íslenzkum mönnum, skildust þeir þorgils ok Aron, fór þorgils með Brynjúlfi til þess herbergis er hann átti, settust þeir þá til drykkju. Um daginn mælti Brynjúlfr: „þér hafit verit með mér í vetr, ok vil ek kalla at vel hafi farit, en fundit hefi ek þat, at augu yðar standa lengra fram til þess at þjóna ríkara manni en ek em, er þat ok satt at slíkt eru konungsmenn, en eigi mælta ek því þetta, at ek spara mat við þik eðr drykk, vil ek vera búinn til at flytja mál þitt við konung, at hann taki við þér ok geri þik sinn mann, sem mik grunar at þér leiki í skapi". þorgils þakkar honum sín ummæli, en kvazt fúsastr at fara til Íslands, en ef hann næði því eigi, vildi hann gjarna ganga til handa konungi ok gerast hans maðr. Litlu síðar fundust þeir konungr ok Brynjúlfr, ok verðr þat í tali þeirra, at konungr spyrr at hinum íslenzka manni er verit hefir með honum um vetrinn. Brynjúlfr segir konungi frá ætt þorgils, ok kannast hann skjótt við, þvíat margir Sturlungar höfðu verit með honum. Brynjúlfr segir konungi, at „þorgils vildi fá af yðr fararleyfi til Íslands", konungr kvað þess enga ván, þvíat í þann tíma hélt Hákon konungr mörgum ríkra manna sonum í Noregi, þvíat hann hafði mjök í hug at fá skatt af Íslandi. Konungr mælti: „mundi þessi maðr vera með þér í gær er vit fundumst, mikill maðr ok drengiligr, fríðr ok bragðmikill, ok á lýti mikil í andlitinu, ok svá ungr, at eigi mun grön sprottin"? „Sá er rétt hinn sami", segir Brynjúlfr, „ok gerit svá vel, herra, at þér takit við honum sœmiliga ok gerit hann yðarn mann, ef hann skal eigi ná at sigla til Íslands at vitja frænda sinna ok eigna; er hann ekki hér peningaríkr". Konungr tók því vel, lét Brynjúlfr þá senda eptir þorgilsi, kom hann þá fyrir konung ok kvaddi hann; konungr tók því vel, þar var þá Aron Hjörleifsson ok flutti með þorgilsi, at konungr tœki við honum sœmiliga, konungr segir at hann mun ná hirðmannsnafni, ef hann reyndist eptir því sem þeir Brynjúlfr ok Aron sögðu, ef honum sýndist, en kvað þat ekki mundu skjótt ráðast. þorgils kvazt þess ekki mundu lengi bíða at sinni, þótti eigi örvænt at koma mætti hann þar, þótt hann leitaði

annarra landa, at hann kœmi sér í sveit með ríkum mönnum, þvíat Ólafr föðurbróðir hans hafði verit í Danmörku með Valdimari konungi, ok fengit af honum mikinn sóma. Aron mælti: „takit þér, herra, vel við þeim sumum, sem eigi mun jafnmikit mannkaup í sem þessum manni“. Brynjúlfr mælti: „svá skulut þér ætla, herra, at hraustum karlmanni mun skipat í þat rúm, sem þorgils hlýtr at standa“. Konungr brosti þá. þorgils mælti: „vilit þér, herra, gefa orðlof til, at ek sjá frjáls ok fara hvert er ek vil annarstaðar, ef ek fer eigi til íslands“? „Víst eigi“, segir konungr, „ek skil at þú munt vera maðr bráðlátr ok heldr ákaflyndr, engum sœmdum þykkjumst ek hafa afsvarat þér, þótt ek vilja fyrr reyna, hversu mér gezt at þinni þjónustu“, skildu þeir at þessu, segir þorgils Aroni, at hann mundi ráðast í garð hans, skildu þeir vel, Brynjúlfr ok þorgils. Ragnhildr hét kona Arons, ok var hon hinn mesti öflunarmaðr, en hann eyddi eigi seinna en hon aflaði. þorgils var þar um hríð ok varð ilt til fjár, þvíat hann sá, at Aron var févani, en hann vildi hvervitna fult fyrirleggja þann kostnað er Aron hafði fyrir honum; höfðu þeir sveit mikla ok váru ekki dælir.

þá er skip tóku at búast um várit, lét þorgils rita á vaxspjaldi ok sendi konungi; var þat þar á, at hann beiddi at konungr leyfði honum at fara til íslands eðr ella til annarra landa, kvazt eigi lengr vera vilja í úfrelsi. En er konungr sá þetta, virði hann svá sem þorgilsi géngi til stœrð ok metnaðr, er hann vildi eigi sjálfr flytja við sik sem aðrir menn, en þó sendi konungr eptir honum, kom þorgils þá fyrir konung. Margrét dróttning ok Ívarr Englason féhirðir konungs ok fátt annarra manna var þá hjá konungi; með þorgilsi var Aron ok Bergr. Dróttning var hinn mesti vin Sturlunga, sem verit hafði Skúli hertogi faðir hennar, hon bað þorgils setjast niðr hjá sér, en hann settist á fótskemil hjá fótum hennar. Konungr mælti þá: „beiddist þú út til íslands, þorgils“? „Já, herra“, segir hann. Konungr mælti: „ek mun nú segja þér, hversu vera skal um hag þinn, þú skalt hér vera, en hvergi fara, mun ek gera þik minn mann sem þú beiddist, en svá hefir mér spurzt, sem þér félagar þykkit verit hafa ekki spakir til fulls“. Dróttning mælti: „slíkt verðr opt ungum mönnum“. Aron mælti: „ek skal þar fyrir svara, ef þat þykkir nökkurs áfátt hafa verit“. Konungr mælti þá brosandi: „ek veit eigi hvárt þú mátt nökkut á hendr takast meira en svara fyrir þik“. Tók konungr þá til at spyrja þorgils at íslandi, frá föður sínum ok frændum, þórði Kakala ok öðrum höfðingjum, en þorgils segir konungi slíkt er hann spyrr. Konungr spyrr, hverr sá maðr er, sem fylgði þorgilsi; hann nefndi sik ok föður sinn. Aron kvað föður hans hafa verit vitran mann ok vel fjáðan ok hinn bezta bónda, „hann beiðist hirð-

göngu ok hirðmannsnafns, herra, sem yðr má kunnigt vera«. Konungr segir: »mun eigi þat vel fallit, þvíat ek hefi af honum þat frétt, at han mun vera spakr maðr? skaltu þorgils ok þér félagar vera í boði mínu uppstigningardag, en síðan gerast handgengnir«. Gaf konungr þorgilsi laufgrœnt klæði fjórtán álna langt, síðan var þorgils í boði konungs uppstigningardag, en síðan gerast handgengnir ok hirðmenn föstudaginn eptir þeir báðir þorgils ok Bergr, gaf konungr þá þorgilsi skjöld ok brynju, þvíat þau vápn skorti hann áðr; var þorgils þá löngum á konungsgarði ok þótti vera heldr skapbráðr.

Sá atburðr gerðist þar, at eina nátt var þar eldr lauss í bœnum, var þá blásit um allan bœinn, ok er þetta herboð kom í konungsherbergi, klæddist hann nú sjálfr skjótt ok hét á þá menn er hjá honum váru, lét hann blása út allri hirðinni ok öllum bœjar lýðnum til þessa úfriðar, ok vápnuðust menn sem til bardaga, ok skipaði konungr hirð sinni þar sem honum þótti mest þurfa, bað konungr menn fara varliga ok þó djarfliga, varð eldsgangrinn svá ákafliga mikill, at úlíkligt þótti at slökt mundi verða, var þá margs í leitat, borit í vatn ok sær ok brotin víða herbergi; konungr kvað á, hvar þorgils skyldi standa, en hann vildi framganga miklu lengra, fékk hann svá mikinn háska við þat, at þat þótti með úlíkindum, er hann hélt lífi meiðingarlaust. Um síðir lét konungr taka konungskips segl ok gera alvátt ok bera at eldinum, varð þá þat um síðir at eldrinn sloknaði með guðs miskun ok hamingju konungs, en þorgils fékk þann orðróm af konungi sjálfum ok öllum öðrum er vissu, at engi maðr hefði þar jafnvel borit sik at bjarga sem hann í jafnmiklum háska, svá sem Sturla þórðarson hefir kveðit í erfidrápu þeirri er hann orti um þorgils, ok þessa naut þorgils jafnan síðan hjá konungi, svá at hann þoldi honum betr en flestum öðrum jafnar tilgerðir. Næsta dag eptir brennuna kom þorgils í herbergi dróttningar, tók hon honum vel, ok þakkaði honum, hvat drengiliga hann hefði gefizt um náttina, ok er hon sér, at klæði hans eru brunnin, þá gaf hon honum vel sex álnir af skarlati, hann þakkaði henni þetta; fékk þorgils af þessu mikla sœmd.

Í þann tíma kom af Íslandi þórðr Kakali, hafði þá áðr orðit Haugnessfundr ok þau tíðendi er þar af leiddi, var þá Gissurr þorvaldsson í Noregi ok settust þeir þar undir konungsdóm, segja þá svá einarðliga fram sín málefni fyrir konungi, at þá greindi ekki á. þorgils kom þá til fundar við þórð ok var löngum með honum, ok einn dag er þeir drukku í konungsherbergi, mælti konungr til þórðar: »hví lætr þú eigi gera at lýti frænda þíns«? Hann svarar: »þar þurfum við, herra, at njóta við þinna ráða, en ek vil þar eigi fé spara, ef þér ætlit at at megi gera«. Konungr mælti: »þat ætlak at at megi gera, ok nefndi til lækni þann er Vilhjálmr hét, var þá leitat át

lækninum ok urðu þeir kaupsáttir, gerði hann með konungsráði at, sat konungr sjálfr hjá, þóttust menn þat sjá, at þetta var mikil þrekraun, en þorgils þoldi þat vel, gréri sárit svá at þorgils varð maðr lýtlauss ok var nú maðr fegri yfirlits en áðr. þórðr Kakali fékk eigi orðlof til íslands, dvaldist hann með konungi um hríð, þar til er honum var skipuð sýsla. þorgils var með konungi nökkura vetr ok þóttist vera haldinn ok kunni því illa.

Hákon konungr hafði skipaðan jarl í þrándheimi Knút son Hákonar jarls galins. Knútr var mikill maðr vexti ok vænn sýnum, hann hafði margar náttúrur fram yfir aðra menn; engi var sá maðr í Noregi, er svá kunni skynja steina náttúru sem hann, var hann drykkjumaðr mikill ok þótti vera nökkut vanstiltr við drykkju, þá er á hann fékk. Hinn síðasta vetr er þorgils var í Noregi, var hann norðr í þrándheimi með Eysteini Hvíta, ok höfðu þeir sveit mikla af norrœnum mönnum ok íslenzkum mönnum. Eysteinn var bóndi góðr, mart var annarra manna handgenginna með honum í bœnum bæði hirðmenn ok gestir; konungr var eigi í bœnum. þorgils var mest fyrir konungsmönnum. Knútr jarl var þá ríkastr maðr í bœnum, ok var með honum sveit mikil. Mart varð til greina um vetrinn með konungsmönnum ok jarlsmönnum. þat var eitt sinn, at þeir Knútr jarl drukku í einu herbergi ok þorgils ok mikill fjöldi annarra manna, ok váru nökkut druknir, var þá talat mart, mælti Knútr jarl heldr háðugliga til íslendinga, talaði til Snorra Sturlusonar ok annarra íslenzkra manna, er verit höfðu með Skúla hertoga, tók jarl á þeim öllum lítilmannliga, en þorgils svarar svá í móti, at þeir frændr hans mundi verit hafa, at eigi mundi sik allir vanta þykkja á við hann fyrir útan nafnbót. þetta líkaði jarli stórilla, urðu þeir af þessu mjök sundrorða, kom þá svá, at jarl hljóp upp bölvandi ok greip öxi, en er þorgils sá þat, sprettr hann upp ok brá sverði, hlupu menn þá á milli svá þykt, at þeir náðust ekki til, skildu þeir at því, gengu þeir þorgils á brott litlu síðar; leið af náttin, stóð jarl upp ok hlýddi tíðum, síðan sendi hann eptir þorgilsi ok bauð honum í boð sitt; var þorgils tregligr, en Eysteinn fýsti þorgils, fór til með honum Eysteinn ok mjök margir saman, var jarl þá hinn blíðasti, ok skildu vel, var þá kyrt um hríð ok áttust fátt við. þat bar til eitthvert sinn, at ágreindi jarlsmann ok gest konungs, ok urðu þeir mjök andorða, alt þangat til gestrinn vann á jarlsmanni, þat var síð dags. En er gestrinn kom til herbergis síns ok segir frá þessum atburðum, var þar fátt manna fyrir, en flestir fýstu hann at fara í kirkju eðr á traust konungsmanna, þangat sem fleiri væri fyrir. Jarl varð skjótt var þessarra tíðinda, þvíat hann vissi gerla hvert er hann hafði farit. Manninum hafði svá dvalizt, at hann var þá kominn út af herberginu, er

jarlsmenn kómu at ok tóku hann ok fœrðu hann jarlinum ok léku hann illa; þá var myrkt, svá at jarli þótti eigi tóm til at drepa hann, var hann þá settr í fjötra ok kastat inn ok læst herbergi ok fengnir menn til at varðveita hann. Gestrinn hafði átt friðlu í garðinum, ok þegar er hon vissi hvar komit var, hljóp hon kallandi með gráti miklum í garð Eysteins Hvíta, ok segir þeim þorgilsi Skarða ok öðrum konungsmönnum, hversu maðrinn var nauðuliga kominn, ok hann mundi drepinn, nema þeir frelstu hann með nökkuru móti, bar hon sína sögu með hinum mesta ákafa. þorgils vildi þegar at þeir tœki manninn út með valdi, en Eysteinn vildi, at þeir stefndu at sér konungsmönnum, þótti þeir of liðfáir vera til hvárstveggja, fyrst at taka út manninn, en verja sik eptir, ok svá gerðu þeir sem hann vildi vera láta ok fleiri lögðu ráð eptir, stefna at sér konungsmönnum ok búast um í garðinum; síðan er á leið náttina, fara þeir þorgils með sína sveit til þess herbergis er maðrinn var inn kastaðr, verða vökumenn við þat varir, skipast þeir fyrir durum, ok hyggja at þessir munu ekki svá harðliga at ganga, en þorgils laust þann er fyrir honum varð öxarhamarshögg mikit, ok fleiri váru þar lamdir, er fyrir váru ok stukku frá; gékk þorgils at hurðinni ok braut, tók manninn í fang sér ok bar út, braut síðan af honum fjöturinn, fór þessi maðr með þorgilsi heim í garðinn, en varðmenn segja jarlinum, hversu harðliga þeir váru leiknir; varð hann við þat reiðr mjök, ok lét blása saman hirðmönnum sínum ok handgengnum mönnum ok öllum þeim er hans flokk vildu fylla; lét jarl þá bera út merki sitt ok vápnaðist sjálfr ok allir hans menn, ganga þeir nú út eptir bœnum, ok er nú sagt þeim þorgilsi, at jarl ferr at þeim með her mikinn vápnaðan ok létu heldr úfriðliga. þorgils heitir nú á menn sína at þeir skulu ganga út á vígin er þeir höfðu gert ok verja hendr sínar röskliga, ef þess þarf við, „ok látum konung þat spyrja, at hann hefir drengjum skipat, en ekki dáðleysingjum“! Géngu þeir þá út ok fram í vígin, kom þá jarl at í því ok spurði: „hefir þú, þorgils ok þér félagar, gert hér svá mikit hervirki, brotit upp herbergi ok barit menn mína, en tekit þann í brot med valdi, er sjálfr hafði unnit til dauða“? þorgils kvað þat satt, at þessi maðr var á þeirra valdi er hann leitaði eptir, „en annat ætlak þat eitt gert er lítillar umrœðu sé vert, er nú vel at þú reynir þat í dag hvárt Íslendingar eru svá linir ok lítilsháttar, sem þér sögðut í vetr“. Jarl mælti: „slíkt er mikit ofbeldi útignum mönnum at halda til jafns við oss eðr meira“. Taldi hann nú margar sakir við þorgils ok eggjaði þá menn sína til atsóknar. þorgils segir sér þat vel líka, „skulut þér, jarl, minni til reka, áðr þér náit manninum“; menn urðu seinir til atsóknar, þvíat þeir váru margir með jarli, er þar áttu frændr ok vini í garðinum eðr aðra vand-

amenn. Eysteinn bóndi var svá vinsæll, at engi af bóndum var vinsælli, þá lögðu hinir betri menn til ok báru sáttmál í millum þeirra, en jarl var hinn óðasti ok bað bera eld at bœnum, en þorgils gékk út í garðinn með brugðit sverðit, ok bað jarl þar undir ganga, ef hann þœttist eptir nökkuru eiga at sjá þar, tókust þá meðalgöngur, tjáðu menn þá fyrir jarli hver úfœra honum væri at gera svá mikit hervirki á konungsþegnum ok í konungsgarði; kom þá svá fyrir jarli, at hann mundi taka sjálfdœmi, en er þorgilsi var þat tjáð, neitaði hann því þverliga, bað jarl þá sœkja eðr fráhverfa. Eysteinn segir, at þorgils mundi vilja konungsdóm á málinu. þorgils segir, at hann vildi, at svá búit stœði til konungsfundar, en síðan gerði hann ráð fyrir sættinni. Eysteinn segir eigi sið, at mál stœði opin. þorgils mælti: „sé ek, Eysteinn, at þú ert sáttgjarn". „Svá er víst", segir Eysteinn, „þykkir mér góðr friðrinn, því ek em honum vanastr, en haltu þó, þorgils, þessu máli svá fast sem þú vilt, fyrir því at ek mun eigi fyrstr við þik skiljast, ok fyrr skal hér í garðinum eitt ok drukkit alt þat er ætt er, en ek taka nauðasætt af jarlinum". „Mæl þá drengja heilastr", segir þorgils. þá gékk Jórunn húsfreyja út í garðinn ok mælti svá: „þess bið ek þik, þorgils, ef ek hefi nökkut svá gert, at þér þykkir vel, þá stýr þú ekki þessu máli í svá mikit vandræði, at þú hafir þik í veði eðr bónda minn með öðrum góðum mönnum, ef þú átt kost sœmiligra sátta. Ok fyrir hennar fortölur hneigðist þorgils, áttu nú margir hér hlut í at menn skyldi sættast, kom þá svá, at jarl varð at því leiddr með fortölum vina sinna, at hann bauð alla málavöxtu á konungsdóm, gékk þá sættin saman, svá at þegar skyldi konungr dœma öll mál úskoruð þau er þeirra í milli váru orðin ok honum þœtti dóms þurfa. þótti þorgils vel hafa fylgt þessu máli, ok fékk hann hér fyrir gott orð.

Um várit eptir páska fóru þeir þorgils á konungsfund, tók hann þeim vel, segja þeir konungi slíkt sem í hafði gerzt með þeim Knúti jarli, líkaði konungi vel þessi málalok, dvaldist þorgils þá með konungi; þá var með konungi herra Heinrekr byskup, Gissurr þorvaldsson ok Finnbjörn Helgason, váru þeir þá allir ráðnir til útferðar ok beiddust skipanar af konungi. Konungr kallaði arf Snorra Sturlusonar hafa fallit undir sik, slíkt hit sama lendur þær er Snorri hefði átt á deyjanda degi útan stað í Reykjaholti, skyldi þorgils vera semjandi ok sœkjandi allra þessarra mála er lög mætti á standa um meðferð þessa fjár. Finnbirni skipaði konungr ríki fyrir norðan Vöðlaheiði, ok ætlar honum bústað á Grenjaðarstöðum, Gissurr hafði ríki sitt fyrir sunnan land ok skyldi hvárr þeirra veita öðrum, Gissurr ok þorgils, hit sama var Finnbjörn skyldaðr at veita þeim ok svá þeir honum. Heinrekr byskup hét konungi ok öllum þeim sínu trausti. En er þetta var alt ráðit,

þá hjoggu þeir skip sín til hafs ok fóru þeir allir í skip með Eysteini Hvíta ok fóru þetta sumar til Íslands.

## 10. Sturla Thordssön
### hos Kong Magnus Haakonssön.
Efter Sturlunga Saga.

Þeir Hrafn Oddsson ok Sturla Þórðarson fundust at ákveðnu; urðu þau málalok at menn Sturlu féngo lífs grið ok lima, en Hrafn réð einn sáttum ok réðst þat at Sturla skyldi fara útan um sumarit á Eyrum. En er Sturla fór til skips, var útkominn Hallvarðr Gullskór, fann hann Þórð mág sinn á Þingvelli, segir hann honum þau tíðindi, at Hákon konungr var or landi farinn, en Magnús konungr var fyrir landstjórn ok dróttning ok Gautr af Meli, barst Sturla þat fyrir at koma sér i kærleika við þau, þegar hann vissi at konungr væri or landi, þvíat hann ugði hans fjandskap mest, fór Sturla þá á Eyrar suðr, var þar þá Gissurr jarl, ok lét eigi vel við Sturlu. Eptir þetta fór Sturla útan á Eyrum, hafði hann nær ekki í fé, fórst þeim vel ok tóku land við Björgvin, ok var þar fyrir Magnús konungr. Þá var ok í Björgvin Gautr af Meli, gékk Sturla þegar á fund Gauts, tók hann því vel ok mælti: „ertu Sturla hinn íslenzki"? „svá er víst", segir hann. Gautr mælti: „heimill er þér matr með mér sem öðrum Sturlungum". Sturla mælti: „eigi er víst at ek eiga betra kosti", fór hann þá til vistar með Gauti ok segir honum af hit ljósasta um þangatkómu sína, en Gautr segir honum aptr á móti, hversu mjök hann var aflluttr við Magnús konung, en þó meir við Hákon konung. Litlu síðar géngu þeir Gautr ok Sturla til Magnúsar konungs, kvaddi Gautr konung, en hann tók því vel. Sturla kvaddi ok konung, en hann svarar engu. Konungr mælti: „seg, Gautr, hverr þessi maðr er, er með þér ferr". Gautr mælti; „þessi maðr er Sturla skáld Þórðarson, ok er nú kominn á yðra miskun, ok hygg ek vera, herra, vitran mann". Konungr mælti: „þann hyggjum vér, at hann væri eigi hér kominn, ef hann væri sjálfráði, en þó mun hann reyna þá er hann finnr föður minn". Gautr mælti: „þat hygg ek at hann muni hafa yðr kvæði at fœra ok svá föður yðrum". „þat er líkast", segir konungr, „at eigi látak drepa hann, en ekki kemr hann í mína þjónustu". Gékk Gautr ok Sturla þá í brott, en er þeir kómu til herbergis, mæti Gautr við Sturlu: „þungliga þótti mér konungr taka þínu máli, en þó eru þér grið ráðin, ok ætlak þú hafir mjök aflluttr verit". Sturla svarar: „eigi efa ek þat, heldr þykkjumst ek vita, at Hrafn mun mik hér mjök afllutt hafa, er mér þótti á Íslandi tiltíat smátt ok stórt, satt ok logit". Annan dag eptir

gékk Gautr ofan í konungsgarð, ok er hann kom aptr ok þeir Sturla töluðust við, mælti Gautr: „skipazt hefir nú um mál þitt, fyrir því at konungr vill nú at þú farir með honum suðr með landi". Sturla mælti: „mun eigi konungr hljóta at ráða? en eigi fýsir mik í brott héðan", rézt hann þá til ferðar með konungi ok var skrásettr í skip, gékk hann þá til skips ok var fátt manna komit, hafði hann húðfat ok sviptikistu, settist hann fram á þiljur.

Nökkuru síðar gékk konungr á bryggjur ok sveit manna með honum, stóð Sturla þá upp ok hné honum ok kvaddi hann, en konungr svarar engu ok gékk aptr eptir skipi til lyptingar, sigldu þeir um daginn suðr með landi, en um kveldit, er menn brutu upp vistir sínar, sat Sturla kyrr ok bauð engi maðr honum til matar. Þá gékk þjónustumaðr konungs um skipit ok spurði Sturlu ef hann hefði nökkura vist ok drykk? hann kvazt hvárki hafa. Síðan gékk þjónustumaðrinn til konungs ok mælti við hann hljótt, síðan gékk hann fram í skip til Sturlu ok mælti: „þú skalt fara í mötuneyti með þeim Þóri Munn ok Erlendi Maga". Þeir tóku við honum ok heldr fáliga, en er menn lögðust til svefns, þá spurði stafnbúi konungs hverr skemta skyldi? Flestir létu hljótt yfir því. Þá mælti hann: „Sturla hinn íslenzki, viltu skemta"? „Ráð þú", segir Sturla; segir hann þá Huldarsögu betr ok fróðligar en nökkurr þeirra hafði fyrr heyrt er þar váru, þröngðust þá margir fram á þiljurnar ok vildu heyra sem görst, varð þar þröng mikil. Dróttning spurði: „hvat þröng er þar fram á þiljunum"? maðr segir: „þar vilja menn heyra til sögu er hann Íslendingrinn segir". Hon mælti: „hvat sögu er þat"? hann svarar: „þat er fra tröllkonu mikilli ok er góð sagan, enda er vel frásagt", Konungr bað hana gefa at þessu engan gaum ok sofa. Hon mælti: „þat ætlak at Íslendingr þessi mun vera góðr drengr, ok sakaðr minnr en flutt hefir verit. Konungr þagði. Sváfu menn þá af náttina, en um myrgininn eptir var engi byrr ok lá konungr í sama lægi, en er menn sátu at drykkju um daginn, sendi konungr Sturlu sendingar af borði. Mötunautar Sturlu urðu við þetta glaðir, „ok hlýzt betra af þér en vér hugðum, af slíkt venst opt á". En er menn váru mettir, sendi dróttning eptir Sturlu, bað hann koma til sín ok hafa með sér tröllkonu söguna, gékk þá Sturla aptr í lyptingina ok kvaddi konung ok dróttning. Konungr tók kveðju hans lágt, en dróttning vel ok léttiliga; bað dróttning hann segja þá sömu sögu, er hann hafði sagt um kveldit, hann gerði svá, ok sagði mikinn hluta dags sögu, en er hann hafði sagt, þakkaði dróttning honum ok margir aðrir, ok þóttust skilja at hann var fróðr maðr ok vitr, en konungr svarar engu ok brosti at nökkut svá. Þóttist Sturla þá sjá, at alt skap konungs var þá léttara en hinn fyrra

daginn, segir hann þá konungi at hann hefði ort kvæði um hann ok svá um föður hans, „vildak at þér hlýddut til“. Dróttning mælti: „látit hann kveða, þvíat mér er sagt at hann sé hit mesta skáld, ok mun kvæðit vera ágæta gott“. Konungr bað hann kveða ef hann vildi, „þat er þú þykkist um mik ort hafa“. Þá kvað Sturla til þess er lokit var. Dróttning mælti: „þat ætlak at kvæðit sé vel ort“. Konungr mælti: „kanntu mjök gerla at heyra“? Hon mælti: „ek vilda at yðr þætti svá, herra“. Konungr mælti: „spurt hefi ek at Sturla kann at yrkja“. Kvaddi Sturla konung ok dróttning ok gékk til rúms síns. Gaf Konungi eigi at sigla þann dag, en um kveldit áðr hann fór at sofa, lét hann kalla á Sturlu, ok er hann kom, kvaddi hann konung, ok mælti síðan: „hvat vilit þér mér, herra“? Konungr bað taka silfrker fult af víni ok drakk af nökkut, fékk síðan Sturlu ok mælti: „vín skal til vinar drekka“. Sturla mælti: „guð sé lofaðr, at svá séa“. „Svá skal vera“, segir konungr, „en nú vil ek at þú kveðir kvæði þat er þú hefir ort um föður minn“. Sturla kvað þá kvæðit, en er lokit var, lofuðu menn mjök ok mest dróttning. Konungr mælti: „þat ætlak at þú kveðir betr en pávinn“. Konungr spurði Sturlu at um þangatkomu hans. Sturla segir konungi vel ok einarðliga frá skiptum þeirra Hrafns, „en nú veit ek, herra, at ek hefi affluttr verit við föður yðvarn ok yðr af úvinum mínum ok eigi með sönnu efni, nú þarf ek sem allir aðrir guðs miskunar ok yðvarrar ásjár, herra, ok nú er alt mit mál á yðru valdi“. Konungr svarar vel ok hógliga ok mælti: „nú hefi ek heyrt kvæði þín, Sturla, ok hygg ek at þú munir vera hit bezta skáld, nú mun ek þat at launum leggja, at þú skalt heimkominn með mér í náðum ok góðum friði, en faðir minn á sök á sínum málum er þit finnist, en gott mun ek tilleggja“. Dróttning þakkaði konungi ok kvazt hyggja at Sturla væri hinn bezti drengr. Konungr tók þá Sturlu vel ok tærði honum vel ok sœmiliga. Dróttning var til hans forkunnar vel, ok svá gerðu aðrir eptir, ok litlu síðar kom Sturla í hina mestu kærleika við konung, ok hafði konungr hann mjök við ráðagerðir sínar ok skipaði honum þann vanda at setja saman sögu Hákonar konnugs föður síns, eptir sjálfs hans ráði ok hinna vitrustu manna forsögn. En áðr hann lét setja söguna saman, hafði Hákon konungr andazt í Orkneyjum, ok þótti mönnum þat mikil tíðindi um öll norðrlönd ok hinn mesti skaði. Ok þá í annarri útanferð Sturlu var hann enn með Magnúsi konungi vel haldinn ok mikils metinn, þá setti hann saman sögu Magnúsar konungs eptir bréfum ok sjálfs hans ráði, gerðist hann þá hirðmaðr Magnúsar konungs ok þar næst skutilsveinn. Hann orti mörg kvæði um Magnús konung ok þá margfalda sœmd þar fyrir. Síðan kom útan af Íslandi Helga Þórðardóttir kona Sturlu ok synir hennar, var hon þar fyrir sakar Sturlu

tekin í hina mestu sœmd af dróttningu. Þórðr Sturluson kom útan ok fór til konungs, ok var vígðr til prests, og varð síðan hirðprestr Magnúsar konungs ok fékk mikla virðing ok andaðist þar. Sturla orti um Birgi jarl af Svíþjóð tólf vísna flokk, ok þá þar laun fyrir, var þat ágætr kyrtill hálfermaðr, baldikinn ok skarlat ok ágætt kaprún. En er þeir Magnús konungr ok Birgir jarl fundust, þá fœrði Sturla drápu er hann hafði ort um Birgi jarl, þakkaði jarl honum vel kvæðit ok bauð Sturlu upp í Svíaveldi með sér, „skal þik hvárki skorta góða hesta né gangsilfr“. Sturla gaf jarli þar fyrir góðar þakkir, „en konungr hefir mér gefit útferðarleyfi til Íslands“, en konungr leit frá ok brosti við, þvíat þeir Sturla höfðu eigi um þat talat, en þó lét konungr honum leyft vera þat sumar út at fara til Íslands.

## 11. Islænderen Laurentius Kalfssön i Norge.

(Af Laurentius's Saga).

Þá er þeir herra Pétr (Guðleiksson) á Eiði ok síra Lafranz kómu til Noregs [1]), sat Eiríkr konungr (Magnússon) í Björgvin, ok tók hann við herra Pétr með hinum bezta blíðskap, þvíat hann var kærr vinr konungsins. Vakti herra Pétr bónorð við skylda frændkonu konungsins, var hon austr í Vík. Beiddist hann at konungrinn skrifaði henni til. Bað hann herra Pétr at láta skrifa ok dikta bréfit, en sagðist mundu gefa fyrir innsiglit. Þá kallaði herra Pétr síra Lafranz til sín ok bað hann at dikta ok skrifa á latínu sem hann kunni. Síra Lafranz mæltist undan, sagðist ekki til þessa fœrr, at gera þetta; „en þó at ek sjá hér til lítt fœrr at gera þetta, þá em ek þó skyldugr at gera hvat þér vilit“. Næsta dag eptir sýndi hann herra Pétri bréfit skrifat ok diktat. Gékk herra Pétr þá til konungsins með bréfit ok sýndi honum. Konungr lofaði mjök letr ok diktan prestsins, eptirspyrjandi at þess nafni. Hann svaraði honum at íslenzkr prestr einn hefði gert, hvern hann flutti af Íslandi. Konungrinn bað hann segja þeim prestinum at hann væri í boði hans um daginn. Drakk konungrinn honum til eitt stórt vínker. Annan dag eptir kom konungsins smásveinn til síra Lafranz ok sagði at konungrinn kallaði hann; gékk hann til konungsins í hans málstofu ok gaf honum góðan dag. Konungrinn tók honum blíðliga ok spurði hvárt hann væri sá prestr sem herra Pétri hefði diktat bréfit. Hann sagði svá vera mundu. Konungrinn sagði honum til reiðu at vera í sinni þjónustu. Síra Lafranz þakkaði konunginum sitt boð, en sagðist hafa lofat

1) I Aaret 1294.

sinni pílagrímsferð til sancti Ólafs í Niðarósi. „Kom til vár", sagði konungrinn, „er þú kemr aptr, en ver í boði váru um jól ok allar hátíðir ok þá tíma sem þér líkar". Var hann ok um vetrinn í höllinni með konunginum, en stundum uppá kost herra Pétrs. Váru þar með Eiríki konungi margir mikilsháttar menn af ýmsum löndum, þeir sem margs váru kunnandi. Millim þeirra var einn maðr, þrándr Fisilar at nafni, ok kunni margt klókt at leika, meir með náttúruligri list en með nökkurskonar galdri; var hann flæmskr at kyni. Viðr þann mann lagði Lafranz kærleika; sagði hann honum marga hluti, þar hann fór mjök eptir at nema fróðleik meðan hann var ungr, en fór þó aldrigi með galdr eðr forneskju. Í jólum lék þrándr Fisilar herbrest: hann verðr svá skjallr at fáir menn standast at heyra hann; með konunum leysist burðr, þeim sem með barni eru ok heyra hann, en karlmenn falla or sætum á gólf niðr, eða verða ýmislig viðbrögð. Sagði þrándr Lafranzi at hann skyldi stinga fingrunum í eyru sér þá er brestrinn yrði. Stóðust margir eigi í höllinni sem hann gerði brestinn. Sýndi þrándr Lafranzi hvat til þurfti at hafa at gera brestinn; en þat eru fjórir hlutir: eldr, brennusteinn, bókfell ok strý. En menn gera til þess herbrest opt í stríði, at þeir sem ekki vita vánir í, flýi víðs vegar.

Um várit eptir [1]) fór Lafranz norðr til þrándheims; sat Jörundr erkibyskup þar. Var missætti millum kórsbræðra ok hans. Jörundr erkibyskup var mikill höfðingi, klerkr góðr, vinfástr ok stórgjöfull við sína menn, manna sœmiligastr at sjá til hans. Var þá kominn fyrir litlu klerkr einn mikill, Jón Flæmingi; hafði hann lengi til París staðit ok til Orliens at *studium*; var hann svá mikill juristi at enginn var þá í Noregi hans líki; hafði ok erkibyskupinn þar mikit at styðjast við, sem hann var; þvíat allir mestháttar kórsbræðr váru honum mótstaðligir; appelleruðu þeir íðuliga til pávans ok fengu bréf mörg af pávagarði erkibyskupi til þunga. Vildi ok erkibyskupinn gjarna fá klerka hvar sem hann kunni. Mátti því Jón Flæmingi miðr gagnast erkibyskupi í deilum þeirra kórsbræðra, at hann kunni ekki norrœnu at tala, ok skildi alþýðan ekki mál hans, þvíat hann talaði alt á latínu, frönsku, eða flæmsku. Í þenna tíma kom síra Lafranz til þrándheims; beiddist hann orðlofs at tala við Jörund erkibyskup, ok at því fengnu sýndi hann honum orðlofsbréf af Jörundi byskupi á Hólum, hvert er birti at hann gaf síra Lafranzi orðlof til erkibyskups um svá langan tíma sem honum líkaði hann hjá sér at hafa. Varð erkibyskupinn mjök glaðr við þetta, svá talandi: „mikla þökk kunnum vér Jörundi byskupi fyrir þat er hann sendi þik til vár; skaltu vera guði velkominn með oss; en kom til vár á morgin ok sýn

---

1) D. e. 1295.

ess letr þitt ok ef þú kant nökkut at dikta“. Næsta dag eptir kom síra Lafranz til erkibyskups, haldandi á einni rollu. Erkibyskupinn leit á ok lofaði letrit ok mælti: „Les fyrir oss þat er þú hefir diktat“! Hann las þar af vers er hann hafði gert til frú Hallberu abbadísar at Stað. „Er hon góð kona“, sagði erkibyskupinn, „er þú hefir svá lofat hana“? — „þat halda menn satt á Íslandi“, sagði Lafranz. — „Legg af héðanaf versagerð“, sagði erkibyskupinn, „ok stúdera heldr í kirkjunnar lögum; eðr veiztu eigi *quod versificatura nihil est nisi falsa figura*“?„ — Vita munu þér ok *quod versificatura nihil est nisi maxima cura*“ [1]). — þá lét erkibyskupinn kalla Jón Flæmingja ok mælti til hans: „þenna mann, síra Laurentium, felum vér þér á hendr, bjóðandi at þú leggr alla stund á at kenna honum kirkjunnar lög; skulum ver þér þat góðu launa“. „Eðr hvarfyrir berr þú rauð klæði“, sagði hann til síra Lafranz, „þar sem þau eru klerkum fyrirboðin at bera“? — „því“, sagði hann, „at ek hefi engi önnur til“. þá mælti hann við einn sinn svein hljótt; gékk sá brott ok kom inn litlu síðar með brún klæði sœmilig er erkibyskupinn hafði sjálfr borit. Hann mælti þá til Lafranz: „ger þessi hátíðisdaga klæði en tak íhjá ráðsmanni várum í garðinum peninga til at kaupa yðr með blá klæði at bera dagliga, en gefit þessi rauðu klæði yðrum sveini; sitit til borðs á ráðsmanns stóli hjá Jóni Flæmingja“.

Síra Lafranz gékk dagliga til *studium* at læra kirkjunnar lög þess ímillum er erkibyskupinn sendi hann at gera sín boð í deilum þeirra kórsbrœðra, sem þá stóð yfir; varð Lafranz skjótt hinn kærasti erkibyskupinum, þvíat honum virðist hann vitr ok ráðugr, en einarðr ok snjallr í framburðinum. Um vetrinn eptirfaranda í langaföstu *in dominica lætare Jerusalem* [2]) lét erkibyskupinn kalla Laurentium í kapellu sína um messu. „Meðr því“, sagði hann, „at nú er merkiligr sunnudagr, viljum ver gefa yðr Ólafskirkju hér í bœnum, þvíat hon er nú laus“. Lafranz þakkaði honum fyrir alla velgerð sér veitta.

Lafranz stúderaði jafnan í kirkjunnar lögum er meistari Jón Flæmingi las honum, váru þeir ok miklir vinir sín ímillum. Lafranzi þótti mikil skemtan at hann brauzt við at tala norrœnu, en komst þó lítt at. Einn tíma mælti Jón Flæmingi við Lafranz: „ek vilda at þú flytir við minn herra at hann veiti mér Maríu kirkju inn hér í bœnum, þviat hon er nú *vacans*“. Lafranz svarar: „hversu má þat vera, þar sem þér kunnit ekki norrœnu at tala“? — „Kann ek sem mér þarfar“, sagði Jón, „ok þat mér liggr á at tala“. — „Skygnum nú þá“, sagði Lafranz, „sem kominn sé föstu-inngangr;

---

1) Rimeligviis Laurents's Svar. 2) D. e. den 5te Marts 1296.

þá verðr at tala fyrir sóknarfólki yðru, hversu þat skal halda langaföstuna“. — „Á þenna máta“, sagði Jón Flæmingi; „nú er komin lentin, hvern mann kristinn komi til kirkju, geri sína skrifin, kasti burt konu sinni, maki enginn sukk! *nonne sufficit domine*“? þá hló Lafranz ok mælti: „ekki skilr fólkit hvat *lentin* er“. Sagði hann erkibyskupi, ok gerðu þeir at mikit gaman, en féngu Jóni nökkura afleiðing sinnar beizlu, því hann var mjök bráðlyndr ef eigi var svá gert sem hann vildi.

Einn tíma kómu mörg Íslandsför til þrándheims, ok váru á margir íslenzkir menn; vildi síra Lafranz þeim öllum nökkut til góða gera. þar kom millum annarra sá maðr er Klœingr Steifr hét ok frændi Lafranz ok honum heimuligr. En sem Jón Flæmingi sá þat, vildi hann gera honum nökkut athvarf, ok talaði einn tíma við Lafranz á latínu ok mælti: „kennit mér at heilsa á þenna yðarn kompán uppá norrœnu“. Lafranz þótti mikit gaman at Jóni, ok sagði; „heilsaðu honum svá: „fagnaðarlauss kompánn“! „Ek undirstend“, sagði Jón, „at þetta mun vera fögr heilsan, því *gaudium* er fagnaðr, en *laus* er lof“; gengr síðan at Klœingi, klappaði honum á hans herðar ok mælti: „fagnaðarlauss kompánn“! Hinn hvesti augun ímóti, ok þótti heilsanin eigi vera svá fögr sem hinn ætlaði. Nú mælti Jón Flæmingi við Lafranz: „ek forstend nú at þú hefir dárat mik, því þessi maðr varð reiðr við mik“.

Jón Flæmingi hafði sér þjónustukonu svá ljóta ok leiðiliga at varla fanst ferligri ásjóna en sú sem hon bar. Síra Lafranz sagði meistara Jóni einn tíma hvarfyrir hann vildi hafa svá forljóta konu hjá sér? Jón svarar: „ek em bráðlyndr maðr, ok þylda ekki vel ef nökkurr ginti mína þjónustukonu frá mér, ok því tók ek þessa, at ek veit hennar girnist engi“. — —

þat er nú sagt at missætti Jörundar erkibyskups ok kórsbrœðra gékk svá í vöxt at þat snérist upp í fult hatr; váru þessir fremst í mótgangi við hann: Sighvatr landi ok síra Eilífr er síðan varð erkibyskup í Niðarósi, ok síra Auðun rauðr er síðan varð byskup at Hólum á Íslandi. Appelleruðu þeir til Bonifacium páva; kom svá at Jörundr erkibyskup var stefndr til pávans, fékk hann þá aptr sinn heiðr, því at hann fór sjálfr, ok kom út í París: tók hann þar sótt ok fór eigi lengra, gerði hann þaðan sendiboð til pávans, fékk hann þá aptr sinn heiðr. Var hann þá í brottu eitt ár, kom hann þá aptr til Niðaróss. þenna tíma var Lafranz í Niðarósi ok hafði Ólafskirkju sem vér fyrr gátum; varð hann feginn er erkibyskupinn kom heim aptr. Skipaði erkibyskupinn síra Lafranzi þá at geyma offrs þess er gafst hinum helga Ólafi konungi, ok at vera *penitentiarius*. Lagði erkibyskup þá enn meiri metorð á hann en áðr, því hann þótti hann hafa

röskliga framgengit í hans erendum eðr kirkjunnar ámeðan hann var í brottu. Á því ári andaðist Eiríkr konungr Magnússon, ok var Hákoni bróður hans konungsnafn gefit ok hann kórónaðr í þrándheimi af Jörundi erkibyskupi með konungsvígslu. Kómu þar þá allir hinir fremstu menn í Noregi ok víða annarsstaðar af löndum; mátti þar sjá hinn mesta múg sem verða kunni á norðrlöndum; var á öngu at ganga útan af Eyrum ok fram át Kristkirkju útan á dúnklæðum, pelli ok baldikinni. Veitti Hákon konungr þá ágæta veizlu ok gaf mörg privilegia ok réttarbœtr heilagri kirkju ok þurfföndum; gerði Hákon konungr þá erkibyskupinn ok kórsbrœðr sátta þó at héldist um stuttan tíma, þvíat þegar sem Hákon konungr var í brottu or bœnum hófst upp hin sama deila ok þrætur þeirra ámeðal: stóð þat þá enn um eitt ár. Fór erkibyskupinn þá fram ímóti þeirra fyrst með áminningum ok vildu þeir eigi hlýðnast; bundust þá í með þeim allr bœjarlýðr, skólinn allr ok ábótinn or Hólm. Kom þá svá at engi lærðra manna þorði eðr vildi fram bera nökkurn erkibyskupsins boðskap þann sem kórsbrœðrum var ímóti. Einn dag lét erkibyskupinn kalla Lafranz til sín svá segjandi: „hér er bréf er Jón Flæmingi hefir gert eptir váru boði; þetta bréf skaltu lesa upp yfir kórdjáknum í Kristskirkju á morgun, því at þá er mikil hátíð“. Lafranz svaraði: „dýrt er dróttins orð, skal ek þat gera ok frambera sem þér vilit, meðan ek em í yðvarri þjónustu; veit ek, at svá lítt sem kórsbrœðrum líkar til mín áðr, mun þat þá aukast viðr þetta“. Um morguninn eptir í hámessu sem kórsbrœðr allir stóðu í kór, gékk Lafranz uppá kór ok las bréf erkibyskups eptir hans boði, þat sem þann skilning hafði at hann boðaði þá bannsetta fyrir margar ok stórar sakar, síra Eilíf, Auðun rauð ok Sighvat landa; skyldi ok messu-embætti niðrfalla ef þeir géngi eigi frá. Las Lafranz svá hátt ok snjalt at þeir heyrðu görla. Þá svaraði Sighvatr landi svá segjandi: „eigi þarftu Íslendingr at hrópa svá hátt, því heyrum vér hvat þú segir“. Géngu þeir allir heim í sín herbergi. Frá þeim degi mátti síra Lafranz aldrigi útganga svá at honum væri úhætt fyrir kórsbrœðrum. Váru honum margar umsátir veittar. Einn tíma bar svá til at skólaklerkar hljópu at honum úti ok ætluðu at fanga hann, ok síðan hann sá þat, tók hann þá til fóta ok hljóp upp at Kristskirkju, gat hann tekit í hurðarhring kirkjunnar; þá hljópu þeir eptir honum; var þá alt senn at þeir rifu af honum kyrtilinn ok ætluðu at grípa hann brott af kirkjunni, en sveinar erkibyskupsins kómu at hjálpa honum, því at hann kallaði til bjargar sér. Einn tíma bar ok svá til at ein mikilsháttar húsfrú í bœnum til Ólafs kirkju sóknar andaðist; váru sungnar sálutíðir sem siðvani er til, váru þar stór blys með söngum ok kertum, söng Síra Lafranz sálutíðirnar með sínum kumpánum. Þar kómu

skólaklerkar þá margir saman ok gripu vaxit ok blysin með kertunum, hafði hann eigi afl til at verja, því at þeir váru sterkari; sendi erkibyskupinn honum sveina sína um morguninn eptir, svá at hann gat sungit messuna ok niðrsett líkit.

Jörundr erkibyskup var í mikilli blíðu við herra Hákon konung. Skrifaði erkibyskupinn til hans, birtandi honum hvílíkan þunga ok úróa kórsbræðr gerðu honum, beiðandi at hann sjálfr mundi til koma ok tykta þá með konungligu valdi. Gerði ok svá herra Hákon konungr at hann kom til Þrándheims með miklu fjölmenni lærðra ok leikra ok setti þing, bjóðandi erkibyskupinum ok kórsbræðrum þeim sem í mótgangi váru við hann ok öllum framandi mönnum í bœnum þar koma. Var þingit sett í sumarhöllinni, var með Hákoni konungi þá mikilsháttar meistari er Áki hét, er lengi hafði verit í útlöndum at *studium*, snjallr ok framr klerkr; var hann tilfenginn af konungsins hálfu; var settr fram fyrir hann einn lektari, stóð hann frammi fyrir hásæti konungsins. Var svá skipat at konungrinn ok erkibyskupinn sátu báðir samt, en út af konunginum riddarar ok mestháttar menn ríkisins, en út af erkibyskupinum lýðbyskupar ok ábótar ok kórsbræðr, út af þeim prestar, ok alþýðu fólk sat á gólfi: var þar þá ok síra Lafranz á meðal annarra kumpána erkibyskupsins. Gerði herra Áki *signum* til at fólkit skyldi hlýða, kallandi með hárri röddu, tók hann fyrst til at tala snjalla latínu segjandi hversu höfðingjum hœfði fram fara bæði með andligum völdum ok veraldligum, gékk sú hans tala lengi; snéri hann rollunni, framberandi með skýrum ok snjöllum norrœnu orðum á því efni haldandi, hversu undirmönnum hœfði at halda hlýðni við sína formenn, eigi at eins við góða ok réttláta, heldr jafnvel við þá sem flekkóttir eru í sinni framferð, sem Páll postuli segir, birtandi hversu þungr glœpr væri at hafa samblástr ímóti sínum formönnum, jafnandi því við skurðgoða villu; tók þá at harðna rœðan hans, segjandi ljósliga, í hversu mikla úhœfu þeir kórsbrœðr höfðu hratat, at veita mótgang sínum herra erkibyskupinum ok at þá væri pínanda líkamliga ok at *brachium seculare* ætti at refsa þeim með konungs sverði ok valdi. Ok svá talaði þessi maðr snjalt ok hart, at kórsbrœðrum ok þeirra félögum skaut skelk í bringu. Eptir endat tal herra Áka stóð upp konungr Hákon ok talaði fyrst latínu ok síðan norrœnu, ok sagði tvá kosti fyrir höndum, annathvárt at kórsbrœðr þeir sem áðr váru í bann lýstir af erkibyskupi skyldu útlægir af Noregi ok öllu hans ríki ok allir þeirra fylgjarar, eða falla fram í stað fyrir erkibyskupi ok leggja öll sín mál á hans vald með konungsins ok fremstu manna ráði. Nú sem kórsbrœðr sjá hvílíkr váði var fyrir durum, stóðu þeir þegar upp, fram fallandi fyrir erkibyskupinn, leggjandi öll sín mál á hans vald. Næsta dag eptir var

sögð upp sátt ímillum erkibyskups ok kórsbrœðra, játuðu þá hvárir öðrum ok þeirra mönnum friði ok náðum. Hélzt þessi sætt um tvau ár alldyggiliga; var síra Lafranz í friði ok náðum vel haldinn með Jörundi erkibyskupi.

## 12. Kveldulf og hans Sönner Thorolf og Grim.

(Af Egils Saga).

Úlfr hét maðr son Bjálfa ok Hallberu dóttur Úlfs hins úarga, hon var systir Hallbjarnar hálftrölls í Hrafnistu föður Ketils hœings. Úlfr var maðr svá mikill ok sterkr, at eigi váru hans jafningjar, en er hann var á unga aldri lá hann í víkingu ok herjaði. Með honum var í félagskap sá maðr er kallaðr var Berðlukári, göfugr maðr ok hinn mesti afreksmaðr at afli ok áræði, hann var berserkr. Þeir Úlfr áttu einn sjóð báðir, ok var með þeim hin kærsta vinátta. En er þeir réðust or hernaði, fór Kári til bús síns í Berðlu, hann var maðr stórauðigr. Kári átti þrjú börn, hét son hans Eyvindr Lambi, annarr Ölvir Hnúfa, dóttir hans hét Salbjörg, hon var kvenna vænst ok skörungr mikill, hennar fékk Úlfr, fór hann þá ok til búa sinna. Úlfr var maðr auðigr bæði at löndum ok lausum aurum; hann tók lends manns rétt, svá sem höfðu langfeðgar hans ok gerðist maðr ríkr. Svá er sagt at Úlfr var búsýslumaðr mikill, var þat siðr hans at rísa upp árdegis ok ganga þá um sýslur manna eða þar er smiðir váru ok sjá yfir fénað sinn ok akra, en stundum var hann á tali við menn þá er ráða hans þurftu, kunni hann til alls góð ráð at leggja, þvíat hann var forvitri. En dag hvern er at kveldi leið þá gerðist hann styggr, svá at fáir menn máttu orðum við hann koma: var hann kveldsvæfr; þat var mál manna at hann væri mjök hamrammr, hann var kallaðr Kveldúlfr. Þau Kveldúlfr áttu tvá sonu: hét hinn ellri Þórólfr, en hinn yngri Grímr. En er þeir óxu upp, þá váru þeir báðir menn miklir ok sterkir svá sem faðir þeirra var. Var Þórólfr manna vænstr ok gerviligastr, hann var líkr móðurfrændum sínum, gleðimaðr mikill, örr, ákafamaðr mikill í öllu, ok hinn mesti kaupmaðr, var hann vinsæll af öllum mönnum. Grímr var svartr maðr ok ljótr, líkr feðr sínum bæði yfirlits ok at skaplyndi, gerðist hann umsýslumaðr mikill, hann var hagr maðr á tré ok járn ok gerðist hinn mesti smiðr, hann fór ok opt um vetrum í sildfiski ok með honum húskarlar margir. En er Þórólfr var á tvítugs aldri, þá bjóst hann í hernað, fékk Kveldúlfr honum langskip, til þeirrar ferðar réðust synir Berðlukára, Eyvindr ok Ölvir, þeir höfðu lið mikit ok annat langskip, ok fóru um sumarit í víking ok öfluðu sér fjár ok höfðu hlutskipti mikit. Þat var nökkur sumur, er þeir lágu í víking,

várum í vetr 30 manna á Mörkinni, svá sem fyrr hefir verit vandi sýslumanna, síðan kom þar Þórólfr með hundrað manna, spurðu vér þat til orða hans, at hann ætlaði af lífi at taka okkr bræðr ok alla þá menn er okkr fylgðu, ok fann hann þat til saka, er þú, konungr, hafðir selt okkr í hendr sýslu þá er hann vildi hafa. Sá vér þann helzt várn kost at firrast fund hans ok forða oss, ok kómu vér fyrir þá sök skamt frá bygðum á fjallit. En Þórólfr fór um alla Mörkina með hermanns, hafði hann kaup öll, guldu Finnar honum skatt, en hann bazt í því, at sýslumenn yðrir skyldu ekki koma á Mörkina; ætlar hann at gerast konungr yfir norðr þar, bæði yfir Mörkinni ok Hálogalandi, ok er þat undr er þér látið honum hvetvetna hlýða. Munu hér sönn vitni til finnast um fjárdrátt þann, er Þórólfr hefir af Mörkinni, þvíat knörr sá, er mestr var á Hálogalandi, var búinn í vár á Sandnesi, ok kallaðist Þórólfr eiga einn farm allan þann er á var, hygg ek at nær væri hlaðinn af grávöru, ok þar hygg ek at finnast mundi bjórr ok safali meiri en þat er Þórólfr færði þér, ok fór með Þorgils Gjallandi, ætla ek at hann hafi sigit vestr til Englands. En ef þú vill vita sannindi af þessu, þá haldit til njósn um ferð Þorgils, þá er hann ferr austr, þvíat ek hygg at á ekki kaupskip hafi komit jammikit fé á várum dögum, ætla ek þat sannast at segja, at þér, konungr, eigit hvern pening þann er þar var á“. Þetta sönnuðu förunautar hans alt, er Hárekr sagði, en hér kunnu engir í móti at mæla.

Sigtryggr Snarfari ok Hallvarðr Harðfari hétu bræðr tveir, þeir váru með Haraldi konungi, víkverskir menn, var móðurætt þeirra á Vestfold ok váru þeir í frændsemistölu við Harald konung. Faðir þeirra hafði kyn átt tveimmegum Gautelfar, hann hafði bú átt í Hísing, ok var maðr stórauðigr, en þá höfðu þeir tekit við arfi eptir föður sinn. Þeir váru fjórir bræðr, hét einn Þórðr ok Þorgeirr ok váru þeir yngri, þeir váru heima ok réðu fyrir búi. Þeir Sigtryggr ok Hallvarðr höfðu sendiferðir konungs allar bæði innan lands ok útan lands, ok höfðu margar ferðir þær farit, er háskasamligar váru, bæði til aftöku manna eða fé upp at taka fyrir þeim mönnum, er konungr lætr heimferðir veita. Þeir höfðu sveit mikla um sik; ekki váru þeir vingaðir alþýðu manna, en konungr mat þá mikils, ok váru þeir allra manna bezt færir bæði á fæti ok á skíðum; svá ok í skipförum váru þeir hvatfærri en aðrir menn, hreystimenn váru þeir ok miklir ok forsjálir um flest. Þeir váru þá með konungi er þetta var tíðinda. Um haustit fór konungr at veizlum um Hörðaland. Þat var einn dag at hann lét kalla til sín þá bræðr Hallvarð ok Sigtrygg, ok er þeir kómu til hans, sagði hann þeim, at þeir skyldu fara með sveit sína ok halda njósn um skip þat sem Þorgils Gjallandi fór með, ok hann hafði í sumar vestr til Englands: „færit mér

skipit ok alt þat er á er, nema menn, látit þá fara í brott leið sína í friði, ef þeir vilja ekki verja skipit". Þeir bræðr váru þess albúnir ok tók sitt langskip hvárr þeirra, fara síðan at leita þeirra Þorgils ok spurðu at hann var vestan kominn ok hafði sigit norðr með landi. Þeir fara norðr eptir þeim ok hittu þá í Furusundi, kendu brátt skipit ok lögðu at annat skipit á útborða, en sumir géngu á land ok út á skipit at bryggjunum. Þeir Þorgils vissu sér engis ótta ván ok vöruðust ekki; fundu þeir eigi fyrr en fjöldi manna var uppi á skipinu með alvæpni, ok þeir váru allir handteknir ok leiddir síðan á land upp ok vápnlausir, ok höfðu ekki nema ígangsklæði ein. En þeir Hallvarðr skutu út bryggjunum ok slógu strenginum ok drógu út skipit, snúa síðan leið sína ok sigldu suðr með landi unz þeir hittu konung; færðu honum skipit ok alt þat er á var. En er farmrinn var borinn af skipinu, þá sá konungr at þat var stórfé, ok eigi var þat lygi er Hárekr hafði sagt. En Þorgils ok hans félagar féngu sér flutningar ok leita þeir á fund Kveldúlfs ok þeirra feðga, ok sagði sínar farar eigi sléttar; féngu þar þó góðar viðtökur; sagði Kveldúlfr at þá mundi þar til draga sem honum hafði fyrirboðat, at Þórólfr mundi eigi til allsendis gæfu tilbera um vináttu við Harald konung, „ok þætti mér ekki mikils vert um féláť þetta, er Þórólfr hefir mist nú, ef nú færi eigi hér it meira eptir; grunar mik enn sem fyrr, at Þórólfr muni eigi gerr kunna at sjá efni sín við ofrefli slíkt sem hann á at skipta"; ok bað Þorgils svá segja Þórólfi, „at mitt ráð er þat", segir hann, „at hann fari or landi á brott, því at vera kann at hann komi sér betr, ef hann sækir á hönd Englakonungi eða Danakonungi eða Svíakonungi". Síðan fékk hann Þorgilsi róðrarskútu eina ok þarmeð reiða allan, svá tjöld ok vistir ok alt þat er þeir þurftu til ferðar sinnar. Síðan fóru þeir ok léttu eigi fyrr ferð sinni, en þeir kómu norðr til Þórólfs ok sögðu honum þat er til tíðinda hafði gerzt. Þórólfr varð vel við skaða sinn, sagði svá, at hann mundi ekki fé skorta, „er gott félag at eiga við konung". Síðan keypti Þórólfr mjöl ok malt ok þat annat er hann þurfti til framflutningar liði sínu; sagði hann at húskarlar mundu vera ekki svá fagrbúnir sem hann hafði ætlat um hríð. Þórólfr seldi jarðir sínar, en sumar veðsetti hann, en hélt upp kostnaði öllum sem fyrr; hafði hann þá ok ekki færa lið með sér, en hina fyrri vetr, heldr hafði hann nökkuru fleira manna; svá um veizlur ok heimboð við vini sína, þá hafði hann meira efni um þat alt en fyrr. Var hann heima þann vetr allan.

Þá er vár kom ok snæ leysti ok ísa, þá lét Þórólfr fram setja langskip mikit er hann átti, ok lét þat búa ok skipaði húskörlum sínum, ok hafði með sér meir en hundrað manna, var þat lið hit fríðasta ok vápnat allvel. En er byr gaf, hélt Þórólfr skipinu suðr með landi, ok þegar er hann kom

suðr um Byrðu, þá héldu þeir útleið fyrir útan eyjar allar, en stundum svá at sjór var í miðjum hlíðum; létu svá ganga suðr fyrir landit, höfðu ekki tíðindi af mönnum fyrr en þeir kómu austr í Vík, þá spurðu þeir at Haraldr konungr var í Víkinni ok hann ætlaði um sumarit at fara til Upplanda. Ekki vissu landsmenn til um ferð þórólfs. Honum byrjaði vel, ok hélt hann suðr til Danmerkr ok þaðan í Austrveg ok herjaði þar um sumarit, ok varð ekki gott til fjár. Um haustit hélt hann austan til Danmerkr í þann tíma er leystist Eyrarfloti; þar hafði verit um sumarit, sem vant var, fjöldi skipa af Noregi. þórólfr lét þat lið sigla alt fyrir ok gerði ekki vart við sik. Hann sigldi einn dag at kveldi til Mostrarsunds, þar var fyrir í höfninni knörr einn mikill, kominn af Eyri. þórir þruma hét maðr sá er stýrði, hann var ármaðr Haralds konungs, hann réð fyrir búi hans í þrumu, þat var mikit bú, sat konungr þar löngum þá er hann var í Víkinni; þurfti þar stór föng til bús þess; hafði þórir farit fyrir þá sök til Eyrar, at kaupa þar þunga, malt ok hveiti, ok hunang, ok varit þar til fé miklu er konungr átti. þeir þórólfr lögðu at knerrinum ok buðu þeim þóri kost á at verjast; en fyrir því at þeir þórir höfðu engan liðskost til varnar móti fjölmenni því er þórólfr hafði, gáfust þeir upp, tók þórólfr skip þat með öllum farmi, en setti þóri upp í eyna. Hélt þórólfr þá skipum þeim báðum norðr með landi. En er hann kom fyrir Elfina, þá lágu þeir þar ok biðu nætr. En er myrkt var, réru þeir langskipinu upp í ána ok lögðu til bœjar þess, er þeir áttu Hallvarðr ok Sigtryggr; koma þeir þar fyrir dag ok slógu manngarð, œptu síðan heróp, ok vöknuðu þeir við þat er inni váru ok hljópu þegar upp til vápna sinna; flýði þorgeirr þegar út or svefnskemmunni. Skíðgarðr hár var um bœinn, þorgeirr hljóp at skíðgarðinum ok greip hendinni upp á garðstaurinn ok kastaði sér út um garðinn. þar var nærstaddr þorgils Gjallandi, hann sveiflaði til sverðinu eptir þorgeiri, ok kom á höndina ok tók af við garðstaurinn. Hljóp þorgeirr síðan til skógar, en þórðr bróðir hans var þar feldr ok meir en 20 menn. Síðan ræntu þeir þar fé öllu ok brendu bœinn, fóru síðan út eptir ánni til hafs. þeim byrjaði vel, ok sigldu norðr í Víkina, þá hittu þeir enn fyrir sér kaupskip mikit, ok áttu Víkverjar, hlaðit af malti ok mjölvi; þeir þórólfr lögðu at skipi því; en þeir er fyrir váru þóttust engi föng hafa til varnar ok gáfust upp, géngu þeir á land upp slyppir, en þeir þórólfr tóku skipit með farmi ok fóru leiðar sinnar, hafði þórólfr þá 3 skip, er hann sigldi austan um Foldina. Sigldu þá þjóðleið til Líðandisness, fóru þá sem skyndiligast, en námu nesnám þar sem þeir kómu við, ok hjuggu strandhögg. En er þeir sigldu norðr frá Líðandisnesi fóru þeir meir útleið, en þar sem þeir kómu við land ræntu þeir. En er þórólfr kom norðr fyrir

Fjörðu, þá snéri hann inn á leið ok fór á fund Kveldúlfs föður síns, ok fengu þar góðar viðtökur. Sagði þórólfr feðr sínum hvat til tíðinda hafði vorðit í förum hans um sumarit. þórólfr dvaldist þar litla hríð ok leiddi Kveldúlfr ok þeir feðgar hann til skips; en áðr þeir skildust töluðust þeir við, sagði Kveldúlfr: „eigi hefir því fjarri farit, þórólfr, sem ek sagða þér, þá er þú fórt til hirðar Haralds konungs, at þér mundi svá útganga, at hvárki þér né oss frændum þínum mundi hamingja at verða: hefir þú nú þat ráð upptekit, er ek varaða þik mest við, er þú etr kappi við Harald konung, en þótt þú sér vel búinn at hreysti ok allri atgervi, þá hefir þú ekki til þess gæfu, at halda til jafns við Harald konung, er engum hefir öðrum enzt hér í landi, þótt áðr hafi haft ríki mikit ok fjölmenni; er þat mitt hugboð at sjá verði fundr okkarr enn síðasti, ok væri þat at sköpuðu fyrir aldrs sakir at þú lifðir lengr okkar, en annan veg ætla ek at verði“. Síðan steig þórólfr á skip sitt ok hélt á brott leið sína; er þá ekki sagt frá ferð hans, at til tíðinda yrði, áðr en hann kom á Sandnes heim ok lét flytja til bœjar herfang þat alt, er hann hafði heim haft, en setja upp skip sitt; skorti þá eigi föng at fœða lið sitt um vetrinn. Sat þórólfr heima jafnan ok hafði fjölmenni eigi minna en hina fyrri vetr.

Maðr hét Yngvarr ríkr ok auðigr, hann hafði verit lendr maðr hinna fyrri konunga, en síðan er Haraldr kom til ríkis, settist Yngvarr heima ok þjónaði ekki konungi. Yngvarr var maðr kvángaðr ok átti dóttur er hét Bera, Yngvarr bjó í Fjörðum, Bera var einberni hans ok stóð til arfs eptir hann. Grímr Kveldúlfsson bað Beru til handa sér, ok var þat at ráði gert. Fékk Grímr Beru þann vetr, er þeir þórólfr höfðu skilizt áðr um sumarit, var Grímr þá hálfþrítugr at aldri, ok var þá sköllóttr, síðan var hann kallaðr Skallagrímr; hann hafði þá forráð öll fyrir búi þeirra feðga ok tilöflun alla, en þó var Kveldúlfr hress maðr ok vel fœrr. Mart höfðu þeir frelsingja með sér, ok marga þá menn, er heima þar höfðu uppvaxit ok váru nær jamaldrar Skallagríms, váru þeir margir afreksmenn miklir at afli, þvíat Kveldúlfr ok þeir feðgar völdu mjök menn at afli til fylgðar við sik, ok tömdu við skaplyndi sitt. Skallagrímr var líkr feðr sínum á vöxt ok at afli, svá ok at yfirlitum ok skaplyndi.

Haraldr konungr var í Víkinni, þá er þórólfr var í hernaðinum, ok fór um haustit til Upplanda ok þaðan norðr til þrándheims, ok sat þar um vetrinn, ok hafði fjölmenni mikit. þar váru þá með honum Sigtryggr ok Hallvarðr, ok höfðu spurt hverneg þórólfr hafði búit at herbergjum þeirra í Hísing, ok hvern mannskaða ok fjárskaða er hann hafði þar gert. þeir mintu konung opt á þat, ok svá þat með at þórólfr hafði rænt konung ok svá þegna hans ok farit með hernaði þar innanlands; þeir báðu konung orlofs til,

at þeir bræðr skyldu fara með liði því, er vant var þeim at fylgja, ok sækja heim at Þórólfi. Konungr svarar svá: „vera munu ykkr þykkja sakar til, þó at þit ráðit Þórólf af lífi, en ek ætla ykkr skorti mikit hamingju til þess verks, er Þórólfr ekki ykkarr maki, þó at þit þykkizt vera menn hraustir eða vel at ykkr gervir“. Þeir bræðr sögðu, at þat mundi brátt reynt verða, ef konungr vill þeim lof til gefa, ok segja at þeir hafa opt lagt á hættu mikla við þá menn, er þeir áttu minna í at hefna, ok hafði þeim optast orðit sigrs auðit. En er váraði þá bjuggust menn ferða sinna, þá var enn sem fyrr var sagt, at þeir Hallvarðr bræðr héldu á því máli, at þeir fari til ok taki Þórólf af lífi. Konungr kvazt veita mundu: „ok veit ek, at þér munut færa mér höfuð hans, er þit komit aptr, ok svá marga dýrgripi, en þó geta þess til sumir, ef þér siglit norðr, at þér munit bæði sigla ok róa norðan“. Búast þeir sem ákafast með tvau skip ok tvau hundruð manna, en er þeir váru búnir, tóku þeir landnyrðing út eptir firðinum, en þat er andviðri norðr með landi.

Haraldr konungr sat þá á Hlöðum, er þeir Hallvarðr fóru á brott, ok jafnskjótt bjóst konungr sem skyndiligast ok gékk á skip fjögur, ok réru þeir inn eptir firðinum í Þrándheimi, ok svá um Beitissjá inn til Eldueiðs, lét hann þar eptir skipin ok fór norðr um eiðit til Naumudals; tók konungr þar skip þau er bœndr áttu, gékk hann þar á með lið sitt, hafði hann hirð sína, ok var 400 manna; hann hafði sex skip ok öll vel skipuð at vápnum ok mönnum; þeir tóku andviðri hvast, ok réru nótt ok dag, svá sem ganga mátti, nótt var þá farljós. Þeir kómu aptan dags til Sandnes eptir sólarfall ok sá þar fyrir bœnum fljóta langskip tjaldat, ok kendu at Þórólfr átti skipit; ætlaði hann þá af landi brott ok hafði heita látit fararmungát sitt. Konungr bað menn ganga af skipum, hann lét fara upp merki sitt, skamt var at ganga til bœjarins, varðmenn Þórólfs sátu inni við drykkju ok váru eigi gengnir á vörðinn, ok var engi maðr úti, sat alt lið inni við drykkju. Konungr lét slá mannhring um stofuna, lustu þeir þá upp herópi, ok var blásit í konungs lúðr herblástr. En er þeir Þórólfr heyra þat, hljópu þeir til vápna, þvíat hvers manns alvæpni hékk yfir rúmi hans. Konungr lét kalla at stufunni, bað út ganga konur ok ungmenni ok gamalmenni, þræla ok mansmenn. Síðan gékk út Sigríðr húsfreyja ok með henni konur þær er inni váru, ok aðrir þeir menn er útganga var lofuð. Sigríðr spurði eptir, ef þeir væri þar synir Berðlukára, þeir géngu fram báðir ok spurðu, hvat hon vildi þeim? „Fylgit mér til konungs“, segir hon. Þeir gerðu svá, en er hon kom til konungs, mælti hon: „skal nökkut, herra, tjá at leita um sættir með ykkr Þórólfi“? Konungr svarar: „vill Þórólfr gefast upp ok ganga á mitt vald til miskunnar, þá skal hann halda lífi ok limum, en menn hans skulu

sota refsingum sem sakir falla til“. Síðan gékk Ölvir Hnúfa til stofu ok lét halla Þórólf til máls við sik, hann segir þann kost er konungr gerði þeim. Þórólfr svarar: „enga vil ek nauðungar kosti eða sætt taka af konungi, bið þú konung at gefa oss útgönguleyfi, ok látum þá skeika at sköpuðu“. Ölvir gékk þá til konungs ok sagði hvers Þórólfr beiddist. Konungr mælti: „berit eld at stofunni, ekki vil ek berjast við þá ok týna liði mínu, veit ek at Þórólfr mun gera oss mannskaða mikinn, ef hann kemst út, þótt hann hafi lið minna en vér“. Síðan var eldr borinn at stofunni, ok sóttist þat skjótt, því at timbrit var þurt ok bræddir veggirnir, en næfrum þakt um ræfrit. Þórólfr bað menn sína brjóta upp þilit ok ná gaflstokkum ok brjóta svá skjaldþilit; en er þeir náðu stokkunum, þá tóku svá margir menn einn stokkinn sem á féngu haldit, ok skutu öðrum endanum út í hyrningina svá hart, at nafirnar hrutu af fyrir útan, ok hljópu í sundr veggirnir, svá þar var útgangr mikill; gékk Þórólfr þar fyrstr manna út, þá Þorgils Gjallandi, ok þá hverr at öðrum. Tókst þar hin harðasta sókn, svá þat var um hríð, at ekki mátti í milli sjá, því at stofan gætti at baki þeim; týndi konungr þá mörgu liði áðr stofan tók at brenna; þá sótti eldrinn at þeim, féll þá mart lið þeirra; þá hljóp Þórólfr fram ok hjó til beggja handa, þurfti lítt at binda sár þeirra manna, er fyrir honum urðu; hann sótti þangat at er merki konungs var, ok í þeirra svipan féll Þorgils Gjallandi. En er Þórólfr kom fram at skjaldborginni, lagði hann sverði ígegnum þann mann er merkit bar; þá mælti Þórólfr: „Nú gékk ek þrem fetum til skamt“. Þá stóðu á honum bæði sverð ok spjót; en sjálfr konungr veitti honum banasár, ok féll Þórólfr fram á fætr konungi, þá kallaði konungr, ok bað hætta at drepa fleiri menn, ok var svá gert; síðan bað konungr menn sína fara ofan til skipa. Konungr mælti við Ölvi Hnúfu ok þá bræðr: „Takit nú Þórólf frænda ykkarn ok veitit honum sœmiligan umbúnað, ok gröpt öðrum mönnum þeim er hér eru fallnir, en látit binda um sár manna þeirra er lífvænir eru, en ekki skal hér ræna, því at þetta er alt mit fé. Síðan gékk konungr ofan til skipa sinna ok flest lið með honum; en er þeir váru á skip komnir, þá tóku menn at binda sár sín. Konungr gékk um skipit ok leit á sár manna, hann sá hvar maðr batt svöðusár eitt, konungr sagði, at ekki hafði Þórólfr veitt þat sár, ok alt bitu honum annan veg vápnin, „fáir ætla ek at þau bindi sárin, er hann veitti, ok skaði mikill er eptir menn slíka. En þegar at morni dags lét konungr draga upp segl sín ok sigldi suðr sem aftók. En er áleið daginn, þá fundu þeir konungr róðrarskip mörg í hverju eyjarsundi, ok hafði lið þat ætlat til fundar við Þórólf, því at njósnir hans höfðu verit alt suðr í Naumudal ok víða um eyjar, höfðu þeir orðit vísir, at þeir Hallvarðr váru komnir

sunnan með lið mikit ok ætluðu at þórólfi. Höfðu þeir Hallvarðr haft jafnan andviðri ok höfðu þar dvalizt í ýmsum höfnum til þess er njósn hafði farit it efra um land, ok höfðu þess orðit varir njósnarmenn þórólfs, ok hafði þetta herhlaup fyrir þá sök verit. Konungr sigldi hraðbyrja til þess er hann kom í Naumudal, lét hann þar skipin eptir, en hann fór landveg í þrándheim, tók þar skip sín sem hann hafði eptir látit, hélt hann þá þaðan út til Hlaða. Spurðust brátt þessi tíðindi ok kómu fyrir þá Hallvarð þar er þeir lágu, snéru þeir þá aptr til konungs, ok þótti þeirra ferð heldr hæðilig. þeir brœðr Ölvir Hnúfa ok Eyvindr Lambi dvöldust um hríð á Sandnesi, létu þeir búa um val þann, er þar hafði fallit, bjuggu þeir um lík þórólfs eptir siðvenju, svá sem títt var at búa um göfugra manna, settu eptir hann bautasteina. þeir létu grœða sjúka menn. þeir skipuðu ok til bús með Sigríði, var eptir allr fjárafli, en mestr hafði inni brunnit húsbúnaðr ok borðbúnaðr ok klæðnaðr manna. En er þeir brœðr váru búnir, þá fóru þeir norðan ok kómu á fund Haralds konungs, er hann var í þrándheimi, ok váru með honum um hríð; þeir váru hljóðir ok mæltu fátt við menn. þat var einnhvern dag at þeir brœðr géngu fyrir konung, þá mælti Ölvir: „þess orlofs viljum vit brœðr þik biðja, konungr, at þú lofir okkr heimferð til búa okkarra, þvíat hér hafa þau tíðindi gerzt, er vit berum eigi skaplyndi til at eiga drykk ok sess við þá menn, er báru vápn á þórólf frænda okkarn“. Konungr leit við þeim ok svarar heldr stutt: „eigi mun ek þat veita ykkr, hér skulu þit vera með mér“. þeir ganga þá aptr til rúms síns. Annan dag eptir sat konungr í málstofu, hann lét kalla þangat þá brœðr ok mælti: „Nú skulu þit vita ykkr erindi þat er þit hófut við mik ok beiddut heimferðar: hafi þit verit hér um hríð með mér ok verit vel siðaðir menn ok jafnan vel dugat, hefir mér til ykkar um alla hluti vel hugnat; nú vil ek, Eyvindr, at þú farir norðr á Hálogaland, vil ek gipta þér Sigríði á Sandnesi, konu þá er þórólfr hefir átt, vil ek gefa þér fé þat alt er þórólfr átti, skaltu þar hafa með vináttu mína, ef þú kant til gæta; en Ölvir skal mér fylgja, vil ek hann eigi lausan láta fyrir sakar íþrótta hans. þeir brœðr þökkuðu konungi þann sóma, er hann veitti þeim, sögðu at þeir vildu þat fúsliga þekkjast. Bjóst Eyvindr þá til ferðar, fékk sér gott skip, þat er honum hœfði, fékk konungr honum jartegnir sínar til ráðs þessa. Greiddist ferð Eyvindar vel, kom fram norðr í Álöst í Sandnesi. Sigríðr tók vel við þeim. Síðan bar Eyvindr fram jartegnir konungs ok erindi sín fyrir Sigríði ok hóf bónorð sitt við hana, sagði at þat var konungs orðsending, at Eyvindr nái ráði þessu. En Sigríðr sá þann sinn kost, svá sem þá var komit at láta konung fyrir ráða. Fór þat ráð fram at Eyvindr fékk Sigríðar, tók hann þá við búi í Sandnesi ok við

fé því öllu, er þórólfr hafði átt. Var Eyvindr göfugr maðr, váru börn þeirra: Fiðr skjálgi faðir Eyvindar Skáldaspillis ok Geirlaug er átti Sighvatr rauði. Eyvindr Lambi hélzt í vináttu við konung, meðan þeir lifðu báðir.

Ketill Hœingr hét maðr, son þorkels Naumdœlajarls ok Hrafnhildar dóttur Ketils Hœings or Hrafnistu. Hœingr var göfugr maðr ok ágætr, hann hafði verit hinn mesti vinr þórólfs Kveldúlfssonar ok frændi skyldr. Hann var þá í úthlaupi því er liðsamnaðr var á Halogalandi, ok menn ætluðu til liðs við þórólf, svá sem fyrr var ritat. En er Haraldr konungr fór norðan, ok menn urðu varir at þórólfr var af lífi tekinn, þá rufu þeir samnaðinn. Hœingr hafði með sér 60 manna ok snéri hann til Torga; en þar váru fyrir Hildiríðar synir ok höfðu fátt lið. Ketill Hœingr kom á bœinn ok veitti hann þeim atgöngu, féllu þar Hildiríðar synir ok þeir menn flestir er þar váru, en þeir Hœingr tóku fé alt þat er þeir féngu. Eptir þat tók Hœingr knörru tvá, þá er hann fékk mesta, lét þar bera á út fé þat alt, er hann átti ok hann mátti með komast; hann hafði með sér konu sína ok börn, svá þá menn alla er at þeim verkum höfðu verit með honum. Baugr hét maðr, fóstbróðir Hœings, ættstórr maðr ok auðigr, hann stýrði öðrum knerrinum. En er þeir váru búnir ok byr gaf, þá sigldu þeir í haf út. Fám vetrum áðr höfðu þeir Ingólfr ok Hjörleifr farit at byggja ísland, ok var mönnum alltíðrœdt um þá ferð, sögðu menn þar vera allgóða landkosti. Hœingr sigldi vestr í haf ok leitaði íslands.

Kveldúlfr spurði fall þórólfs sonar síns, varð hann hryggr við þessi tíðindi, svá at hann lagðist í rekkju af harmi ok elli. Skallagrímr kom opt til hans ok taldi fyrir honum, bað hann hressa sik, sagði at alt var annat at athœfiligra en þat at auvirðast ok leggjast í kör, „er hitt heldr ráð at vér leitim til hefnda eptir þórólf; má vera at vér komim í fœri við nökkura þá menn, er verit hafa at falli þórólfs; en ef þat er eigi, þá munu þeir vera menn er vér munum ná, er konungi mun sér þykkja móti skapi“.

Haraldr konungr fór þat sumar til Upplanda ok fór um haustit vestr á Valdres ok alt á Vörs. Ölvir Hnúfa var með konungi ok kom opt á mál við konung, ef hann mundi vilja bœta þórólf, veita Kveldúlfi ok Skallagrími fébœtr eða mannsóma þann nökkurn, er þeir mætti við una. Konungr varnaði þess eigi með öllu, ef þeir feðgar fœri á fund hans. Síðan byrjaði Ölvir ferð sína norðr í Fjörðu, létti eigi fyrr en hann kom at kveldi dags til þeirra feðga, tóku þeir þakksamliga við honum, dvaldist hann þar nökkura hríð. Kveldúlfr spurði Ölvi vandliga frá atburðum þeim, er gerzt höfðu á Sandnesi, þá er þórólfr féll, svá at því hvat þórólfr vann til frama áðr hann félli, svá ok hverir vápn báru á hann, eða hvar hann hafði mest ásr, eða hverneg fall hans yrði. Ölvir sagði alt þat er hann spurði, svá

þat at Haraldr konungr veitti honum sár þat, er œrit mundi eitt til bana, „ok þórólfr féll nær á fœtr konungi á grúfu“. þá svarar Kveldúlfr: „Vel hefir þú sagt, þvíat þat hafa gamlir menn mælt, at þess manns mundi hefnt verða, ef hann félli á grúfu, ok þeim nær koma hefndin, er fyrir yrði er hinn félli, en úlíkligt er at oss verði þeirrar hamingju auðit“. Ölvir sagði þeim feðgum, at hann vænti, ef þeir vildi fara á fund konungs ok leita eptir bótum, at þat mundi sómaför verða, ok bað þá til þess hætta, ok lagði mörg orð til. Kveldúlfr sagði, at hann var hvergi fœrr fyrir elli sakar, „mun ek vera heima“, sagði hann. „Viltu fara, Grímr“, sagði Ölvir. „Ekki erindi ætla ek mik eiga“, sagði Grímr, „mun konungi ek þykkja ekki orðsnjallr, ætla ek mik ekki lengi munu biðja bótanna“. Ölvir sagði, at hann mundi þess eigi þurfa, „skulu vér mæla alt fyrir hönd þína, slíkt er vér kunnum“. En með því at Ölvir sótti þat mál mjök, þá hét Grímr ferð sinni, þá er hann þœttist búinn; kváðu þeir á með sér þá stund, er Grímr skyldi koma á konungs fund: fór þá Ölvir fyrst á brott ok til konungs.

Skallagrímr bjóst til ferðar þeirrar, er fyrr var frásagt, hann valdi sér menn af heimamönnum sínum ok nábúum þá, er váru sterkastir at afli, ok hraustastir þeirra er til váru. Tólf váru þeir til fararinnar, ok allir hinir sterkustu menn ok margir hamrammir. þeir höfðu róðrarferju, er Skallagrímr átti, fóru suðr með landi, lögðu inn í Ostrarfjörðu, fóru þá landveg upp á Vörs til vatns þess, er þar verðr; en leið þeirra bar svá til, at þeir skyldu þar yfir fara, fengu þeir sér róðrarskip þat, er við þeirra hœfi var, réru síðan yfir vatnit, en þá var langt til bœjar þess er konungrinn var á veizlu; kómu þeir Grímr þar þann tíma er konungr var genginn til borða. þeir Grímr hittu menn at máli úti í garðinum ok spurðu hvat þar var tíðinda. En er þeim var sagt, þá bað Grímr kalla til máls við sik Ölvi Hnúfu; sá maðr gékk inn í stofuna ok þar til er Ölvir sat ok sagði honum: „Menn eru hér komnir úti tólf saman, ef menn skal kalla, en líkari eru þeir þursum at vexti ok at sýn en menskum mönnum“. Ölvir stóð upp þegar ok gékk út, þóttist hann vita hverir komnir mundu; fagnaði hann vel Grími frænda sínum, ok bað hann ganga inn í stofu með sér. Grímr sagði förunautum sínum: „þat mun hér vera siðr at menn gangi vápnlausir fyrir konung, skulu vér ganga inn sex, en aðrir sex skulu úti vera ok gæta vápna várra“. Síðan ganga þeir inn, gékk Ölvir fyrir konunginn, Skallagrímr stóð at baki honum. Ölvir tók til máls: Nú er Grímr hér kominn, son Kveldúlfs, kunnu vér nú aufúsu, konungr, at þér gerit hans för góða hingat, svá sem vér væntum at vera muni; fá þeir margir af yðr sœmd mikla er til minna eru komnir en hann, ok hvergi nær eru jafnvel

at sér gervir um flestar íþróttir sem hann mun vera; muntu því ok þat gera, konungr, at mér þykkir mestu máli skipta, ef þér þykkir þat nökkurs vert«. Ölvir talaði langt ok snjalt, þvíat hann var orðfœrr maðr. Margir aðrir vinir Ölvis géngu fyrir konung ok fluttu þetta mál. Konungr litaðist um ok sá at maðr stóð at baki Ölvis ok var höfði hærri en aðrir menn ok sköllóttr. »Er þetta hann Skallagrímr«, sagði konungr, »hinn mikli maðr«? Grímr sagði at hann kendi rétt. »Ek vil þá«, sagði konungr, »ef þú beiðist bóta fyrir Þórólf, at þú gerist minn maðr ok gangir hér í hirðlög ok þjónir mér; má mér svá vel líka þín þjónosta, at ek veita þér bœtr eptir bróður þinn eða aðra sœmd eigi minni en ek veitta honum Þórólfi bróður þínum; ok skyldir þú betr kunna at gæta en hann, ef ek gerða þik at svá miklum manni, sem hann var orðinn«. Skallagrímr svarar: »þat var kunnigt, hversu miklu Þórólfr var framar en ek, en at sér gerr um alla hluti, ok bar hann enga gæfu til at þjóna þér, konungr; nú mun ek ekki taka þat ráð, eigi mun ek þjóna þér, þvíat ek veit at ek mun eigi gæfu til bera at veita þér þá þjónostu sem ek munda vilja ok vert væri; hygg ek at mér verði meiri muna vant en Þórólfi«. Konungr þagði ok setti hann dreyrrauðan á at sjá. Ölvir snéri þegar í brott ok bað þá Grím ganga út; þeir gerðu svá, géngu út ok tóku vápn sín, bað Ölvir þá fara í brott sem skjótast. Gékk Ölvir á leið með þeim til vatnsins ok margir menn með honum. Áðr þeir Skallagrímr skildu, mælti Ölvir: »Annan veg var för þín, frændi, til konungs, en ek munda kjósa: fýsta ek þik mjök hingatfararinnar, en nú vil ek hins biðja, at þú farir heim sem skyndiligast, ok þess með at þú komir eigi á fund Haralds konungs, nema betri verði sætt ykkur en mér þykkir nú áhorfast, ok gæt þín vel fyrir konungi ok hans mönnum«. Síðan fóru þeir Grímr yfir vatnit, en þeir Ölvir géngu þar til er skip þau váru, er upp váru sett við vatnit, ok hjuggu svá at ekki var fœrt; þvíat þeir sá mannför ofan frá konungs bœnum, váru þeir menn margir saman ok vápnaðir mjök, ok fóru œsiliga. Þá menn hafði Haraldr konungr sent eptir þeim til þess at drepa Grím. Hafði konungr tekit til orða litlu síðar en þeir Grímr höfðu útgengit, sagði svá: »þat sé ek á skalla þeim hinum mikla, at hann er fullr upp úlfúðar, ok hann verðr at skaða þeim mönnum nökkurum, er oss mun þykkja afnám í, ef hann náir; megu þér þat ætla, þeir menn, er hann mun kalla at í sökum sé við hann, at hann mun engvan yðvarn spara, ef hann kemst í fœri. Farit nú þá eptir honum ok drepit hann«. Síðan fóru þeir ok kómu til vatnsins, ok féngu þar engi skip þau er fœr væri, fóru aptr síðan ok sögðu konungi sína ferð ok svá þat, at þeir Grímr mundu vera komnir yfir vatnit. — Skallagrímr fór leið sína ok föruneyti hans til þess er hann kom heim, sagði Skallagrímr

Kveldúlfi frá ferð þeirra. Kveldúlfr lét vel yfir því, er Skallagrímr hafði eigi farit til konungs þess erindis at ganga til handa honum, sagði enn sem fyrr, at þeir mundu af konungi hljóta skaða einn en enga uppreist. Kveldúlfr ok Skallagrímr ræddu opt um ráðagerð sína ok kom þat alt ásamt með þeim, sögðu svá at þeir mundu ekki mega vera þar í landi, heldr en aðrir menn, þeir er í úsætt væri við konung, ok mundi þeim hitt ráð at fara af landi á brott, ok þótti þeim þat fýsiligt at leita til Íslands, þvíat þá var sagt þar vel frá landkostum. Þar váru þá komnir vinir þeirra ok kunningjar, Ingólfr Arnarson ok förunautar hans, ok tekit sér landskosti ok bústaði á Íslandi, máttu menn þar nema sér lönd úkeypis ok velja bústaði. Staðfestist þat helzt um ráðagerð þeirra at þeir mundu bregða búi sínu ok fara af landi á brott. Þórir Hróaldsson hafði verit í barnæsku at fóstri með Kveldúlfi ok váru þeir Skallagrímr mjök jafnaldrar, var þar allkært í fóstbræðralagi. Þórir var orðinn lendr maðr konungs, er þetta var tíðinda, en vinátta þeirra Skallagríms hélzt ávalt. Snemma um várit bjuggu þeir Kveldúlfr skip sín, þeir höfðu mikinn skipakost ok góðan, bjuggu tvá knörru mikla, ok höfðu á hvárum 30 manna þeirra er liðfœrir váru, ok umfram konur ok ungmenni; þeir höfðu með sér lausafé þat alt, er þeir máttu meðkomast. En jarðir þeirra þorði engi maðr at kaupa fyrir ríki konungs. En er þeir váru búnir, þá sigldu þeir í brott, þeir sigldu í eyjar þær er Sólundir heita, þat eru margar eyjar ok stórar, ok svá mjök vágskornar at þat er mælt, at þar muni fáir menn vita allar hafnir.

Gutthormr hét maðr, son Sigurðar Hjartar, hann var móðurbróðir Haralds konungs, hann var fóstrfaðir hans ok ráðamaðr fyrir liði hans, þvíat konungr var þá á barns aldri fyrst er hann kom til ríkis. Gutthormr var hertogi fyrir liði Haralds konungs, þá er hann vann land undir sik, ok í öllum orrostum þeim er konungr átti, þá er hann gékk til lands í Noregi. En er Haraldr var orðinn einvaldskonungr yfir landi öllu, ok hann settist um kyrt, þá gaf hann Gutthormi frænda sínum Vestrfold ok Austragðir ok Hringaríki ok land þat alt er átt hafði Hálfdan svarti faðir hans. Gutthormr átti sonu tvá ok dœtr tvær, synir hans hétu Sigurðr ok Ragnarr, en dœtr Ragnhildr ok Áslaug. Gutthormr tók sótt, en er at honum leið, þá sendi hann menn á fund Haralds konungs ok bað hann sjá fyrir börnum sínum ok fyrir ríki sínu; litlu síðar andaðist hann. En er konungr spurði andlát hans þá lét hann kalla til sín Hallvarð Harðfara ok þá brœðr, sagði at þeir skyldi fara sendiför hans austr í Vík. Konungr var þá staddr í Þrándheimi. Þeir brœðr bjoggust til ferðar þeirrar sem vegligast, völdu sér lið ok höfðu skip þat er þeir féngu bezt; þeir höfðu þat skip er átt hafði Þórólfr Kveldúlfsson, ok þeir höfðu tekit af Þorgilsi Gjallanda. En er þeir

váru búnir ferðar sinnar, þá sagði konungr þeim erindi, at þeir skyldu fara austr til Túnsbergs, þar var þá kaupstaðr, þar hafði Gutthormr haft atsetu, „skulu þit", sagði konungr, „fœra mér sonu Gutthorms, en dœtr hans skulu þar uppfœðast til þess er ek gipti þær, skal ek fá menn til at varðveita ríkit ok veita meyjunum fóstr". En er þeir brœðr váru búnir þá fara þeir leið sína, ok byrjaði þeim vel, kómu þeir um várit í Vík austr til Túnsbergs ok báru þar fram erindi sín. Taka þeir Hallvarðr við sonum Gutthorms ok miklu lausafé. Fara þeir þá er þeir eru búnir aptr á leið ok byrjaði þeim þá nökkurum mun seinna, ok varð ekki til tíðinda í þeirra ferð fyrr en þeir sigla norðr um Sognsæ byr góðan ok bjart veðr, ok váru þá allkátir.

Kveldúlfr ok þeir Skallagrímr héldu njósnum jafnan um sumarit inn á þjóðleiðinni. Skallagrímr var hverjum manni skygnri, hann sá sigling þeirra Hallvarðs ok kendi skipit, þvíat hann hafði þat skip sét fyrr, þá er Þorgils fór með. Skallagrímr hélt vörð á um ferð þeirra, hvar þeir lögðu til hafnar um kveldit. Síðan ferr hann aptr til liðs síns ok segir Kveldúlfi þat er hann hafði sét, svá þat at hann hafði kent skipit þat, er þeir Hallvarðr höfðu tekit af Þorgilsi ok Þórólfr hafði átt, ok þar mundi þeir menn nökkurir fylgja, er veiðr mundi í vera. Síðan búast þeir ok búa báða bátana, ok höfðu 20 menn á hvárum, stýrði öðrum Kveldúlfr en öðrum Skallagrímr. Róa þeir síðan ok leita skipsins, en er þeir koma at þar er skipit lá, þá lögðu þeir at landi, þeir Hallvarðr höfðu tjaldat yfir skipi sínu ok höfðu þá lagizt til svefns. En er þeir Kveldúlfr kómu at þeim, þá hljópu varðmenn upp, er sátu við bryggjusporð ok kölluðu á skip út, báðu menn uppstanda, sögðu at úfriðr fór at þeim. Hljópu þeir Hallvarðr til vápna sinna; en er þeir Kveldúlfr kómu at bryggjusporðinum, þá gékk hann út at skutbryggju, en Skallagrímr gékk fram at bryggjunni. Kveldúlfr hafði í hendi bryntröll, en er hann kom á skipit, þá bað hann menn sína ganga it ytra með borðum ok höggva tjöldin or klofum, en hann óð aptr til lyptingarinnar, ok svá er sagt at þá hamaðist hann, ok fleiri váru þeir förunautar hans er hömuðust; þeir drápu menn þá alla, er fyrir þeim urðu; slíkt sama gerði Skallagrímr þar er hann gékk um skipit; léttu þeir feðgar eigi fyrr en hroðit var skipit. En er Kveldúlfr kom aptr at lyptingunni, reiddi hann upp bryntröllit ok höggr til Hallvarðs í gegnum hjálminn ok höfuðit, ok sökk alt at skapti, hnykti hann þá svá hart at sér at hann brá Hallvarði á lopt ok slöngði honum útbyrðis. Skallagrímr ruddi framstafninn ok drap Sigtrygg; mart hljóp manna á kaf. Menn Skallagríms tóku bátinn, er þeir höfðu þagat haft, ok réru til ok drápu þá alla er á sundinu váru. Þar lézt alls með Hallvarði meir en 50 manna.

En þeir Skallagrímr tóku skipit þat er þeir Hallvarðr höfðu þangat haft, ok fé alt þat sem á var: þeir tóku höndum menn tvá eða þrjá, þá er þeim þótti sem minstir væri fyrir sér ok gáfu grið, ok höfðu af þeim tíðindi, fréttu hverir menn hefði verit á skipinu ok svá hverneg ferð þeirra hefði ætluð verit. En er þeir váru vísir orðnir alls hins sanna, þá könnuðu þeir valinn þann er á skipinu lá; fanst þeim þá þat á, at meiri hlutr manna hafði fyrir borð hlaupit ok höfðu týnzt en þat er fallit hafði á skipinu. Þeir synir Gutthorms höfðu fyrir borð hlaupit ok höfðu týnzt, þá var annarr þeirra 12 vetra en annarr 10 ok hinir vænligstu menn. Síðan lét Skallagrímr lausa fara þá menn, er hann hafði grið gefit, ok bað þá fara á fund Haralds konungs ok segja honum vendiliga frá þeim tíðindum, er þar gerðust, ok svá hverir þar höfðu at verit: „skulu þér“, segir hann, „bera til konungs kviðling þenna“:

Nú er hersis hefnd
við hilmi efnd:
gengr úlfr ok örn
of ynglings börn;

flugu höggvin hræ
Hallvarðs á sæ;
grön slítr ara
undir Snarfara.

Síðan fluttu þeir Grímr skipit með farmi út til skipa sinna, skiptu þá skipunum; hlóðu þetta er þá höfðu þeir fengit, en ruddu hitt, er þeir höfðu áðr ok minna var, báru þarí grjót, ok brutu þará raufar ok söktu niðr, sigldu síðan á haf út, þegar byr gaf. Svá er sagt at þeim mönnum væri farit er hamrammir eru, eða þeim er berserksgangr var á, at meðan þat var framit þá váru þeir svá sterkir, at ekki hélzt við þeim, en fyrst er af var gengit þá váru þeir úmátkari en at vanda, Kveldúlfr var ok svá, at þá er af honum gékk hamremmin, þá kendi hann mœði af sókn þeirri er hann hafði veitt, ok var hann þá af öllu saman úmáttugr, svá at hann lagðist í rekkju, en byrr bar þá á haf út. Kveldúlfr réð fyrir skipi því er þeir höfðu tekit af þeim Hallvarði, þeim byrjaði vel ok héldu mjök samfloti, svá at hvárir vissu löngum til annarra; en er sóttist hafit, þá elnaði sótt á hendr Kveldúlfi, en er dró at því at hann var banvænn, þá kallaði hann til sín skipverja sína ok sagði þeim, at honum þótti líkligt at þá mundi brátt skilja vega þeirra, „hefi ek“, sagði hann, „ekki kvellisjúkr verit; en ef svá ferr, sem mér þykkir nú líkligast at ek öndumst, þá gerit mér kistu ok látit mik fara fyrir borð; ok ferr þetta annan veg en ek hugða at vera mundi, ef ek skal eigi koma til Íslands ok nema þar land. Þér skulut bera kveðju mína Grími syni mínum, þá er þér finnizt, ok segit honum þat með, ef svá verðr at hann kemr til Íslands, ok beri svá at, þótt þat muni úlíkligt þykkja, at ek sjá þar fyrir, þá taki hann sér þar bústað sem næst því er ek hefi at landi komit“. Litlu síðar andaðist Kveldúlfr, gerðu skipverjar hans svá sem

hann hafði fyrir mælt, at þeir lögðu hann í kistu ok skutu síðan fyrir borð. Grímr hét maðr son þóris Ketilssonar kjölfara, kynstórr maðr ok auðigr, hann var skipveri Kveldúlfs, hann hafði verit aldavin þeirra feðga ok hafði verit í ferðum bæði með þeim ok þórólfi, hafði hann ok fengit reiði konungs fyrir þá sök; hann tók til forráða skipit eptir er Kveldúlfr var dauðr. En er þeir váru komnir við ísland, þá sigldu þeir sunnan at landi; þeir sigldu vestr fyrir landit, því at þeir höfðu þat spurt at Ingólfr hafði sér þar bústað tekit. En er þeir kómu fyrir Reykjanes ok þeir sá firðinum upplúka, þá stefndu þeir inn í fjörðinn báðum skipunum; veðr gerði hvast, ok væta mikil ok þoka, skildust þá skipin: sigldu þeir Grímr hinn Háleyski inn eptir Borgarfirði til þess er þraut sker öll, köstuðu þá akkerum til þess er veðr lægði ok ljóst gerði, þá biðu þeir flœðar. Síðan fluttu þeir skipit upp í ár ós nökkurn, sú er kölluð Gufuá, leiddu þar skipit upp eptir ánni svá sem gékk, báru síðan farm af skipinu ok bjoggust þar um hinn fyrsta vetr. þeir könnuðu landit með sæ bæði upp ok út, ok er þeir höfðu skamt farit, þá fundu þeir í vík einni hvar upp var rekin kista Kveldúlfs, fluttu þeir kistuna á nes þat er þar varð, settu hana þar niðr ok hlóðu at grjóti.

## 13. Gunnar og Njaal.

(Af Njáls Saga).

Gunnarr Hámundarson Gunnarssonar, Baugssonar, bjó at Hlíðarenda í Fljótshlíð; hann var mikill maðr vexti ok sterkr, manna bezt vígr: hann hjó báðum höndum ok skaut, ef hann vildi, ok hann vá svá skjótt með sverði, at þrjú þóttu á lopti at sjá: hann skaut manna bezt af boga, ok hœfði alt þat er hann skaut til; hann hljóp meir en hæð sína með öllum herklæðum, ok eigi skemra aptr en fram fyrir sik; hann var syndr sem selr; ok eigi var sá leikr, er nökkurr þyrfti við hann at keppa; ok hefir svá verit sagt, at engi væri hans jafningi. Hann var vænn at yfirlitum ok ljóslitaðr, réttnefjaðr ok hafit upp í framanvert, bláeygr ok snareygr, ok roði í kinnunum, hárit mikit, ok fór vel ok vel litt; manna kurteisastr var hann, harðgörr í öllu, fémildr ok stiltr vel, vinfastr ok vinavandr; hann var vel auðigr at fé; bróðir hans hét Kolskeggr, hann var mikill maðr ok sterkr, drengr góðr ok öruggr í öllu. Annarr bróðir hans hét Hjörtr, hann var þá í bernsku.

Njáll bjó at Bergþórshváli í Landeyjum, annat bú átti hann í þórólfsfelli. Njáll var vel auðigr at fé ok vænn at áliti, honum vóx eigi skegg. Hann var lögmaðr svá mikill, at engi fanst hans jafningi; vitr var hann ok forspár, heilráðr ok góðgjarn, ok varð alt at ráði, þat er hann réð mönnum, hógværr ok drenglyndr; hann leysti hvers manns vandræði, er á hans fund

kom. Bergþóra hét kona hans, hon var Skarpheðins dóttir, kvennskörungr mikill ok drengr góðr, ok nökkut skaphörð; þau áttu 6 börn, dœtr þrjár ok sonu þrjá, ok koma þeir allir við þessa sögu síðan.

Nú skal nefna sonu Njáls: Skarpheðinn hét hinn elzti, hann var mikill maðr vexti ok sterkr, vel vígr, syndr sem selr, manna fóthvatastr, ok skjótr ok öruggr, gagnorðr ok skjótorðr, ok skáld gott, en þó löngum vel stiltr; hann var jarpr á hár, ok sveipr í hárinu, eygðr vel, fölleitr ok skarpleitr, liðr á nefi, ok lá hátt tanngarðrinn, munnljótr mjök, ok þó manna hermannligstr. Grímr hét annarr son Njáls, hann var fríðr sýnum, ok hærðr vel, dökkr á hár, ok fríðari sýnum en Skarpheðinn, mikill ok sterkr. Helgi hét inn þriði son Njáls, hann var fríðr sýnum ok hærðr vel, hann var sterkr maðr ok vígr vel, hann var vitr maðr ok stiltr vel; allir váru þeir úkvángaðir synir Njáls. Höskuldr hét hinn fjórði son Njáls, hann var laungetinn, móðir hans var Hróðný, ok var Höskulds dóttir, systir Ingjalds frá Keldum.

---

Gunnarr reið ok þeir allir; en er þeir kómu á þing, þá váru þeir svá vel búnir, at engir váru þar jafnvel búnir, ok fóru menn út or hverri búð at undrast þá. Gunnarr reið til búðar Rangæinga, ok var þar með frændum sínum. Margir menn fóru at finna Gunnar, ok spyrja hann tíðinda; hann var við alla menn léttr ok kátr, ok sagði öllum slíkt er vildu.

Þat var einn dag, er Gunnarr gékk frá lögbergi, hann gékk fyrir Mosfellingabúð, þá sá hann konu fara í móti sér, ok var vel búin, en er þau fundust, kvaddi hon þegar Gunnar, hann tók vel kveðju hennar, ok spyrr hvat kvenna hon væri. Hon nefndist Hallgerðr, ok kvazt vera dóttir Höskulds Dalakollssonar; hon mælti til hans djarfliga, ok bað segja sér frá ferðum sínum, en hann kvazt ekki varna mundu henni máls: settust þau þá niðr, ok töluðu. Hon var svá búin, at hon var í rauðu kyltli, ok hafði yfir sér skarlazskikkju hlaðbúna í skaut niðr; hárit tók ofan á bringu henni, ok var bæði mikit ok fagrt. Gunnarr var í skarlazklæðum, er Haraldr konungr Gormsson gaf honum; hann hafði ok gullhring á hendi, þann er Hákon jarl gaf honum.

Þau töluðu lengi hátt. Þar kom er hann spurði, hvárt hon væri úgefin. Hon sagði at svá væri: „ok er þat ekki margra at hætta á þat". „Þykki þér hvergi fullkosta"? „Eigi er þat", segir hon, „en mannvönd mun ek vera". „Hversu munt þú svara, ef ek bið þín"? „Þat mun þér ekki í hug", segir hon. „Eigi er þat", segir hann. „Ef þér er nökkurr hugr á, þá finn þú föður minn". Síðan skildu þau talit.

Gunnarr gékk þegar til búðar Dalamanna, ok fann mann úti fyrir

búðinni, ok spyrr hvárt Höskuldr væri í búð; sá segir at hann væri í búð; gékk þá Gunnarr inn. Höskuldr ok Hrútr tóku vel við Gunnari, hann settist niðr á meðal þeirra, ok fannst þat ekki í tali þeirra, at þar hefði missætti verit í meðal. Þar kom niðr ræða Gunnars, hversu þeir bræðr mundu því svara, ef hann bæði Hallgerðar. „Vel", segir Höskuldr, „ef þér er þat alhugat". Gunnarr segir sér þat alvöru: „en svá skildu vér næstum, at mörgum mundi þat þykkja líkligt, at hér mundi ekki samband verða". „Hversu lízt þér, Hrútr frændi"? segir Höskuldr. Hrútr svaraði: „ekki þykki mér þetta jafnræði". „Hvat finnr þú til þess"? segir Gunnarr. Hrútr mælti: „því mun ek svara þér um þetta, er satt er; þú ert maðr vaskr, ok vel at þér, en hon er blandin mjök, ok vil ek þik í engu svíkja". „Vel mun þér fara", segir Gunnarr, „en þó mun ek þat fyrir satt hafa, at þér virðit í fornan fjándskap, ef þér vilit eigi gera mér kostinn". „Eigi er þat", segir Hrútr; meir er hitt, at ek sé at þú mátt nú ekki viðgera; en þótt vér kaupim eigi, þá vildim vér þó vera vinir þínir". „Ek hefi talat við hana", segir Gunnarr, „ok er þat ekki fjarri hennar skapi". Hrútr mælti: „veit ek at báðum er þetta girnda ráð, hættit þit ok mestu til, hversu ferr".

Hrútr sagði Gunnari úfregit alt um skapferði Hallgerðar, ok þótti Gunnari fyrst œrit mart, þat er átátt var, en þar kom síðar, at saman dró kaupmála með þeim. Var þá sent eptir Hallgerði, var þá talit um málit, svá at hon var við. Létu þeir nú sem fyrr, at hon festi sik sjálf; skyldi þetta boð vera at Hlíðarenda, ok skyldi fara fyrst leyniliga, en þó kom þar, er allir vissu.

Gunnarr reið heim af þingi, ok kom til Bergþórshváls, ok sagði Njáli frá kaupum sínum; hann tók þessu þungliga. Gunnarr spyrr hví Njáli þótti þetta svá úráðligt? „þvíat af henni mun standast alt it illa, er hon kemr austr hingat", segir Njáll. „Aldri skal hon spilla okkru vinfengi", segir Gunnarr. „Þat mun þó svá nær fara", segir Njáll, „en þó munt þú jafnan bœta fyrir henni". Gunnarr bauð Njáli til boðs ok öllum þeim þaðan, sem hann vildi at fœri. Njáll hét at fara. Síðan reið Gunnarr heim, ok reið um heraðit at bjóða mönnum.

---

Nú er þar til máls at taka, at Gunnarr var úti at Hlíðarenda, ok sér smalamann sinn hleypa at garði. Smalamaðrinn reið heim í túnit. Gunnarr mælti: „hvi ríðr þú svá hart? „Ek vilda vera þér trúlyndr, ek sá menn ríða ofan með Markarfljóti, átta saman, ok váru fjórir í litklæðum". Gunnarr mælti: „þar mun vera Otkell". Sveininn mælti: „ek hefi opt heyrt mörg

skapraunarorð Skamkels, þvíat Skamkell mælti þat austr í Dal, at þú grétir þá er þeir riðu á þik ofan, ok segi ek þér af því, at mér þykkir ilt orðtak slíkt vándra manna". „Ekki skulu við vera orðsjúkir", segir Gunnarr, „en þat eitt skal þú vinna er þér líkar héðan í frá". „Skal ek nakkvat segja Kolskeggi bróður þínum"? sagði smalamaðrinn. „Far þú ok sof", segir Gunnarr, „ek mun segja Kolskeggi". Sveinninn lagðist niðr, ok sofnaði þegar.

Gunnarr tók smalahestinn. ok lagði á söðul sinn, hann tók skjöld sinn, ok gyrði sik sverðinu Ölvisnaut, setr hjálm á höfuð sér, tekr atgeirinn, ok söng í hátt, ok heyrði Rannveig, móðir hans, hon gékk fram, ok mælti: „reiðuligr ert þú nú, son minn, ok eigi sá ek þik slíkan fyrr.

Gunnarr gengr út, ok stingr niðr atgeirinum, ok verpr sér í söðulinn ok ríðr brot. Rannveig, móðir hans, gékk til stofu, þar var háreysti mikit, „hátt kveði þér", segir hon, „en þó lét hærra atgeirrinn, er Gunnarr gékk út". Kolskeggr heyrði, ok mælti: „þat mun eigi engra tíðinda vita". „Þat er vel", segir Hallgerðr, „nú munu þeir reyna, hvárt hann gengr grátandi undan þeim". Kolskeggr tekr vápn sín, ok leitar sér at hesti, ok ríðr eptir, slíkt er hann mátti.

Gunnarr ríðr nú um Akratunga þvera, ok svá til Geilastofna, ok þaðan til Rangár, ok ofan til vaðs hjá Hofi. Konur váru þar á stöðli, Gunnarr hljóp af hesti sínum ok batt; þá riðu hinir at; móhellur váru í götunum við vaðit. Gunnarr mælti til þeirra: nú er at verja sik, er hér nú atgeirrinn, munu þér nú ok reyna þat, hvárt ek græt nakkvat fyrir yðr.

Þeir hljópu þá allir af baki, ok sóttu at Gunnari; Hallbjörn var fremstr. „Sæk þú eigi at", segir Gunnarr, „þér vilda ek sízt ilt gera, en ek mun þó engum hlífa, ef ek á hendr mínar at verja". „Þat mun ekki gera", segir Hallbjörn, „þú munt þó drepa vilja bróður minn, ok er þat skömm ef ek sit hjá", ok lagði til Gunnars tveim höndum miklu spjóti. Gunnarr skaut fyrir skildinum, en Hallbjörn lagði í gegnum skjöldinn. Gunnarr skaut svá fast niðr skildinum, at hann stóð fastr í jörðunni, en tók til sverðsins svá skjótt, at eigi mátti auga á festa, ok hjó með sverðinu, ok kom á hönd Hallbirni, fyrir ofan úlflið, svá at aftók. Skamkell hljóp á bak Gunnari, ok höggr til hans með mikilli öxi. Gunnarr snérist skjótt at honum, ok lýstr við atgeirinum, ok kom undir kverk öxinni, ok hraut hon or hendi honum út á Rangá. Gunnarr leggr í annat sinn atgeirinum, ok í gegnum Skamkel, ok vegr hann upp ok kastar honum í leirgötuna at höfðinu. Auðólfr austmaðr þrífr upp spjót, ok skaut at Gunnari. Gunnarr tók á lopti spjótit, ok skaut aptr þegar, ok fló í gegnum skjöldinn ok austmanninn, ok niðr í völlinn. Otkell höggr með sverði til Gunnars, ok stefnir á fótinn fyrir neðan kné. Gunnarr hljóp í lopt upp, ok missir hans.

Gunnarr leggr atgeirinum til hans, ok í gegnum hann. Þá kemr Kolskeggr at, ok hleypr þegar at Hallkatli, ok höggr hann banahögg með saxinu; þar vega þeir þá átta.

Gunnarr reið heim ok Kolskeggr eptir verk þessi, ok ríða þeir hart upp eptir eyrunum, ok stökk Gunnarr af baki, ok kom standandi niðr; Kolskeggr mælti: „hart ríðr þú nú, frændi". „Þat lagði Skamkell mér til orðs, er ek mælta svá, er riðit var á mik". „Hefnt hefir þú nú þess", segir Kolskeggr. „Hvat ek veit", segir Gunnarr, „hvárt ek mun því úvaskari maðr en aðrir menn, sem mér þykkir meira fyrir, en öðrum mönnum, at vega menn".

Nú spyrjast tíðindin víða, ok mæltu þat margir, at eigi þœtti þetta fyrr framkoma, en líkligt var til. Gunnarr reið til Bergþórshváls, ok sagði Njáli verk þessi. Njáll mælti: „mikit hefir þú atgert, ok hefir þú verit mjök atþreyttr". „Hversu mun nú ganga síðan"? segir Gunnarr. „Vilt þú at ek segi þér þat", segir Njáll, „er eigi er framkomit? þú munt ríða til þings, ok munt þú njóta við ráða minna, ok fá af þessu máli ina mestu sœmd, mun þetta upphaf vígaferla þinna". „Ráð þú mér heilræði nökkur", segir Gunnarr. „Ek skal þat gera", segir Njáll: „Veg þú aldri meir í enn sama knérunn en um sinn; ok rjúf aldri sætt, þá er góðir menn gera meðal þín ok annarra, ok þó sízt á því máli". Gunnarr mælti: „öðrum ætlaða ek at þat skyldi hættara en mér". „Svá mun vera", segir Njáll, „en þó skaltu svá um þitt mál hugsa, ef þetta berr saman, at þá munt þú skamt eiga úlifat, en ella munt þú verða gamall maðr". Gunnarr mælti: „veizt þú hvat þér mun verða at bana"? „Veit ek", segir Njáll. „Hvat"? segir Gunnarr. „Þat sem allir munu sízt ætla", segir Njáll. Síðan reið Gunnarr heim.

---

Reið Gunnarr þá af þingi vestr til Dala í Hjarðarholt, ok tók Ólafr pái vel við honum, sat hann þar hálfan mánað; hann reið víða um Dali, ok tóku allir við honum feginshendi, en at skilnaði mælti Ólafr: „ek vil gefa þér þrjá gripi, gullhring ok skikkju, er átt hefir Mýrkjartan írakonungr, ok hund, er mér var gefinn á Írlandi, hann er mikill ok eigi verri til fylgðar en röskr maðr, þat fylgir ok, at hann hefir manns vit; hann mun ok geyja at hverjum manni, þeim er hann veit at úvin þinn er, en aldri at vinum þínum; sér hann ok á hverjum manni hvárt til þín er vel eða illa; hann mun ok líf áleggja at vera þér trúr, þessi hundr heitir Sámr". Síðan mælti hann við hundinn: „nú skaltu Gunnari fylgja, ok vera honum slíkr, sem þú mátt"; hundrinn gékk þegar at Gunnari, ok lagðist niðr fyrir fœtr honum.

Ólafr bað Gunnar vera varan um sik, ok kvað hann eiga marga úfundarmenn: „þar er þú þykkir ágætr maðr nú um alt land". Gunnarr þakkaði honum gjafir ok heilræði, ok reið heim. Sitr Gunnarr nú heima nökkura hríð, ok er kyrt.

---

þessi tíðindi spyrjast víða, ok var þorgeirr mörgum manni harmdauði. þeir Gissurr hvíti riðu til, ok lýstu vígunum, ok kvöddu búa til þings; riðu þeir þá vestr heim. þeir Njáll ok Gunnarr fundust, ok töluðu um bardagann; þá mælti Njáll við Gunnar: „vertu nú varr um þik, nú hefir þú vegit tysvar sinnum í sama knérunn, hygg nú svá fyrir hag þínum, at þar liggr við líf þitt, ef þú heldr eigi þá sætt, sem ger er". „Hvergi ætla ek mér af at bregða", segir Gunnarr, „en þó mun ek þurfa liðsinni yðvart á þingi". Njáll svaraði: „halda mun ek við þik mínum trúnaði til dauðadags". Ríðr Gunnarr þá heim.

Líðr nú til þings, ok fjölmenna hvárirtveggju mjök; er um þetta allfjölrædt á þingi: hversu mál þessi mundi lúkast, þeir Gissurr ok Geirr goði töluðu með sér, hvárr þeirra lýsa skyldi vígsökinni þorgeirs, en þar kom at Gissurr tók undir sik málit, ok lýsti sök at lögbergi. Gunnarr var vel stiltr, ok lagði fátt til, líðr nu þingit, þar til er dómar fara út; Gunnarr stóð norðan at Rangæingadómi ok hans menn; Gissurr stóð sunnan at ok nefnir vátta, ok bauð Gunnari at hlýða til eiðspjalls síns, ok til framsögu sakar sinnar ok sóknargagna þeirra allra, sem hann hugði fram at fœra. Eptir þat vann hann eið, þá sagði hann fram sök, svá skapaða í dóm, sem hann lýsti, þá lét hann bera lýsingarvætti, þá bauð hann búum í setu, ok til ruðningar um kviðinn.

þá mælti Njáll: nú mun eigi mega sitjanda hlut í eiga, göngum nú þar til sem búarnir sitja; þeir géngu þangat til, ok kvöddu fjóra búa or kviðinum, en kvöddu hina fimm bjargkviðar, er eptir váru, um málit Gunnars: hvárt þeir nafnar hefði farit með þann hug til fundar, at vinna á Gunnari, ef þeir mætti; en allir báru þat skjótt, at þat hefði verit; kallaði Njáll þetta lögvörn fyrir málit, ok kvazt mundu frambera vörnina, nema þeir legði til sætta.

Váru í þessu þá margir höfðingjar at biðja sættanna, ok fékst þat af, at 12 menn skyldu gera um málit, géngu hvárirtveggju þá ok handsöluðu þessa sætt. Eptir þat var gert um málit, ok kveðit á fégjöld; ok skyldi alt greidt þegar þar á þingi, en Gunnarr skyldi fara útan ok Kolskeggr, ok vera í brotu 3 vetr, en ef Gunnarr fœri eigi útan, ok mætti hann komast, þá skyldi hann dræpr fyrir frændum ens vegna.

Gunnarr lét ekki á sik finna at honum þœtti eigi góð sættin. Gunnarr spurði Njáll at fé því, er hann hafði fengit honum til varðveizlu. Njáll hafði ávaxtat féit, ok greiddi þá fram alt féit, ok stóðst þat á endum, ok þat er Gunnarr átti at gjalda fyrir sik.

Ríða þeir nú heim. þeir' Njáll ok Gunnarr riðu báðir samt af þingi; þá mælti Njáll til Gunnars: „gerðu svá vel, félagi, at þú halt sætt þessa, ok mun hvat vit höfum viðmælzt, ok svá sem þér varð hin fyrri útanferð mikiliga til sœmdar, þá mun þér verða þessi miklu meir til sœmdar, muntu koma út með mikilli mannvirðingu, ok verða maðr gamall, ok mun engi maðr hér þá á sporði þér standa; en ef þú ferr eigi útan, ok rýfr sætt þína, þá muntu drepinn vera hér á landi, ok er þat ilt at vita þeim er vinir þínir eru". Gunnarr kvazt ekki ætla at rjúfa sættir. Gunnarr ríðr heim ok sagði sættina, Rannveig kvað vel at hann fœri útan, ok ætti þeir við annan at deila fyrst.

þeir váru menn frumvaxta synir Gunnars, Högni ok Grani, þeir váru menn úskaplíkir, hafði Grani mikit af skaplyndi móður sinnar, en Högni var vel at sér. Gunnarr lætr flytja vöru þeirra brœðra til skips, ok þá er öll föng Gunnars váru komin, ok skip var mjök búit, þá ríðr Gunnarr til Bergþórshváls ok á aðra bœi at finna menn, ok þakkaði liðveizlu öllum þeim, er honum höfðu lið veitt. Annan dag eptir býr hann snemmendis ferð sína til skips, ok sagði þá öllu liði at hann myndi ríða í brot alfari, ok þótti mönnum þat mikit, en væntu þó tilkomu hans síðar.

Gunnarr hverfr til allra manna, er hann var búinn; géngu menn út með honum allir; hann stingr niðr atgeirinum, ok stiklar í söðulinn, ok ríða þeir Kolskeggr í brot; þeir ríða fram með Markarfljóti, þá drap hestr Gunnars fœti, ok stökk hann af baki, honum varð litit upp til hlíðarinnar ok bœjarins at Hlíðarenda, ok mælti: „fögr er hlíðin, svá at mér hefir hon aldri jafnfögr sýnzt, bleikir akrar en slegin tún, ok mun ek ríða heim aptr ok fara hvergi". „Gerðu eigi þann úvina fagnað", segir Kolskeggr, „at þú rjúfir sætt þína, þvíat þér myndi engi maðr þat ætla, ok muntu þat ætla mega, at svá mun alt fara, sem Njáll hefir sagt". „Hvergi mun ek fara, ok svá vilda ek at þú gerðir", segir Gunnarr. „Eigi skal þat", segir Kolseggr, „hvárki skal ek á þessu níðast ok á engu öðru, því er mér er tiltrúat, ok mun sjá einn hlutr svá vera, at skilja mun með okkr, en seg þat frændum mínum ok móður minni, at ek ætla ekki at sjá ísland, þvíat ek mun spyrja þik látinn, frændi! ok heldr mik þá ekki til útferðar". Skilr þá með þeim, ríðr Gunnarr heim til Hlíðarenda, en Kolskeggr ríðr til skips, ok ferr útan. Hallgerðr verðr fegin Gunnari, er hann kom heim, en móðir hans lagði fátt til.

Gunnarr sitr nú heima þetta haust ok vetrinn, ok hafði ekki mart

manna með sér; líðr nú vetr or garði. Ólafr pái bauð Gunnari með sér at vera ok Hallgerði, en fá bú í hendr móður sinni ok Högna syni sínum. Gunnari þótti fýsiligt fyrst, ok játaði því, en þá er at kom, þá vildi hann eigi.

En á þingi um sumarit lýsa þeir Gissurr sekt hans at lögbergi, en áðr þinglausnir váru, stefnði Gissurr öllum úvinum Gunnars í Almannagjá, en þeir réðu atför við Gunnar ok höfðu handtak at, ok lögðu við sekt, ef nökkurr gengi or. Mörðr skyldi halda njósnum, nær bezt gæfi fœri á honum, ok váru þeir 40 manna í þessu sambandi, þótti þeim sér nú mundu lítit fyrir at veiða Gunnar, er á brotu var Kolskeggr ok þráinn ok margir aðrir vinir Gunnars.

Riðu menn heim af þingi. Njáll fór at finna Gunnar, ok sagði honum sekt hans ok ráðna atför við hann. „Vel þykki mér þér fara“, segir Gunnarr, „þú gerir mik varan við“. „Nú vil ek“, segir Njáll, „at Skarpheðinn fari til þín, ok Höskuldr son minn, ok munu þeir leggja sitt líf við þitt líf“. „Eigi vil ek“, segir Gunnarr, „at synir þínir sé drepnir fyrir mínar sakir, ok áttu annat at mér“. „Fyrir ekki mun þat koma“, segir Njáll; „þangat mun snúit vandræðum, þá er þú ert látinn, sem synir mínir eru“. „Eigi er þat úlíkligt“, segir Gunnarr, „en eigi vilda ek at þat hlytist af mér til; en þess vil ek biðja, at þér sjáit á með Högna syni mínum; en ek tala ekki til Grana, því at hann gerir ekki mart at mínu skapi“. Reið Njáll heim, ok hét því.

þat er sagt at Gunnarr reið til allra mannfunda ok lögþinga, ok þorðu aldri úvinir hans á hann at ráða; fór svá fram nökkura hríð, at hann fór sem úsekr maðr.

---

Um haustit sendi Mörðr Valgarðsson orð, at Gunnarr mundi vera einn heima, en lið alt myndi vera niðri í eyjum at lúka heyverkum. Riðu þeir Gissurr hvíti ok Geirr goði austr yfir ár, þegar þeir fréttu þat, ok austr yfir sanda til Hofs. þá sendu þeir orð Starkaði undir þríhyrningi, ok fundust þeir þar allir, er at Gunnari skyldu fara, ok réðu hversu at skyldi fara.

Mörðr sagði at þeir mundu eigi koma á úvart Gunnari, nema þeir tœki bónda af næsta bœ, er þorkell hét, ok léti hann fara nauðgan með sér, at taka hundinn Sám, ok fœri hann heim einn á bœinn. Fóru þeir síðan austr til Hlíðarenda, ok sendu eptir þorkatli; þeir tóku hann höndum, ok gerðu honum tvá kosti, at þeir mundu drepa hann, ella skyldi hann taka hundinn, en hann vildi heldr leysa líf sitt, ok fór með þeim.

Traðir váru fyrir ofan garðinn at Hlíðarenda, ok námu þeir þar staðar með flokkinn; þorkell bóndi gékk heim á bœinn, ok lá rakkinn á húsum uppi, ok teygir hann rakkann á brot með sér í geilar nökkurar; í því sér hundrinn, at þar eru menn fyrir, ok hleypr á hann þorkel upp, ok grípr nárann. Önundr or Tröllaskógi hjó með öxi í höfuð hundinum, svá at alt kom í heilann. Hundrinn kvað við hátt, svá at þat þótti þeim með údœmum miklum vera, ok féll hann dauðr niðr.

Gunnarr vaknaði í skálanum, ok mælti: „sárt ertu leikinn, Sámr fóstri, ok má vera svá sé tilætlat, at skamt skyli okkar í meðal". Skáli Gunnars var gerr af viði einum, ok súðþaktr útan ok gluggar hjá brúnásunum, ok snúin þar fyrir speld. Gunnarr svaf í lopti einu í skálanum, ok Hallgerðr ok móðir hans.

þá er þeir kómu at, vissu þeir eigi hvárt Gunnarr myndi heima vera, ok báðu at einnhverr mundi fara heim fyrir, ok vita hvers víss yrði, en þeir settust niðr á völlinn. þorgrímr austmaðr gékk upp á skálann, Gunnarr sér at rauðan kyrtil bar við glugginn, ok leggr út með atgeirinum á hann miðjan; þorgrími skruppu fœtrnir, ok varð lauss skjöldrinn, ok hrataði hann ofan af þekjunni, gengr hann síðan at þeim Gissuri, er þeir sátu á vellinum. Gissurr leit við honum ok mælti: „hvárt er Gunnarr heima"? þorgrímr sagði: „vitit þér þat, en hitt vissa ek at atgeirr hans er heima"; síðan féll hann niðr dauðr.

þeir sóttu þá at húsunum. Gunnarr skaut út örum at þeim, ok varðist vel, ok gátu þeir ekki atgert, þá hljópu sumir í húsin, ok ætluðu þaðan at sœkja, Gunnarr kom þangat at þeim örunum, ok gátu þeir ekki atgert, ok fór svá fram um hríð. þeir tóku hvíld, ok sóttu at í annat sinn. Gunnarr skaut enn út, ok gátu þeir ekki atgert, ok hrukku frá í annat sinn, þá mælti Gissurr hvíti: „sœkjum at betr, ekki verðr af oss". Gerðu þeir þá hríð ina þriðju, ok váru við lengi, eptir þat hrukku þeir frá. Gunnarr mælti: „ör liggr þar úti á vegginum, ok er sú af þeirra örum, ok skal ek þeirri skjóta til þeirra, ok er þeim þat skömm, ef þeir fá geig af vápnum sínum". Móðir hans mælti: „ger þú eigi þat, sonn minn, at þú vekir þá, er þeir hafa áðr fráhorfit". Gunnarr þreif örina, ok skaut til þeirra, ok kom á Eylíf Önundarson, ok fékk hann af sár mikit; hann hafði staðit einn saman, ok vissu þeir eigi at hann var særðr. „Hönd kom þar út", segir Gissurr, „ok var á gullhringr, ok tók ör er lá á þekjunni, ok myndi eigi út leitat viðfanga, ef gnógt væri inni, ok skulu þér nú sœkja at". Mörðr mælti: „brennu vér hann inni"! „þat skal verða aldri", segir Gissurr, „þótt ek vita at líf mitt liggi við, er þér sjálfrátt at leggja til ráð þau er dugi, svá slœgr maðr sem þú ert kallaðr".

Strengir lágu á vellinum, ok váru hafðir til at festa með hús jafnan. Mörðr mælti: „töku vér strengina, ok berum um ássendana, en festum aðra endana um steina, ok snúum í vindása, ok vindum af ræfrit af skálanum“; þeir tóku strengina, ok veittu þessa umbúð alla, ok fann Gunnarr eigi fyrr, en þeir höfðu undit alt þakit af skálanum. Gunnarr skýtr þá af boganum, svá at þeir kómust aldri at honum. Þá mælti Mörðr í annat sinn, at þeir myndi brenna Gunnar inni. Gissurr mælti: „eigi veit ek hví þú vill þat mæla er engi vill annarra, ok skal þat aldri verða“.

Í þessu bili hleypr upp á þekjuna Þorbrandr Þorleiksson, ok höggr í sundr bogastrenginn Gunnars, Gunnarr þrífr atgeirinn báðum höndum, ok snýst at honum skjótt, ok rekr í gegnum hann, ok kastar honum á völlinn. Þá hljóp upp Ásbrandr bróðir hans, Gunnarr leggr til hans atgeirinum, ok kom hann skildi fyrir sik, atgeirinum rendi í gegnum skjöldinn, en brotnuðu báðir handleggirnir, ok féll hann út af vegginum, áðr hafði Gunnarr sært 8 menn, en vegit þá tvá; þá fékk Gunnarr sár tvau, ok sögðu þat allir menn, at hann brygði sér hvárki við sár né við bana.

Hann mælti til Hallgerðar: „fá mér leppa tvá or hári þínu, ok snúit þit móðir mín saman til bogastrengs mér“. „Liggr þér nökkut við“? segir hon. „Líf mitt liggr við“, segir hann, „þvíat þeir munu mik aldri fá sótt, meðan ek kem boganum við“. „Þá skal ek nú“, segir hon, „muna þér kinnhestinn, þann er þú laust mik, ok hirði ek aldri hvárt þú verr þik lengr eða skemr. „Hefir hverr til síns ágætis nökkut“, segir Gunnarr, „ok skal þik þessa eigi lengi biðja“. Rannveig mælti: „illa ferr þér, ok mun þín skömm lengi uppi“.

Gunnarr varði sik vel ok frœkniliga, ok særir nú aðra 8 menn, svá stórum sárum at mörgum lá við bana. Gunnarr verr sik, þartil er hann féll af mœði; þeir særðu hann mörgum stórum sárum, en þó komst hann or höndum þeim, ok varði sik þá enn lengi; en þó kom þar at þeir drápu hann.

Gissurr mælti: „mikinn öldung höfum vér nú at velli lagt, ok hefir oss erfit veitt, ok mun hans vörn uppi, meðan landit er bygt“. Síðan gékk hann til fundar við Rannveigu ok mælti: „viltu veita mönnum várum 2 jörð, er dauðir eru, ok sé hér heygðir“? „At heldr tveimr, at ek mynda gjarna veita yðr öllum“, segir hon. „Várkunn er þat“, segir hann, „er þú mælir þat, þvíat þú hefir mikils mist“, ok kvað á at þar skyldi engu ræna ok engu spilla.

Víg Gunnars spurðist, ok mæltist illa fyrir um allar sveitir, ok var hann mörgum manni harmdauði.

## 14. Tristrams Födsel.

(Af „Tristrams Saga ok Isoddar").

Einhvern dag sem Kanelangres herklæddist ok reið í bardaga at vinna borgir ok kastala síns ríkis með miklu kappi, skorti þar ekki stór högg, margr barðr ok brotinn, sumir sárir en sumir drepnir af hvárutveggja liði, leadir menn ok riddarar haldnir ok herteknir. Í þessum mikla bardaga var Kanelangres hinn kurteisi lagðr í gegnum ok skotinn af hestinum dauðr til jarðar. Hrygðust nú menn hans allir, ok hófðu með sér lík hans heim til kastala. Þá húfst þar eptir kveining ok grátr með allskyns hörmulig læti, ok féngu eigi huggan aðra en jarða hann tignarliga. En hans hin fríða frú fékk þann harm, at hana gat engi maðr huggat. Hon úvitaðist optliga niðrfallandi, lá sem dauð, ok kostaði með áköfum harmi at fyrirfara sér, hafnandi allri huggan; dauð hennar gleði ok alt hennar gaman; heldr kaus hon nú at deyja en lifa, svá segjandi: „Aum em ek yfir alla kvennmenn; hvernin skal ek lifa eptir svá dýrligan dreng? ek var hans líf ok huggan, en hann var unnusti minn ok líf mitt; ek var hans yndi en hann mín gleði; hversu skal ek lifa eptir hann dauðan? hversu skal ek huggast, er gaman mitt er grafit? Báðum okkr sómir saman at deyja; fyrir því hann má eigi til mín koma, þá verð ek í gegnum dauðann at ganga, því hans dauði drepr á mitt hjarta. Hversu skal ek hér mega lengr lifa? Mitt líf skal hans lífi fylgja. Ef ek væra laus frá þessu barni, skylda ek um dauðann ganga". Sem hon þenna harm þannig kærði, at hon enga huggun hafa vildi, þá féll hon í úvit í rekkju sína, ok tók kviðr hennar hana at pína. Nú hefir hon bæði harm ok píning, ok var hon í þessu meinlæti til hins þriðja dags. Ok um náttina eptir þriðja daginn, þá fœddi hon einn fríðan svein með mikilli mœðu ok meinlæti, ok andaðist síðan barnit var fœtt, af þeim mikla harmi ok píning er hélt henni, ok þeirri áköfu ást er hon til bónda síns hafði. Nú vex harmr hirðliðs þeirra; sumir grétu herra sinn, aðrir frú sína, allir hvártveggja; nú vex harmr í höllum öllum hirðmanna af fráfalli síns dýrliga herra; meiri var nú sorg en svefn með meyjum af sinnar frú dauða; allir grétu er sá sveininn svá ungan bæði föðurlausan ok móður.

Nú sem ræðismaðr fann þenna atburð um sína fríðu frú, þá mælti hann at skíra skyldi barnit at eigi dœi úskírt, ok kom kennimaðr með krisma ok gaf barninu ok spurði hvat heita skyldi ok mælti: „þat sýndist mér ráð", segir hann, „at sakar harms ok hugsóttar, hryggleiks ok þunga, angrs ok úróa, sára ok margra sorga ok af hörmuligum atburð, er á oss féll í hans burð, þá sé sveinninn nefndr Tristam". (En í þessu máli er „tristr" hryggr, ok var því snúit nafni hans, at fegra atkvæði er Tristram

en Tristam). „Því skal hann svá heita“, segir ráðismaðr, „at hann var oss fœddr í hryggleik; hann hefir tapat gaman ok gleði feðr sínum várum herra, mœðr sinni várri frú, ok samir oss af þessu at hryggjast, at hann var í harmi ok sorgum fœddr“. Ok var hann þá Tristram kallaðr ok skírðr með því nafni; ok af þessum sökum fékk hann þetta nafn, þvíat hann var í sorgum getinn ok sóttum borinn ok fœddr með hryggleiks hörmum ok harmsfull var öll hans æfi; því hét hann Tristram í verðugum hætti at hrygg vakti hann ok hryggr svaf hann, hryggr dó hann, sem þeir munu vísir verða er framleiðis heyra söguna.

Því næst lét ráðismaðr bera brott barnit or kastalanum á launungu til hýbýla sinna ok lét varðveita hann virðuliga fyrir úvinum ok þó leyniliga; ok vill hann engum manni sveininn upp segja at hann sé son hans herra; ok bauð hann þá systur sinni at fara at hvíla, ok er nökkur stund var liðin, þá lét hann hana í kirkju ganga ok lét hvervitna boða, at hon hefði þetta barn getit ok fœtt í þann tíma, þvíat hann vill eigi at konungrinn verði víss, at þessi er son hans herra. Ef konungr mætti sannfróðr verða, þá myndi skjótt láta honum fyrirfara at hann fái eigi af honum úfrið ok skaða, manndráp eða ríkisháska, ok fyrir því lét hann sveininn í leynd fóstra ok fyrir sinn son virða ok varðveita í hægu fóstri.

## 15. Brudstykker af Kongespeilet.

(Konungskuggsjá).

Sunr. Góðan dag, herra minn! Ek em svá kominn til yðars fundar, sem byrjar hlýðnum syni ok lítillátum at finna ástsamligan föður ok göfgan, ok vil ek þess yðr biðja at þér hafit þolinmœði at hlýða þeim hlutum, er mik fýsir at spyrja, en lítilláti at svara með góðfýsi spurðum hlutum.

Faðir. Með því at þú ert einga son minn, þá líkar mér vel, at þú komir opt til míns fundar, þvíat skylt væri tal okkat um marga hluti, ok vil ek gjarna hlýða því, er þú vilt spurt hafa ok veita andsvör þeim hlutum er ek em með skynsemd spurðr.

Sunr. Ek heyri þat alþýðu vitni, sem ek ætla satt vera um vísdu yðra, at varla fái vitrara mann í þessu landi en þér erut til allrar speki, þvíat til yðarrar orlausnar standa allir þeir er vandamálum eigu at skipta; enda heyri ek ok at svá væri, þá er þér várut með konungum, at í yðrum munni þótti vera öll landráð, svá lögmál ok sættargerðir ok allskonar speki. Nú með því at ek em hœfiligr arfi yðarr til fjárgæzlu, þá vilda ek ok gjarna verða nökkurs hluttakari af arfi spektar yðarrar ok vilda ek at þér lærðit mik, hvert stafrof eða upphaf er ek mega þat nema af yðr at ek mega

í margan lífs háska, stundum í hafi, en stundum í heiðnum löndum, en næsta jafnan með úkunnum þjóðum, ok þarf maðr jafnan leiða at huga, at hann sé þar vel, sem þá er hann staddr. Nú þarf hann í hafi mikinn ofléttleik ok hraustleik. En ef þú ert staddr í kaupstöðum, eða hvar sem þú ert, þá ger þik siðsaman ok léttlátan, þat görir mann vinsælan við alla góða menn. Ven þú þik árvakran um morna, ok gakk þegar fyrst til kirkju, þar sem þér þykkir bezt fallit at hlýða tíðum, ok hlýð þar öllum dagtíðum ok messu þegar eptir óttusöng, ok bið þá meðan fyrir þér með sálmum þínum ok þeim bœnum, er þú kant. En at loknum tíðum gakk þú út ok skygn um kaup þín; en ef ókunn eru þér kaup í bœ, þá skygn þú vandliga at, hversu þeir fara með sínum kaupum, er mestir ok beztir kaupmenn eru kallaðir. Þat skaltu ok varast um allan þann varning, er þú kaupir, at hann sé allr úspiltr ok flærðalauss ok fyrri rannsakaðr en þú festir kaup þitt til fulls. En öll þau kaup er þú kaupir, þá hafðu jafnan nökkura skilamenn íhjá, þá er váttar sé, hversu því kaupi var keypt. Nú skalt þú at kaupum þínum fara alt til dögurðar máls eða miðs dags, ef svá berr nauðsyn til, en síðan gakk þú til matar þíns. Borð þitt skaltu vel búa með hvítum dúkum ok hreinni fœzlu ok góðum drykk. Get þér vel at borði þínu, ef þú átt þess kosti, ok eptir mat þá gerðu annat hvárt, at þú sofna litla hríð, eða elligar gakk þú úti nökkura hríð ok skemt þér, ok sést um, hvat aðrir góðir kaupmenn hafast at, eða nökkurr nýr varningr komi sá til bœjar, er þér sé nauðsynligr at kaupa. En ef þú kemr aptr til herbergis, þá rannsakaðu varning þinn, at eigi verði síðan fyrir spjöllum, er þér í hendr kemr. En ef spjöll verða á varningi þínum ok skaltu þann varning selja, þá leyn þú þann aldri, er kaupir, sýn hánum þau spjöll sem á eru, ok semit síðan kaup ykkart, sem þit megut, þá heitir þú eigi svikari. Met ok varning þinn allan í gott verð, ok þó nær því, er þú sér at taka má ekki or hófi; þá heitir þú eigi mangari. En þat skaltu víst hugleiða á hverri stundu er þú mátt þik til tœma, at minnast á nám þitt, allra mest um lögbœkr, þvíat þat er raunar, at allra annarra er vit minna en þeirra er af bókum taka mannvit, ok þeir hafa flest vitni til síns fróðleiks er bezt eru lærðir. Gerðu þér allar lögbœkr kunnar, en meðan þú vilt kaupmaðr vera, þá ger þér kunnigan Bjarkeyjar rétt. En ef þér eru lög kunnig, þá verðr þú eigi úlögum beittr, ef þú átt málum at skipta við jafnoka þinn, ok kantu at lögum svara öllum málum. En þó at ek rœða nú flest um lögmál, þá verðr engi maðr til fulls vitr nema hann kunni góða skilning ok góðan hátt á öllum siðum, þar sem hann verðr staddr, ok ef þú vilt verða fullkominn í fróðleik, þá nem þú allar mállýzkur, en allra helzt

latínu ok völsku, þvíat þær tungur ganga víðast, en týn þú eigi at heldr þinni tungu.

---

Sonr. Þat er víst nauðsynligt hverjum þeim, er forvitnast vill slíka hluti, sem nú hafit þér um rœdt, at skilja vel hvat mælt verðr ok muna vandliga eptir. En nú með því at þér gátut litlu fyrr í yðarri rœðu þeirra hluta sumra, er mér skilst eigi með hverjum hætti fram fara, ok hefi ek þó leidt at huga með mér, þat er um birting lopts ok úkyrrleik sjóar; en með því at þér buðut þá hluti at nema ok kölluðut fróðleik, ef numit yrði, enda skil ek eigi áðr en ek heyri görr skilat fyrir mér, enda veit engan vísan meistarann þann er jamgóðan vilja mun hafa at læra mik um þá hluti sem sjálfa yðr, fyrir því vil ek með leyfi biðja yðr, at þér leggit með því þessa rœðu, at ek verða nökkut fróðari um þá hluti, hversu þverr eða vex birting lopts eða gangr himintungla, dægrafar eða ætta skipan ok allra hélzt um úkyrrleik sjóar, hvat er veldr hans mislyndi, er hans sýnist stundum í svá mikilli blíðu, at mann girnir til at leika við hann heilum misserum samau, en því næst sýnir hann svá mikla reiði ok illsku, at hann þrætir til fjár ok til lífs þeirra, er við hann skipta. Nú hugða ek þat, þó at sólin fyldi rásir sínar eptir fyrirsettri skipan, at ekki mundi þat ráða hræring hafsins. Nú ef yðarr er vili til at skýra þessa hluti gerr fyrir mér, þá vilda ek gjarna með athygli hlýða.

Faðir. Þat má ek vel gera eptir því sem ek hefi heyrt ór fróðra manna munni ok mér þykkir líkast vera eptir því viti sem Guð hefir mér gefit. Sól hefir fengit fjölskylt embætti, því at hon skal lýsa allan heim ok verma, ok gleðjast ýmsir staðir heimsins við hennar nærkvámu; en svá berr rás hennar til, at hon firrist þá staði stundum, er hon nálgast stundum. En þá er hon tekr at vitja austrs ættar með vörmum ok björtum geislum, þá tekr þar fyrst dagr upp at renna, ok sýnir þar austanvindr silfrligar brýnn ok blítt andlit; en því næst verðr hann kórónaðr með gulligum röðli, ok skrýðist hann þá með öllum gleðibúnaði sínum, léttir sorgum ok harmsamligum andvörpum, sýnir blítt andlit grönnum sínum á báðar hendr, ok biðr þá vera glaða með sér í sínum fagnaði ok létta vetrligum sorgum; sendir hann ok skínanda geisla í andlit vestanvindi at boða hánum sína gleði ok fagnað; þat boðar hann ok vestanvindi, at hann skrýðist þvílíkum búnaði um aptan sem austanvindr hafði um morgin. En at mögnuðum degi ok fyrirskipuðum tíma þá hrósar landsynningr nýteknum búnaði, ok sendir ornandi geisla með blíðu boði í andlit útnyrðingi. En at miðjum degi sýnir sunnanvindr sik eldan vera með yljar auðœfum, sendir varmar vingjafar norðanvindi ok

vermir svalt andlit ok býðr öllum grönnum sínum at miðla við þá af gnótt síns auðar. En at hnígandi degi þá tekr útsynningr við vægjanda skini ok vörmum geislum með glöðu andliti, sýnir af sinni hendi sætt ok samþykki at niðrlagðri reiði, býðr sterkum bylgjum ok bröttum bárum at hógværast með minkanda afli ok kallar framgróðrsamar döggvar til fullrar sættar við sína granna ok blæss hógværliga með vörmum anda í andlit landnyrðingi ok vermir blástsvalar vatrar, ok þíðir hélukalt enni ok frosnar kinnar með blíðu andliti; en at aptni upphöldum, þá sýnir vestanvindr skínanda enni yfir blíðu andliti, skrýðist með prýði ok kveldligri fegrð svá sem at hátíðligum aptni, boðar austanvindi með sendigeislum, at hann búist móti komandi hátíðum morginins eptir. En at settri sólu þá tekr útnyrðingr at létta fögrum brúnum ok bendir með léttri brún öllum grönnum sínum, at hann hefir í sinni gæzlu skínanda röðul; því næst leiðir hann fram skugga yfir andlit jarðar ok boðar þat öllum at þá nálgast hvíldarstund eptir dagligt erfiði. En at miðri nótt þá tekr norðanvindr við rás sólar ok leiðir hana um fjalligar auðnir móti þunnbygðum ströndum, ok leiðir fram þjokkvan skugga ok hylr andlit sitt með skýjuðum hjálmi ok boðar öllum at hann er búinn til varðhalds yfir grönnum sínum með náttligri vöku, til þess at þeir taki örugga hvíld ok hvega eptir dagligan hita; hann blæss ok vægiliga með svölum munni í andlit sunnanvindi, til þess at hann megi betr standast öfligan hita at komanda degi; hann fægir ok andlit himins eptir hindrandi ský, til þess at komanda ljósi megi sól auðveldliga senda sína geisla í allar ættir með björtu skini. En at komanda morni þá tekr landnyrðingr at opna samanlagðar brár ok rennir til sýnar djúpt sjáldr, svá sem til skygningar um upprisu tima; því næst lýkr hann upp vakrliga birtandi sjónir svá sem saddr af svefni eptir tekna hvíld; en eptir þat leiðir hann fram ljósan dag svá sem fagran ætkumann ok hæfiligan fyrirrásara í allra tún, ok boðar tilvíss at þá kemr þegar eptir hann geislanda hvel ok skínandi sól, ok býðr öllum at vera vel viðrbúnum. En því næst rennr upp sól ok skýtr geislum sínum í allar ættir at skynja um samtengt sáttmál, ok gengr síðan eptir fyrirskipuðum veg svá, sem fyrr var sagt. En at algörfum friði milli þessarra höfðingja, er nú eru nefndir, þá er vel fært í hvers þeirra veldi sem þú vilt farit hafa; þá tekr haf úti at byrgja allan meginstorm ok görir þar slétta vegu, sem fyrr var úfært fyrir stórum bárum ok þjokkum bylgjum, ok veita strandir þá þar í mörgum stöðum hafnir, sem fyrr var öræfi. Nú meðan þessi friðargerð stendr, þá er þér vel fært ok hverjum annarra þeim, er sitt skip vilja leiða eða sjálfir fara landa meðal yfir hafs háska; ok væri þat mönnunum skyldligt ok þó nauðsynligt at kunna góða skilning á því, nær háskatímar væri ok úfærir, eða nær þeir tímar komi er vel er til

hættanda alls; þvíat skilningarlaus skepna gætir þessarra tíma, þó með náttúru, at eigi sé skilning til; þvíat mannvitslausir fiskar kunnu at gæta sín í djúpum höfum, meðan hæstir eru stormar um vetrinn, en at hallanda vetri þá sœkja þeir nærmeir landi ok samna gleði svá sem eptir liðna sorg. En at fengnum hrognum ok at vaxanda vári þá gjóta þeir hrognum sínum ok leiða fram fjölda mikinn ungra fiska ok œxla svá ættir hverr í sínu kyni ok tígund. Er þat mikil ætlan skynlausrar skepnu at sjá svá vel við komanda stormi um vetrinn, at hon leiðir fram sitt afspringi til þess at öndverðu vári, at þat megi njóta kyrrar veðráttu um sumarit ok leita sér matar í góðum friði hjá víðum ströndum ok styrkjast svá af sumrinu, at hafa yfrit afl at komanda vetri til þess at hirða sik í köldum djúpum milli annarra fiska. Þessarri sættargerð fagnar jamvel loptit sem lögrinn; þvíat á vaxanda vári sœkja fuglar háleik lopts með fögrum söngum, ok fagna nýgörvi sætt milli þessarra höfðingja svá sem komandi hátíð, ok gleðjast þá svá mjök, sem þeir hafi fengit forðazt mikinn háska ok váðvænligan í höfðingja deildi; því næst göra þeir sér hreiðr á jörðu ok leiða þar or unga fugla, hvert eptir sinni kynfylgju, ok œxla svá ættir sínar ok nœra um sumarit, at þeir megi sjálfir leita sér atvinnu um vetrinn eptir. Jörðin sjálf fagnar þessarri sættargerð, þvíat þá er sól tekr út at steypa ylsamligum geislum yfir andlit jarðar, þá tekr jörð at þíða frosnar grasrœtr, en því næst leiðir hon fram ilmandi grös með fagrligum lit ok sýnir hon sik fagra ok gleðjast hátíðliga með nýtekinni fegrð grœns skrúðs, ok býðr hon þó glaðliga nœring öllum afspring sínum, þeim er hon synjaði áðr sakar vetrligrar auðnar. Tré þau er stóðu með frosnum rótum ok drjúpandi kvistum, þá leiða þau nú fram af sér grasgrœnt lauf ok gleðjast svá eptir liðna sorg vetrligar nauðar. Úhrein skepna ok leiðendi sýna mannvit sitt ok skilning í því, at þau kunnu at skipta hœfiligum tíma til aukningar sinnar ættar ok útgöngu or fylsnum; svá gæta þau þess tíma, nær þau þurfu at flýja kulda ok stormsamligar vetrar nauðir ok hirða sik svá undir steinum eða í stórum hellum eða í djúpum jarðföllum til þeirrar stundar, er þau hafa tíma til framgöngu. Villidýr þau er fœðast í fjöllum eða skógum þá kunnu þau vel at skipta öllum tíma, þvíat þau ganga með getnum burð meðan vetr er kaldastr, til þess at þau megi sinn getnað fram leiða at nýkomnum grösum ok vörmu sumri. Einn lítill maðkr er maurr heitir, hann má kenna vitrum mönnum mikla hagspeki, hvárt sem heldr er kaupmaðr eða bóndi, ok jamvel konungum sem smærrum mönnum; hann kennir konungum nær þeir skulu borgir göra eða kastala, hann kennir ok bónda ok kaupmanni með sama hætti, hversu ákafliga eða hvern tíma þeir skulu sína sýslu frammi hafa, þvíat sá er rétta skilning hefir, ok hyggr hann vandliga í t

hans athæfi, þá má hann mikit merka ok draga sér til nytsemdar. Öll önnur kvikendi, hvárt sem eru hrein eða úhrein, þá fagna þessum tíma ok leita svá sinnar nœringar á vörmu sumri með allri viðsýn, at þau megi öruggliga standast allan háska vetrligrar nauðar. Nú veldr þessi sáttmála samtenging milli þessarra átta tinda allri blíðu lopts eða lands eða sjóar hrœring með boðorði ok leyniligum smiðvélum þess, er fyrir öndverðu skipaði, at svá skyldi jafnan síðan standa, til þess er hann býðr at brigð skyli á gerast.

Guðlig hœn. Ek (Spekin) em getin af hjarta Guðs ok gékk ek fram af munni hins hæsta, ok skipaða ek öllum hlutum. En Guðs andi fluttist yfir tómt undirdjúp, ok skildum vér ljós frá myrkrum ok skipuðum stundir ok tíma, daga ok nætr, vetr ok sumar, ok timbruðum vér himna konungi stirnt hásæti, ok ekki gerði Guð án mína hagspakliga atvist; því at vér vágum saman léttleik lopts ok höfga jarðar ok hengðum þungan jarðar-böll í léttu lopti, ok styrktum festiband himins með öflgum knöptum. Buðum vér skínandi sólu at skrýða alt dags ljós með björtum geislum, en brigðiligu tungli buðum vér at lýsa náttlig myrkr meðr bleikum skíma. Vér gerðum fagrskapaðan mann eptir várri líkneskju, ok skrýddi Guð andlit jarðar með margskyns ávexti trjá ok grasa, ok leiddi hann fram loptligt skrúð meðr margföldu kyni fugla ok fal hann fjölda fiska með mörgum kynjum í djúpum vatna, ok bauð hann fjórfœttum kykvendum at margfaldast á jörðu með margskonar kynkvíslum, ok hann umgyrði alla kringlu jarðar meðr þjótanda hafi ok söltum straumum, ok bauð hann djörfum vötnum fram at fljóta af andliti jarðar með bröttum forsum, ok skipaði Guð grundvöllu jarðar með tilsogligum æðrum, at fljótandi vötn mætti fremja náttúrliga boðit embætti, ok bauð hann léttu jarðar dupti at bera þung vötn yfir háleik lopts með teygjanda hita, ok hann bauð vindbrotnum skýjum upp at spýja svölum regnelum yfir andlit jarðar. En skapari allra hluta bauð mér at skynja allan hagleik guðleiks smíðis, ok steig ek harðliga yfir hvirfil fjalla meðr þrýstanda fœti, en gékk léttliga um slétta dali ok flata völlu; gékk ek harðliga yfir brattar bárur meðr þungu ástigi, ok mælda ek víðáttu sléttra hafa meðr linligum fetum. Þrýsta ek stríðliga stirðum leggjum, þá er ek gékk yfir fjaðrar stormsamra vinda. Mælta ek blíðliga, þá er ek lærða hegjanda logn til sœtrar snildar. Lagða ek vegu mína um háleik himins ok víðáttu lopts, kannaða ok bjúgan hring úkyrrs hafs, ok mælda ek með fetum allan böll kúfóttrar jarðar, fór ok um fjöll ok um ása, um heiðar ok völlu ok sétta dali, ok gaf ek hunangligar daggir öllum frævandi grösum. Gékk ek um

þorna ok hrís ok allskyns skóga, ok gaf ek sætan blómstr aldinberanda viði. En ek setta landtjald mitt í skuggalausum geisla, ok gékk ek fram af fögri herbergi sem skrýddr brúðgumi; ek var glaðr sem sterkr risi fagnandi rásarskeiði. En dauðligir flærðguðar öfunduðu mik ok gerðu mik sekjan ok dœmdu mik til dauða, ok steig ek reiðr niðr til hinna neðstu dala, ok braut ek borgir hermanna í reiði minni; gnéra ek í sundr þrekliga öll málmhlið sterkra borga, braut ek sterka járnstólpa ok digrar járnslár, tók ek gull ok gersimar herfengnar með gimsteinum, fór ek fagnandi til hinna hæstu bygða með hrósanda sigri ok miklu herfangi; fór ek um þorp ok um tún ok heraðs bygðir, ok bauð ek fátœkum miðlan míns auðar. Býð ek plógkörlum frævanda korn ok félagsgerðir, hugga ek harmanda, gef ek móðum hvíld, skenki ek þyrstanda, fœði ek hungranda. Sæll er sá er drekkr af mínu borðkeri, þvíat minn drykkr hefir úþrotligan sœtleik. Fer ek um borgir ok bœi ok kaupstaði, renn ek um garða, um torg ok um stræti, kalla ek með blíðu ok með skírri raust, býð ek snæðing ok samsæti ok flærðlausa skemtan. Sæll er sá er gengr til míns snæðings, þvíat mín fœzla þefjar betr hverjum ilm; hunangi sœtari er minn drykkr ok skírri hverju víni; at mínu borði má heyra þjótandi strengleika með sœtum ok fögrum tóna; þar er kveðskapr ok fáheyrðir söngvar, þar er skemtan ok gleði ok flærðlauss fagnaðr án alla sorg. Sæll er sá er búa skal í mínu herbergi, þvíat í mínu herbergi eru sjau höfuðstólpar, þeir er saman tengja alt hvalf með góðri þekju ok sjálft gólf með óþrotligum grundvöllum ok remma þrekliga alla veggi með sterku afli; í hverjum stólpa þessarra má finna sjau höfuðvélir allskyns hagleiks; ok mitt herbergi er stráð ilmandi grösum ok ágætum urtum, þat er tjaldat með fegrð ok prýði ok allri sælu. Ek em gamansamr félagi millim lítillátra, en styrkr ok drambsamr móti drambsömum. Ek em höfuðmeistari í hverjum skóla, ok hin hæsta snilð á hverju þingi. Ek em vitrastr millim allra lögmanna ok yfirdómari í öllum dómsætum. Sæll er sá er funninn verðr flærðlauss félagi við mik, þvíat ek frelsi minn félaga af öllum háskum, ok fylgi ek hánum eilífliga. Sá er sæll er enga skömm hlýtr af mér, þvíat reiði mín kveykir eld í œði sinni, sá brennir til hinna neztu grundvalla. Hann mun svelgja jörð með ávöxtum sínum ok brenna grundvöllu allra fjalla. Hvar felr sá sik, er flýja vill mik? Andi Guðs fyllir alla heimskringlu ok rannsakar skilning ok skýring hverrar raddar.

# 16. Homilier.

## Om Ydmyghed.

Auðveldliga kennisk í orðum dróttins, hve mikill sé kraptr saðr lítillætis, þvíat hann fyrirdœmdi ofmetnað með Gyðingjum ok mælti: hverr er sik hefr upp hann man lægjask; lítillætis fótum skal upp stíga til himins hæðar, þvíat hár Guð kennisk eigi í ofmetnaði, heldr í lítillæti. Guð stendr ígegn dramblátum, en gefr miskunn lítillátum; hár Guð lítr lága hluti, kvað David, en háfa kennir hann um langan veg; lítr hann lága hluti, at upp hefi hann, en háfa (þat er dramblátir menn) kennir hann, at hann lægi þá. Nemum vér lítillæti fyrir því at vér megim nálgask til Guðs, sem hann mælti sjálfr í guðspjalli: nemi þér at mér, þvíat ek em lítillátr ok mjúklundr í hjarta, ok þá munu þér finna hvíld í sálum yðrum. Fyrir ofmetnað féll niðr göfug skepna af himni, þat váru englar, en fyrir lítillæti Guðs steig upp til himins ústyrkt mannkynit. Göfug venja er lítillæti á meðal manna, svá sem Salomon mælti: þar sem verðr ofmetnaðr, þar er ok meinmæli, en þar er lítillæti er, þar er ok speki. Enn mælti annarr spekingr forðum: því meiri sem þú est, þá læg þú þik í öllu, þá mantu finna miskunn fyrir Guði. Enn mælti Guð með spámanns máli: til hvers mun ek líta nema til lítilláts ok hugværs, ok þess er uggir orð mín. Hverr er eigi verðr lítillætr ok hugværr, þá má eigi miskunn heilags anda byggva með þeim. Guð gerðisk lítillátr fyrir sakar heilsu várrar. Skammisk maðr at vera dramblátr; því meir sem maðr hneigisk til lægðar í lítilláti, því meira stoðar honum þat til hæðar; en sá er lítillátr verðr, hann man upp hefjask í dýrð. Hinn fyrsti pallr lítillætis er at heyra lítillátliga sannleiks mál ok halda minniliga ok algera viljandi; þvíat hit sanna flýr þann hug, er eigi finnsk lítillátr; því lægri sem hverr verðr af sjálfum sér, því meiri er hann í augliti Guðs; en dramblátr maðr því dýrligri sem hann sýnisk með mönnum, því herfiligri verðr hann fyrir Guði. En sá er gerir góð verk fyrir útan lítillæti, hann berr mold í vindi; hvat drambar jörð ok aska, þvíat dreifisk af vindi ofmetnaðar þat er sýnisk saman samnat í föstum ok í ölmusugœði. Hirð eigi þú, maðr, at dýrkask í krapti þínum, þvíat þú skalt annan hafa dómara, en eigi sjálfan þik. Í þess augliti læg þú sjálfan þik í hjarta þínu, at hann hefi þik upp á tíð ömbunar þinnar. Stíg niðr þú, at upp stígir þú; lægstu, at upp hefistu, at eigi lægistu þá er þú hyggr upp at hefjask; þvíat sá er herviligr er með sér, fagr er sá með Guði, ok sá er sér mislíkar, hann líkar Guði. Ver þú lítill fyrir augum þínum, at þú sér mikill fyrir augum Guðs; en því dýrligri verðr þú fyrir Guði, sem þú est úítarligri fyrir augum þínum. Í hæstum veg þínum sé þér hit hæsta lítillæti; vex lof ef er kraptr lítillætis.

## Om Kristi Korsets Optagelse.

Eptir pínsl dróttins várs Jesu Krists, þá er kristnir menn tóku at göfga pínsl hans, þá fálu Gyðingar kross hans í jörðu, ok náðu eigi kristnir menn at vita né göfga stað pínslar hans fyrir heiðnum mönnum. En síðan er Constantínus konungr hafði trú rétta tekna ok Helena móðir hans, þá fór hon til Jórsalaborgar ok samnaði saman mörgu Gyðinga liði ok spurði þá, hvar fólginn væri kross dróttins; en engi þeirra vildi segja. Þá bauð Helena at brenna þá alla kvikva í eldi; en Gyðingar hræddusk ok seldu fram vísan mann þann, er Judas hét, ok kváðu hann vita myndu þat, er hon vildi spyrja. En er Helena spurði hann, hvar fólginn væri kross dróttins, ok hann lézk eigi vita, þá lét Helena taka Judam ok setja í gröf, ok var hann þar fœzlulauss sjau daga. Síðan kallaði hann or gröfinni ok mælti: leiði þér mik út, ok mun ek sýna yðr kross Jesu Krists. Þá gerði landskjálfta mikinn. En er Judas gróf í jörð, þar sem jarðskjálftinn hófsk, þá fann hann þrjá krossa í jörðu, ok bar þá í Jórsalaborg ok fœrði dróttningu. En er hon vissi eigi á hverjum krossi dróttinn hafði píndr verit, þá var dauðr maðr nökkurr borinn til grafar at nóni dags, en er Judas lagði kross dróttins yfir hinn dauða, þá reis hann upp lifandi, ok tóku margir heilsu af krossinum, er áðr váru sjúkir, ok flýðu djöflar frá óðum mönnum ok létusk týnt hafa sigri sínum fyrir kross dróttins. Þá lét Helena kljúfa krossinn í miðju ok senda annan hlut Constantino syni sínum til Miklagarðs, en annan hlut lét hon eptir vera í Jórsalaborg. En Judas tók trú ok var síðan tekinn til biskups í Jórsalaborg, ok gat hann jarteinir margar af Guði, ok var hann kallaðr öðru nafni Qviriacus, ok bauð öllum lýð at halda helgan hvert vár þann dag, er krossinn var fundinn. Nú er oss af því nauðsyn at skilja vandliga jartein pínslarmarks hans, er tákn er heilsu várrar ok lausnar. Kross var dauðamark illra manna áðr Kristr væri píndr á honum, en síðan varð hann lífsmark góðra manna. Fyrir pínsl Krists var mönnum krossinn andstyggr ok leiðr, en nú er hann göfgaðr af englum ok vegsamaðr af mönnum, en leiðr djöflum, þvíat þá steig Kristr yfir djöfulinn ok leysti alt mannkyn or ánauð, er hann dó á krossinum, ok bœtti hann þat á pínslartré, er hinn fyrsti maðr misgerði á girndartré. Af því var dróttinn í miðjum heimi píndr, þar er jamlangt er til allra heimsenda, at jamnær er öllum miskunn pínslar hans, þeim er hann göfga með trú ok góðum verkum. Þessa lausn alls mannkyns merkir krossinn í vexti sínum, þvíat fjórir endar hans horfa í fjórar ættir heims, þá er hann er niðrlagðr. Sedulius skáld segir svá frá pínsl hans: höfuð Jesu horfði austr, en fœtr vestr, en hinn hœgri hönd norðr, en suðr hin vinstri; en hann var píndr fyrir norðan Jórsalaborg.

Höfuð Krists merkir guðdóm hans, en fœtr manndóm, þvíat höfuð horfir upp til himins, en fœtr niðr til jarðar, svá sem guðdómr kom af himni ok tók manndóm á jörðu. Austr merkir upprisu hans, en vestr dauða hans, þvíat sól rennr upp í austri ok sezk í vestri. Höfuð Krists horfði austr en fœtr vestr, þvíat manndómr hans tók dauða, en guðdómr efldi hann til upprisu. Hin vinstri hönd hans horfði suðr, en norðr hin hœgri, þvíat Jórsala lýðr ok Gyðingar gerðusk vinstri handar menn: þat eru rekningar fyrir útrú sína; en hann valdi eptir písl sína hœgri handar menn sér af heiðnum mönnum or norðri. En þá er krossinn er uppreistr, þá stendr hann sumr fastr í jörðu, en sumr í lopti; þvíat Kristr samtengði himneska hluti ok jarðliga, þá er hann setti jarðliga menn við sik ok engla sína. Rétti hann frá sér báðar hendr á krossinum, þvíat hann býðr faðm miskunnar sinnar öllum þeim, er hann elska; ena hœgri hönd rétti hann, þvíat hann leysti alla sína vini or helvíti ok laðaði þá til eilífrar dýrðar; ena vinstri hönd rétti hann, þvíat hann kallar marga úverða til sinnar miskunnar ok hreinsar þá af synda sauri fyr iðran. Sá hlutr krossins, er upp var frá höfði dróttins, merkir ván þá, er vér skulum vætta upp frá oss til himna ömbunar fyrir alt gott, þat er vér gerum; en armar krossins merkja tvinna ást við guð ok menn. Sá hlutr krossins er hæstr er, merkir ena Guðs ást, en armarnir náungs elsku bæði við vini ok úvini. Fœtr eru endir líkams, því jarteinir sá hlutr krossins, er fœtr hans váru á negldir, staðfesti góðra verka alt til enda lífs. En sá hlutr er í jörðu var, svá at eigi matti sjá, en þó hélt þat upp öllum höfga krossins, þat jarteinir trú, úsýniliga Guðs mátt ok leyndra hluta; þvíat svá sem þat hélt upp öllum krossi er í jörðu var ok eigi mátti sjá, svá stýrir ok úsýniligr Guðs máttr öllum sýniligum hlutum. En hvat stoðar oss at skýra jarteinir krossins í orðum, ef þó fyrlítum vér þær í verkum, þvíat svá mælti dróttinn í guðspjalli: eigi er sá mér makligr, er eigi tekr krossinn ok fylgir mér. Sá tekr kross ok fylgir Kristi, er hans spergüngumaðr gerisk í meinlætum, sem helgir menn gerðu. Á tvá vega megum vér bera kross dróttins, annan á líkam, en annan í hugskoti. Þá berum vér píslarmark Guðs á líkam, ef vér meiðum hold várt í meinlætum, ok hirtum oss frá syndum sem Páll postoli gerði: Hirta ek líkam minn, kvað hann, ok leidda ek hann í ánauð, at eigi verða ek vándr, þá er ek kenni öðrum gott. Þá berum vér kross í hugskoti, ef hjarta várt harmar annars mein eða syndir, sem enn mælti Paulus: hverr er svá sjúkr, kvað hann, eða svá viltr, at eigi kenna ek hvers meina mér í brjósti. Því er oss kross dróttins öllum helgum dómum helgari, at af honum helgask öll kristnin ok öll sú þjonosta, er gipt ens helga anda fylgir. Ekki má vígja án krossi, ok engi má kristinn vera án krossi, svá sem engi mátti til himinríkis koma án písl

Krists. Þá er vér gerum krossmark yfir oss sjálfum eða yfir því, er vér viljum helgask láta af krossinum, þá skulum vér minnask, hvaðan hann helgaðisk, eða hvat hann merkir, eða hversu mikit hann má. Fyrir krossi Guðs flýja djöflar; hræðisk helvíti, dauði firrisk, syndir fordask, skammask úvinir, friðr magnask, en ást þróask ok allir góðir hlutir. Heilagr kross er sigrmark Guðs ok lausnarmark manna, ok fagnaðarmark engla, helgaðr af Guði, dýrkaðr af englum, göfgaðr af mönnum, ok vegsamaðr af allri skepnu. Heilagr kross er hlífskjöldr í meinum ok hjálp í farsæligum hlutum, huggun í harmi ok hugbót í fagnaði, líf í háska, en lækning í sóttum, lausn í höptum, en leiðrétting frá syndum, sigr í orrostum ok efling við allri freistni, styrkr fátækra, en stjórn auðigra, frjóvr góðra, en ógn vándum.

## Paa St. Olafs Dag.

Norðarla liggr land þat í heims bygð, er Noregr heitir. Þat var bygt til skammrar stundar miklum ok margskonar úsið; fylgði fólk þat fjándans villu ok trúðu fáir á Guðs miskunn, fyrir því at fjándinn hafði kafða þá í útrá mikilli ok undir sik lagt með ofmetnaðar ríki, svá sem hinn helgi Ysajas, spámaðr Guðs, hermir hælhiorð andskota ok segir oss: Ek man setja hásæti mitt yfir öll himintungl, ok man ek sitja á vitnisfjalli Guðs ok ráða norðri ok líkjask hinum ágæzta Guði. En hinn helgi Guð ok sá lofsæll dróttinn, er timbrar hina helgu borg ok efir af syndugum ok armsköpuðum mönnum, hann þíddi þann mikla þela or brjósti þeim með mikilleik hins helgasta, ok eldi hug harðhugaðra manna með ástarhita hinnar helgu trú. Nú sendi várr dróttinn til þeirra trúfasta menn at snúa þeim frá heiðnum blótum, hét þeim öllum er á Guð trúði endalausu lífi ok æ veranda fagnaði, en þeir ógnuðu illgjörnum ok údáðamönnum dómadags hræzlu ok Guðs dómi ok helvítis píslum. En þá réð fyrir Noregi hinn helgi Olafr konungr; hann var mikill Guðs dýrlingr, mildr at gjöfum ok miskunnsamr, umsýslu um alla hluti, þá er til gæzku horfði. Í Noregi var hann fæddr ok þaðan var hann æzkaðr, en á Englandi tók hann á Guð at trúa, en í borg þeirri er Rœm heitir, þar lét hann kristna sik. Nú þegar hann var þveginn hinni helgu skírn, þá gerðisk hann allr annarr maðr, ok svá sem hinn helgi Páll postoli segir, hann drap ok deyddi úkynni sín fyrir Guðs sakar, ok hafnaði heimi þeima ok líkams girnd, ok gerðisk fyrirgangsmaðr um trúfylgju; ljótt þótti honum veraldar glys, ok lítils virði hann móti Guðs ástum þessa heims dýrð; hann sýndi sik lítillátan í konungsdómi sínum ok í margfaldri áhyggju, er hann hafði. Hugleiddi hann jafnan um alt himneska dýrð; hann firði sik hvívitna því, er Guðs lög banna, en þat vann hann með miklum ástarhita, er þau bjóða, ok eigi vildi

hann sér einum í því bjarga, alt þat fólk, er Guð hafði honum á hendi fólgit, vildi hann gjarna með mikilli andvöku til Guðs leiða, ok var hann, sem fátítt er, bæði konungr þeirra at landráðum, ok fyldi postolanna iðn með helgum áminningum. Mörgum kom hann or fjándans höndum með fortölu sinni, ok leiddi til handa almátkum Guði. Svá mikla spekt ok orðgnótt hafði várr dróttinn lét hinum helga Olafi konungi, at við orð hans ok fortölu ok meðfør þá dýrligu, er hann hafði, iðruðusk margir menn sinna synda ok höfnuðu heiðnum dómi. Þá risu í móti honum margir illir menn ríkir ok illgjarnir með djöfuls áeggjan, géngu móti Guðs boðorðum af öllu afli ok svívirðu hans helgu læring. En þat bar hinn helgi Olafr konungr þolinmóðliga; alt fyrir Guðs sakar, ok var þá miklu staðfastari gott at kenna hverjum manni en fyrr hafði hann verit, ok vildi heldr líf sitt láta ok ríki með fyrir Guðs sakar ok öðlask svá endalausan fagnað, en liggja undir fjándans villu ok dofa í heiðnum dómi. Mikinn flokk ok góðan á lítilli stundu dró hinn helgi Olafr konungr til miskunnar við Guð ok alla helgu menn. Þá braut hann ok brendi heiðin hof ok reisti kirkjur í stað, ok skipaði til prestum ok kennimönnum at vinna þeim kristni ok alla þjenostu. Síðan snérisk fólk alt til ástar við Guð með mikilli iðran, níttu þá heiðni ok allskonar villu. Engi maðr fær þat öðrum sagt, hversu mikill fagnaðr fylgði þeim góða manni ok var á því, er hann sá Noregsmenn venda frá heiðni ok andskotans villu ok ganga til miskunnar almáttigs skapara. Hann bað þá ok taldi fyrir þeim árla ok sílla Guðs pínslir ok heilagra manna ferðir, réð þeim ástráð, lokkaði gamla menn ok unga, ávítaði þrjózkumenn ok harðhugaða, gaf sér mikinn kost til at koma þeim öllum í vingan við Guð. Nú eptir þat þá setti hann lög manna á millum, þau er yfir alt land hafa síðan haldin verit, at ríkir menn ræni eigi hina er fátœkri eru, heldr ráði hverr sínu sem rétt er, ok uni því er Guð hefir lét honum. Þat setti hann í lögum sínum, hvat lærðir menn eigu at veita úlærðum mönnum af Guðs hendi, birtir hann ok því, hverjar þakkir ok vegsemd þeir skulu af þeim fyrir hafa; stillir hann ok konunga ok konungsmenn, lastar ofdramb þeirra ok ofmikinn yfirgang, ok leggr við sektir, ef þeir ganga yfir hit sanna. Þar má finna, ef leita vill, í lögum þeim, hversu trúr hann var á Guð, hversu tryggr ok heilráðugr öllu landsfólkinu, hversu miskunsamr ok aumhjartaðr hann var við alla vesla menn. Þat fær engi maðr öðrum sagt, hversu mikit sá hinn helgi maðr bœtti fyrir mönnum, meðan hann réð fyrir landi ok lögum; en því meiri gœzku er hann téði þeim af sinni hendi, því öllu verri ok útryggri váru þeir honum. Þá géngu í móti honum villumenn ok illskufullir með andskotans afli ok miklum flokki, ok stökk hann þá undan því eli austr í Garða, ok vildi eigi at því sinni illu skipta við landsmenn sína. Væni engi maðr

Olaf hinn helga því or landi farit hafa, at hann þorði eigi við vánda menn ok illgjarna vápnum at skipta, heldr skal hit til virða, er miklu er sannara at hann vildi kristni sinni í þyrma ok lífi þeirra, er honum fylgðu kristni at fremja ok til landvarnar. Nú fór hann á hendr konungi nökkurum í Garða austr, er Jarizlavus hét, ok var með honum marga daga í mikilli sœmd; frægr varð hann þar öllu fólki af trú sinni, ást ok gœzku, er hann hafði bæði við Guð ok við alla menn. En eptir þat þá vendi hann aptr til lands ok til ríkis síns hit eystra um Svíþjóð, sagði honum ok svá hugr um sjálfum, at Guð myndi vilja kalla hann skjótla til meira metnaðar ok ríkis, ok bjó hann sik þá til hólmgöngu sem hraustr riðari. Nú brynjaði hann sik fyrst með heilagri trú, en með trausti Guðs þá hlífði hann sér, gyrði því sverði, er Guðs orð heitir, snarpeggjuðu ok sárbeittu, taldi fyrir hverjum manni heilög boðorð, búinn at láta líf sitt fyrir Guðs sakar ok heita ok vera frumváttr í Noregi hins hæsta konungs. En þegar er fjándr hans ok óvinir frágu þat, at hann var í land aptr kominn ok í ríki sitt, þá sömnuðusk þeir allir saman í móti honum ok vildu með svik hann af lífi taka. En foringi fyrir því liði var nefndr Kálfr Arnasonr, maðr kynstórr, illr ok ótrúr sem allir verða dróttins svikarar. Sá hinn illi maðr var í svikum við hann, ok kom í móti honum með miklum flokki, ok vann hann þat níðingsverk á sínum lánardróttni, er hann var fámennastr fyrir staddr. En einni nótt fyrir, áðr en þeir berðisk eptir um dáginn, þá sýndisk honum várr dróttinn í svefni, ok setti til hans stiga svá hafan, at til himna tók, ok mælti svá við hann: Minn góði vinr, kom til mín brátt ok til samneytis heilagra manna, ok skal nú gera þér fyrir starf ok erfiði þitt dýrliga kórónu, líf endalaust, fagnað ok gleði himneska. Síðan eptir er hann vaknaði, þá sagði hann þá fögru sýn sínum ástvinum, ok þakkaði Guði almáttkum háleitliga dýrligt heimboð. En um morgin eptir þá fylkti hann liði sínu í Veradals heraði þar sem Stiklastaðir heitir, ok barðisk hann þar mikinn hluta dags við þá illu menn, sína óvini ok Guðs andskota. Þá varð hann skotinn í kné um síðir ok á kinn höggvinn áðr en hann félli, ok lét hann líf sitt þegar samdœgris; en þá var miðvikudagr, ok þat niund árs er nú halda allir kristnir menn hátíð hans síðan, er vér köllum Olafs messu hina fyrri. En frá því er Guð lét berask í heim þenna ok til píslardags hins helga Olafs konungs, þá er svá athugt, at vera mynu tíu hundruð vetra ok fjóra vetr ok tuttugu. Nú er yðr kunt gört, hverja písl hinn helgi Olafr konungr þoldi fyrir Guðs sakar í þeima heimi.

Eptir písl ok andlát hins helga Olafs konungs, þá var líkamr hans tekinn þegar ok fluttr til húss nökkurs, ok þvógu hirðmenn hans sjálfs allvandliga ok varðveittu. Þá kom þar gangandi aumingi einn, sjónlauss maðr með öllu,

ok drap þar fótum fyrir durum úti ok skriðnaði, sem vatni því var niðrslegit, er sár hans ok líkamr var áðr í þveginn, ok vættisk hönd hans í því vatni; þá reistisk hann upp ok reið hann því um augu sér upp, en þegar jamskjótt þá léði Guð honum ljóss þess fagra, er hann hafði áðr lengi þarnazk. All undarligt þótti honum sjálfum ok svá fleirum mönnum, þeim er við váru, um miskunn þá mikilu, er Guð léði honum fyrir verðleiks ok dýrðar sakar hins helga Ólafs konungs, ok þökkuðu þat allir Guði háleitliga, sem verðugt var, ok hinum helga Ólafi konungi.

## Om Barmhjertighed.

Miskunn er hin œzta góðgerning, svá sem sjálfr Guð várr mælti: sælir eru miskunsamir, þvíat þeir munu fá miskunn. Eigi má syndugr maðr vætta miskunnar af Guði, sá er eigi gerir miskunn við þá er misgera við hann; af því fyrirgefi maðr stundliga skuld, at hann öðlisk at taka eilíft gott. Nítum vér eigi miskunn misgerandum við oss, at vér bjargimsk í miskunnar verkum ok takim miskunn af Guði á degi ambanar. Hversu má sá miskunnar vætta af Guði, er eigi er miskunsamr við annan. Svá sem hverr vill Guð láta sér miskunna, svá miskunni hann skuldurum sínum. Hit vesta má maðr vætta líknar sér, sá er öðrum vill líkna. Hit bazta styrkti várr dróttinn oss til miskunnar verks, þá er hann mælti þetta í Guðspjalli: Veri þér miskunsamir svá sem faðir yðarr himneskr er miskunsamr, sá er sól lætr skína yfir góða ok illa, ok svá regnir yfir rangláta sem yfir réttláta. Öll miskunn gerir stað hverjum sem einum eptir verðleik verka sinna. Sá er gerir miskunn, hann fœrir dýrt þekkja fórn Guði. Í dœmanda skal vera miskunn ok hegning, þvíat hvárgi má vera vel án annarri; ef miskunn er ein saman, þá gerir hon efling syndar misgerendum, en ef hegning er ein saman þá snýsk hugr misgeranda í örvílnan, en dœmandinn fær eigi miskunn af Guði. En þá miskunn skal maðr upphefja af sjálfum sér; hversu má sá maðr miskunsamr vera við aðra menn, er grimmr er við sjálfan sik? Sá er grimmr við sjálfan sik, er fyrir sér býr eilífan loga í syndum sínum. Vel er sá miskunsamr er upphefr góð verk af sjálfum sér ok varðveitir sik vandliga, at eigi verði hann píndr með djöflum, ok veiti hann þat síðan öðrum er hann skilr sér vera gott.

---

## 17. Hamarsheimt.

(Af den ældre Edda).

Reiðr var þá Vingþórr,
er hann vaknaði,
ok síns hamars
um saknaði;
skegg nam at hrista,
skör nam at dýja,
réð jarðar burr
um at þreifask.

Ok hann þat orða
alls fyrst um kvað:
„Heyrðu nú, Loki!
hvat ek nú mæli,
er eigi veit
jarðar hvergi
né upphimins:
áss er stolinn hamri!“

Gengu þeir fagra
Freyju túna,
ok hann þat orða
alls fyrst um kvað:
„Mantu mér, Freyja!
fjaðrhams ljá,
ef ek minn hamar
mættak hitta?“

Freyja.

Þó munda ek gefa þér,
þótt or gulli væri,
ok þó selja
at væri or silfri!“

Fló þá Loki,
fjaðrhamr dundi,
unz fyr útan kom
ása garða,
ok fyr innan kom
jötna heima.

Þrymr sat á haugi,
þursa dróttinn,
greyjum sínum
gullbönd snéri,
ok mönum sínum
mön jafnaði.

Þrymr.

Hvat er með ásum?
hvat er með álfum?
hví ertu einn kominn
í jötunheima?

Loki.

Ilt er með ásum!
ilt er með álfum!
hefir þú Hlórriða
hamar um fólginn?

Þrymr.

Ek hefi Hlórriða
hamar um fólginn
átta röstum
fyr jörð neðan;
hann engi maðr
aptr um heimtir,
nema færi mér
Freyju at kvæn!

Fló þá Loki,
fjaðrhamr dundi,
unz fyr útan kom
jötna heima,
ok fyr innan kom
ása garða;
mætti hann Þór
miðra garða,
ok hann þat orða
alls fyrst um kvað:

„Hefir þú erendi
sem erfiði?
segðu á lopti

löng tíðindi,
opt sitjanda
sögur um fallask,
ok liggjandi
lygi um bellir!«

Loki.

Hefi ek erfiði
ok örindi;
þrymr hefir þinn hamar,
þursa dróttinn;
hann engi maðr
aptr um heimtir,
nema hánum fœri
Freyju at kván.

Ganga þeir fagra
Freyju at hitta,
ok hann þat orða
alls fyrst um kvað:
„Bittu þik, Freyja!
brúðar líni,
við skolum aka tvau
í jötunheima.«

Reið varð þá Freyja
ok fnasaði,
allr ása salr
undir bifðisk,
stökk þat it mikla
men brísinga:
„Mik veiztu verða
vergjarnasta,
ef ek ek með þér
í jötunheima!«

Senn váru æsir
allir á þingi,
ok ásynjur
allar á máli,
ok um þat réðu
ríkir tífar,

hve þeir Hlórriða
hamar um sœtti.

þá kvað þat Heimdallr
hvítastr ása:
- vissi hann vel fram
sem vanir aðrir -
„Bindu vér þór þá
brúðar líni,
hafi hann it mikla
men brísinga!

Látum und hánum
hrynja lukla,
ok kvenváðir
um kné falla,
en á brjósti
breiða steina,
ok hagliga
um höfuð typpum.«

þá kvað þat þórr,
þrúðugr áss:
„Mik munu æsir
argan kalla,
ef ek bindask læt
brúðar lín«.

þat kvað þat Loki,
Laufeyjar sonr:
„þegi þú, þórr!
þeirra orða;
þegar munu jötnar
ásgarð búa,
nema þú þinn hamar
þér um heimtir.«

Bundu þeir þór þá
brúðar líni
ok enu mikla
meni brísinga,
létu und hánum
hrynja lukla,
ok kvenváðir

um kné falla,
en á brjósti
breiða steina,
ok hagliga
um höfuð typtu.

Þá kvað Loki,
Laufeyjar sonr:
„Mun ek ok með þér
ambátt vera,
vit skolum aka tvau
í jötunheima.“

Senn váru hafrar
heim um reknir,
skyndir at sköklum,
skyldu vel renna;
björg brotnuðu,
brann jörð loga,
ók Óðins son
í jötunheima.

Þá kvað þat Þrymr,
þursa dróttinn:
„Standit upp, jötnar!
ok stráit bekki,
nú færit mér
Freyju at kván,
Njarðar dóttur
or Nóatúnum!

Ganga hér at garði
gullhyrndar kýr,
öxn alsvartir,
jötni at gamni;
fjöld á ek meiðma,
fjöld á ek menja,
einnar mér Freyju
ávant þikkir.“

Var þar at kveldi
um komit snimma,
ok fyr jötna
öl fram borit;
einn át oxa,
átta laxa,
krásir allar,
þær er konur skyldu,
drakk Sifjar verr
sáld þrjú mjaðar.

Þá kvað þat Þrymr,
þursa dróttinn:
„Hvar sáttu brúðir
bíta hvassara?
sáka ek brúðir
bíta en breiðara,
né inn meira mjöð
mey um drekka.“

Sat in alsnotra
ambátt fyrir,
er orð um fann
við jötuns máli:
„Át vætr Freyja
átta nóttum,
svá var hon óðfús
í jötunheima.“

Laut und línu,
lysti at kyssa;
en hann útan stökk
endlangan sal:
„Hví eru öndótt
augu Freyju?
þikki mér or augum
eldr of brenna!“

Sat in alsnotra
ambátt fyrir,
er orð um fann
við jötuns máli:
„Svaf vætr Freyja
átta nóttum,
svá var hon óðfús
í jötunheima.“

Inn kom in arma
jötna systir,
hin er brúðfjár
biðja þorði:
„Láttu þér af höndum
hringa rauða,
ef þú öðlask vill
ástir mínar,
ástir mínar,
alla hylli.“

Þá kvað þat Þrymr,
þursa dróttinn:
„Berit inn hamar
brúði at vígja,
leggit Mjöllni
í meyjar kné,
vígit okkr saman
Várar hendi!“

Hló Hlórriða
hugr í brjósti,
er harðhugaðr
hamar um þekti;
Þrym drap hann fyrstan,
þursa dróttin,
ok ætt jötuns
alla lamdi.

Drap hann ina öldnu
jötna systur,
hin er brúðfjár
of beðit hafði;
hon skell um hlaut
fyr skillinga,
en högg hamars
fyr hringa fjöld.
Svá kom Óðins sonr
endr at hamri.

## 18. Brudstykker af Helgakvida.

(Af den ældre Edda).

Helgi fékk Sigrúnar ok áttu þau sonu; var Helgi eigi gamall. Dagr Högnason blótaði Óðin til föðurhefndar; Óðinn léði Dag geirs síns. Dagr fann Helga mág sinn þar sem heitir at Fjöturlundi; hann lagði ígegnum Helga með geirnum; þar féll Helgi, en Dagr reið til Sevafjalla ok sagði Sigrúnu tíðindi:

„Trauðr em ek, systir!
trega þér at segja,
því at ek hefi nauðigr
nipti grætta:
féll í morgun
und Fjöturlundi
buðlungr sá er var
beztr í heimi,
ok hildingum
á hálsi stóð.“

„Þik skyli allir
eiðar bíta,
þeir er Helga
hafðir unna:
at enu ljósa
leiptrar vatni
ok at úrsvölum
unnar steini.

Skríðiat þat skip,
er und þér skríði,
þótt óskabyrr
eptir leggisk!
rennia sá marr,

er und þér renni,
þóttu fjándr þína
forðask eigir!
Bítia þér þat sverð,
er þú bregðir,
nema sjálfum þér
syngvi um höfði:
þá væri þér hefnt
Helga dauða,
ef þú værir vargr
á viðum úti,
auðs andvani
ok alls gamans,
hefðir eigi mat,
nema á hræum spryngir.«
Dagr kvað:
Œr ertu, systir!
ok örvita,
er þú brœðr þínum
biðr forskapa;
einn veldr Óðinn
öllu bölvi,
þvíat með sifjungum
sakrúnar bar.
Þér býðr bróðir
bauga rauða,
öll Vandilsvé
ok Vígdali;
haf þú hálfan heim
harms at gjöldum,
brúðr baugvarið!
ok burir þínir.«
»Sitka ek svá sæl
at Sevafjöllum
ár né um nætr,
at ek una lífi,
nema at liði lofðungs
ljóma bregði,
renni und vísa
Vígblær hinig
gullbitli vanr,
knega ek grami fagna.»
Svá hafði Helgi
hrædda görva
fjándr sína alla
ok frændr þeirra,
sem fyr úlfi
óðar rynni
geitr af fjalli
geiskafullar.
Svá bar Helgi
af hildingum
sem ítrskapaðr
askr af þyrni,
eða sá dýrkálfr
döggu slunginn,
er efri ferr
öllum dýrum,
ok horn glóa
við himin sjálfan.«

Haugr var görr eptir Helga; en er hann kom til Valhallar, þá bauð Óðinn hánum öllu at ráða með sér. Helgi kvað:

Þú skalt, Hundingr!
hverjum manni
fótlaug geta,
ok funa kynda,
hunda binda,
hesta gæta,
svínum soð gefa,
áðr sofa gangir.«

Ambátt Sigrúnar gékk um aptan hjá haugi Helga ok sá at Helgi reið til haugsins með marga menn. Ambátt kvað:

»Hvárt eru þat svik ein,
er ek sjá þikkjumk,

eða ragna rök?
ríða menn dauðir,
er jóa yðra
oddum keyrit,
eða er hildingum
heimför gefin?“
„Era þat svik ein
er þú sjá þikkisk,
né aldarrof,
þóttu oss lítir,
þótt vér jóa óra
oddum keyrim,
né er hildingum
heimför gefin.“
Heim gékk ambátt ok sagði Sigrúnu:
„Út gakk þú, Sigrún!
frá Sefafjöllum,
ef þik fólks jaðarr
finna lystir;
upp er haugr lokinn,
kominn er Helgi,
dólgspor dreyra;
döglingr bað þik,
at þú sárdropa
svefja skyldir.
Sigrún gékk í hauginn til Helga, ok kvað:
„Nú em ek svá fegin
fundi okkrum,
sem átfrekir
Óðins haukar,
er val vitu,
varmar bráðir,
eða dögglitir
dagsbrún sjá.
Fyrr vil ek kyssa
konung ólifðan,
en þú blóðugri
brynju kastir;
hár er þitt, Helgi!
hélu þrungit,
allr er vísi
valdögg sleginn,
hendr úrsvalar
Högna mági;
hve skal ek þér, buðlungr!
þess bót of vinna?“
„Ein veldr þú, Sigrún
frá Sefafjöllum!
er Helgi er
harmdögg sleginn;
grætr þú, gullvarið!
grimmum tárum,
sólbjört, suðræn!
áðr þú sofa gangir;
hvert féll blóðugt
á brjóst grami
úrsvalt, innfjálgt,
ekka þrungit.
Vel skolum drekka
dýrar veigar,
þótt mist hafim
munar ok landa;
skal engi maðr
angrljóð kveða,
þótt mér á brjósti
benjar líti.
Nú eru brúðir
byrgðar í haugi,
lofða dísir
hjá oss liðnum.“
Sigrún bjó sæing í hauginum:
„Hér hefi ek þér, Helgi!
hvílu görva
angrlausa mjök,
Ylfinga niðr!
vil ek þér í faðmi,

fylkir! sofna,
sem ek lofðungi
lifnum myndak.“
„Nú kveð ek enskis
örvænt vera
síð né snimma
at Sefafjöllum,
er þú á armi
úlifðum sefr,
hvít í haugi
Högna dóttir,
ok ertu kvik
in konungborna.
Mál er mér at ríða
roðnar brautir,
láta fölvan jó
flugstig troða;
skal ek fyr vestan
vindhjálms brúar,
áðr Salgofnir
sigrþjóð veki.“

Þeir Helgi riðu leið sína, en þær fóru heim til bœjar. Annan aptan lét Sigrún ambátt halda vörð á hauginum; en at dagsetri er Sigrún kom til haugsins, kvað hon:

„Kominn væri nú,
ef koma hygði,
Sigmundar burr
frá sölum Óðins;
kveð ek grams þinig
grœnask vánir,
er á asklimum
ernir sitja,
ok drífr drótt öll
draumþinga til.“
„Verðu eigi svá œr
at ein farir,
dís skjöldunga!
draughúsa til;
verða öflgari
allir á nóttum
dauðir dólgar, mær!
en um daga ljósa.“

Sigrún varð skammlíf af harmi ok trega. Þat var trúa í forneskju, at menn væri endrbornir, en þat er nú kölluð kerlinga villa. Helgi ok Sigrún er kallat at væri endrborin; hét hann þá Helgi Haddingjaskaði, en hon Kára Hálfdanardóttir. Svá sem kveðit er í Káruljóðum; ok var hon valkyrja.

## 19. Brudstykker af et gammelt Kvad om Harald Haarfagres Hof, forfattet af hans Hirdskalde.

(Af Fagrskinna).

1. Hlýði hringberendr
meðan ek frá Haraldi segi
odda íþróttir
inum afarauðga.
Frá málum mun ek segja,
þeim, er ek mey heyrða
hvíta, haddbjarta
er við hrafn rœddi.

2. Víg þóttisk valkyrja,
værar ne váru,
þekk er þó in fránleita
er fuglsrödd kunni;

kvaddi hin glögghvarma
ok hin kverkhvíta
Hýmis hausreyta,
er sat á horni bjarga.

3. „Hvat er yðr, hrafnar,
hvaðan erut þér komnir
með dreyrgu nefi
at degi öndverðum?
hold loðir yðr í klóm,
hræs þefr gengr or munni,
nær hygg ek yðr í nótt bjöggu
því er vissut nái liggja.“

4. Hreyfðisk hinn hausfjaðri,
ok um hyrnu þerði
arnar eiðbróðir,
ok at andsvörum hugði:
„Haraldi vér fylgðum
syni Hálfdanar,
ungum eðlingi,
síz or eggi kómum.“

5. „Kunna hugðak þik konungmundu
þanns á Kvinnum býr,
dróttin Norðmanna;
djúpum ræðr hann kjölum,
roðnum röndum,
rauðum skjöldum,
tjörgum árum,
tjöldum drifnum.“

6. „Úti vill jól drekka,
ef skal einn ráða,
fylkir hinn framlyndi,
ok Freys leik heyja.
Ungr leiddisk eldvelli
ok inni sitja,
varma dyngju
eða vöttu dúnsfulla.“

* * *

7. „Heyrðir þú í Hafrsfirði
hve hraustliga barðisk
konungr hinn kynstóri
við Kjötva hinn auðga?
knerrir kómu austan,
kapps of lystir,
með gínandum höfðum
ok grófnum tinglum.

8. Hlaðnir váru þeir hauldа
ok hvítra skjalda,
vigra vestrœnna
ok valskra sverða.
Grenjuðu berserkir,
guðr var þeim á sinnum;
emjuðu úlfheðnar
ok ísarn gullu.“

9. Freistuðu hins framráða,
er þeim flýja kendi,
allvalds austmanna,
er býr á Útsteini;
stöðum nökkva brá stillir
er hánum var styrjar vænt;
hlömmun var á hlífum
áðr Haklangr felli.

10. Leiddisk þá fyrir Lúfu
landi at halda,
hilmi hinum hálsdigra;
hólm lét sér at skildi;
slógusk und sessþiljur,
er sárir váru,
létu upp stjölu stúpa,
stungu í kjöl höfðum.

11. Á baki létu blíkja
— barðir váru grjóti —
Svafnis salnæfrar
seggir hyggjandi.
Œstusk auðkylfur
ok of Jaðar hljópu
heim or Hafrsfirði
ok hugðu á mjöðdrykkju.“

* * *

12. Valr lá þar á sandi
vitt inum eineygja
Friggjar faðmbyggvi;
fögnuðum dáð slíkri."

* * *

13. "Annat skulu þeir eiga,
ambáttir Ragnhildar,
dísir dramblátar
at drykkjumálum,
en þér sét hergaupur
er Haraldr hafi sveltar
valdreyrgar,
en vera þeirra bræði."

* * *

14. "Hafnaði hann Hólmrygja
ok Hörða meyjum,
*hverri* hinni heinversku
ok Hölga ættar,
konungr hinn kynstóri
er *tók* konuna dönsku."

* * *

Valkyrja.

15. "Hversu er fégjöfull,
þeim er fold verja,
*ítra* ógnflýtir
við íþróttarmenn sína?"

Hrafn.

16. "Mjök eru reifðir
rógbirtingar,
þeirs *í* Haralds túni
húnum verpa;
*fé* eru þeir gæddir
ok fögrum mækum,
málmi húnlenzkum
ok mani austrœnu.

17. Þá eru þeir reifir
er vita rómu væni,
örvir upp at hlaupa
ok árar at sveigja,
hömlur at brjóta
en hái at slíta,
ríkuliga hygg ek þá vörru þeysa
at vísa ráði."

Valkyrja.

18. At skálda reiðu vil ek þik
spyrja,
alls þú þykkisk skil vita;
greppa ferðir
þú munt görla kunna
þeirra er með Haraldi hafask.

Hrafn.

19. "Á gerðum sér þeirra
ok á gullbaugum,
at þeir eru í kunnleikum við konung;
feldum ráða þeir rauðum,
ok fagrröndúðum,
sverðum silfrvöfðum,
serkjum hringofnum,
gyltum andfetlum,
ok gröfnum hjálmum,
hringum handbærum
er þeim Haraldr valdi.

Valkyrja.

20. At berserkja reiðu vil ek þik
spyrja,
bergir hræsæfar!
hversu þér fagnið
þeim er í folk vaða,
vígdjarfum verum?"

Hrafn.

21. "Úlfheðnar heita
þeir er í orrostum
blóðgar randir bera,
vígrar rjóða,
er til vígs koma;
þeim er þar sýst saman.
Áræðismönnum einum
hygg ek þar hæfa at standa,

þá er skatnar skildir
í skjöld höggva."

Valkyrja.

22. „At leikurum ok trúðum
hefik þik lítt fregit;
hver er ölgerð
þeirra Andaðar
at húsum Haralds?"

Hrafn.

22. At hundi elskar Andaðr
ok heimsku drýgir,
eyrnalausum,
ok jöfur hlœgir.

24. Hinir eru ok aðrir
er of eld skulu
brennanda spán bera,
logandum húfum hafa sér
und linda drepit:
hældræpir halir.

# 20. Eiríksmál.

Óðinn.

1. Hvat er þat drauma?
Ek hugðumk fyr dag rísa,
Valhöll ryðja
fyr vegnu fólki,
vekta ek einherja,
bæða ek upprísa,
bekki at strá,
bjórker leyðra,
Valkyrjur vín bera,
sem vísi komi —;
erumk ór heimi
hauls a vánir,
göfugra nakkvarra,
svá er mér glatt hjarta!

2. Hvat þrymr þar, Bragi,
sem þúsund bifisk
eða mengi til mikit?

Bragi.

Braka öll bekkþili,
sem muni Baldr koma
aptr í Óðins sali.

Óðinn.

3. Heimsku mæla skalattu,
hinn horski Bragi,
þvíat þú vel hvat vitir;
fyr Eiríki glymr,
er hér mun inn koma
jöfurr í Óðins sali.

4. Sigmundr ok Sinfjötli!
rísit snarliga
ok gangit ígegn grami;
inn þú bjóð
ef Eiríkr sé,
hans er mér nú ván vituð!

Sigmundr.

5. Hví er þér Eiríks ván
heldr en annarra konunga?

Óðinn.

Því at mörgu landi
hann hefir mæki roðit
ok blóðugt sverð borit.

Sigmundr.

6. Hví namtu hann sigri,
þá er þér þótti hann snjallr vera?

Óðinn.

Því at úvíst
er at vita,
sér úlfr inn hösvi á sjöt goða.

Sigmundr.

7. Heill þú nú, Eiríkr!
Vel skaltu hér kominn
ok gakk í höll horska;
hins vil ek þik fregna:
hvat fylgir þér
jöfra frá eggþrimu?

Eiríkr.

8. Konungar eru fimm,
kenni ek þér nafn allra;
ek em hinn setti sjálfr.

# 21. Hákonarmál.

1. Göndul ok Skögul
sendi gautatýr
at kjósa of konunga;
hverr Yngva ættar
skyldi með Óðni fara,
ok í Valhöllu vera.

2. Bróður fundu þær Bjarnar
í brynju fara,
konung hinn kostsama
kominn und gunnfána:
drúptu dólgar,
en darraðr hristisk,
upp var þá hildr um hafið.

3. Hét á Háleygi
sem á Hólmrygi,
jarla einbani
fór til orrostu;
gott hafði inn gjöfli
gengi Norðmanna,
œgir Eydana
stóð und árhjálmi.

4. Hrauzk or herváðum,
hratt á völl brynju,
vísi verðungar
áðr til vígs tœki;
lék við ljóðmögu,
skyldi land verja,
gramr hinn glaðværi
stóð und gullhjálmi.

5. Svá beit þá sverð
or síklings hendi
váðir Váfaðar
sem í vatn brygði;
brökuðu broddar,
brotnuðu skildir,
glömruðu glymhringar
í gotna hausum.

6. Tröddusk törgur
fyrir Týs ok bauga
hjalta harðfótum
hausar Norðmanna:
róma varð í eyju,
ruðu fírar margir
skírar skjaldborgir
í skatna blóði.

7. Brunnu beneldar
í blóðgum undum,
lutu langbarðar
at lýða fjörvi,
svarraði sárgymir
á sverðanesi,
féll flóð fleina
í fjöru Storðar.

8. Bléndusk roðnar
und randar himni
Sköglar veðr [léku]

við skýs [um bauga],
umdu oddlár
í Óðins veðri,
hné mart manna
fyr mækis straumi.

9. Sátu þá döglingar
með sverð of togin,
með skarða skjöldu
ok skotnar brynjur:
vara sá herr
í hugum
er átti til Valhallar vega.

10. Göndul þat mælti:
(studdisk geirskapti)
„Vex nú gengi goða,
er Hákoni hafa,
með her mikinn,
heim bönd of boðit“.

11. Vísi þat heyrði,
hvat valkyrjur mæltu,
mærar, af mars baki:
hyggiliga létu
ok hjálmaðar sátu
ok höfðusk hlífar fyrir.

12. „Hví þú svá gunni
skiptir, Geirskögul?
várum þó verðir gagns frá goðum?“
„Vér því völdum
er þú velli hélzt,
en þínir fjándr flugu!“

13. „Ríða vit skulum“
(kvað hin ríka Skögul)
„grœnna heima goða,
Óðni at segja
at nú mun allvaldr koma
á hann sjálfan at sjá.“

14. „Hermóðr ok Bragi,“
(kvað Hroptatýr)
„gangit í gegn grami!
því at konungr ferr,
sá er kappi þykkir,
til hallar hinnig.“

15. Ræsir þat mælti:
(var frá rómu kominn,
stóð allr í dreyra drifinn)
„Illúðigr mjök
oss þykkir Óðinn vera,
sjá vér hans of hugi.“

16. „Einherja grið
skaltu allra hafa,
þigg þú at Ásum öl!
jarla bagi,
þú átt inni hér
átta brœðr“ (kvað Bragi).

17. „Gerðar várar“
(kvað hinn góði konungr)
„viljum vér sjálfir hafa;
hjálm ok brynju
skal hirða vel:
gott er til geirs at taka.“

19. Þá þat kyndisk,
hve sá konungr hafði
vel of þyrmt véum,
er Hákon báðu
heilan koma
ráð öll ok regin.

20. Góðu dœgri verðr
sá gramr of borinn,
er sér getr slíkan sefa:
hans aldar
mun æ vera
at góðu getit.

21. Mun óbundinn
á ýta sjöt
Fenrisúlfr of fara,
áðr jafngóðr
á auða tröð
konungmaðr komi!

22. Deyr fé,
deyja frændr,
eyðisk land ok láð:
síz Hákon fór
með heiðin goð,
mörg er þjóð of þjáð!

## 22. Vellekla.

(Af Einar Skaalaglam).

Haakon Jarl hævner sin Fader og underlægger sig Norge.

Ok oddneytir úti
eiðvandr flota breiðan
(glaðr í Göndlar veðrum
gramr svafði bil) hafði;
ok rauðmána reynir
rógsegl Heðins bóga
upp hóf [jöfra] kappi,
[etjulund at setja].

Varat byrjar örva
odda vífs í drífu
sverða sverrifjarðar
svanglýjaði at frýja;
brakrögnir skók hogna
[barg úþyrmir varga]
hagl or Hlakkar segli
[hjörs rakkliga fjörvi].

Mart varð el áðr ála
Austrlönd at mun banda
randarlauks, af ríki,
rækilundr of tœki;
ber ek fyr hefnd þá, er hrafna,
hljóms lof, [toginn skjóma
þat nam] vörðr [at vinna]
vann, síns föður, hranna.

Rigndi hjörs á hersa
hríðremmis fjör víða
(þrimlyndr of jók þundi
þegns gnótt) meilregni;
ok hjaldviðurr haulda
haffaxa lét vaxa
laufaveðr at lífum
lífköld Hárs í drífu.

Hjálmfaldinn vann hilmir
harðr [Lopts vinar] barða
[því kom vöxtr í vínu
vínheims] fjándr sína;
at forsnjallir féllu
fúrs í þundar skúrum,
þat fær þróttar snytri,
þrír jarls synir, tírar.

Haakon hævder den hedenske Gudsdyrkelse.

Sjau fylkjum kom silkis
[snúnaðr var þát] brúna
geymir grundar sima
grandvarr und sik [landi].

Öll lét senn enn svinni
sönn Eindriða, mönnum
hverjum kunn, of herjuð
hofsland ok vé banda:
áðr veg jötna vitni
valfalls of sjó allan
(þeim stýra goð) geira
garðs Hlórriði farði.

Hvarfat áðr en erfðan
óðstafr föður hafði
herforðaðr [réð Hörða]
hjörveðrs [konungs fjörvi];
varðat Freyr sá er fœri
fólkskíðs né mun síðan
(því bregðr öld við aðra)

jarls ríki fram slíku.
Ok herþarfir hverfa,
[Hlakkar móts] til blóta,
[rauðbríkar fremsk rœkir
ríkr ásmegni slíku];
nú grœr jörð sem áðan,
aptr geirbrúar hapta
auðrýrir lætr áru
úhryggva vé byggva.
Nú liggr alt und jarli
[ímunborðs] fyr norðan
[veðrgœðis stendr víða]
Vík [Hákonar ríki];
engi varð á jörðu
ættum góðr nema Fróði
gætinjörðr, sá er gerði,
geirbríkar, frið slíkan.

### Seier over Ragnfröd.

Hitt var meir, er Mœra
mærðfíkinn lét norðan
fólkverjandi fyrða
för til Sogns um görva;
ýtti Freyr af fjórum
fólklandum (sá branda
ullr stoð af því) allri
yrþjóð Heðins byrjar.
Glumdi allr, þá er Ullar
eggþings Heðins veggjar,
(gnótt flaut nás fyr nesjum)
Noregr, saman fóru;
ok til móts á Meita
mjúkhurðum fram þurðu
með spörgœli svarfa
sjau landrekar randa.
Enn reið öðru sinni
jarl borðmörum norðan,
sóknherðir lét sverða
sótt Ragnfröði at móti.
Hóf und hyrjar kneyfi
(hraut unda fjöld) þundar,
(þat sleit víg á vági)
vandar dýr at landi;
né fjölmenninn fyrri
fémildr konungr vildi
(vægðit jarl fyr jöfri)
Yggs nið friðar biðja.

### Slag imod Keiser Otto.

Hitt var ok er eykir
aurborðs á vit norðan
und sigrunni svinnum
sunnr Danmarkar runnu;
en hólmfjöturs hjálmi,
haulda valdr, of faldinn,
Dofra danskra jöfra
dróttinn fund of sótti.
Varat ígegn [þó at görði
garðrögnir styr harðan]
gengiligt at ganga
[geirrásar] her þeirra;
þá er með Frísa fylki
fór gunnviðurr sunnan
[kvaddi vígs] ok Vinda
[vágs blakkriði] Frakka.
Þrymr varð logs er lögðu
leikmiðjungar þriðja
[arngreddir varð] odda
[andvígr] saman randir;
sundfaxa kom Söxum
sœkiþróttr á flótta,
þar er svá at gramr með gumnum
garð úþjóðum varði.

### Haakon Jarl drager med Hærskjold gjennem Gautland.

Flótta gékk til fréttar
fellinjörðr á velli,
draugr gat dólga sögu

dagráð Heðins váða;
ok baldboði hildar
hrægamma sá ramma,
týr vildi sá tíra
teinlautar fjör Gauta.
Háði jarl, þars áðan
öngr maðr und skýranni,
hyrjar þing, at herja,
hjörlautar, kom sörva;
bara maðr lyngs enn lengra
loptvarðaðar barða
(alt vann gramr um gengit
Gautland) frá sjá randir.

Haakon Jarls Magt.

Hvar viti öld und einum
jarðbyggvi svá liggja,
þat skyli herr of hugsa,
hjarl ok 16 jarla;
hver sé if, nema jöfra
ættrýri goð stýra?
rammaukin kveð ek ríki
rögn Hákonar magna.

# 23. Hrynhenda

(Af Arnor Jarlaskald)

*Magnús!* hlýð til máttigs óðar;
manngi veit ek fremra annan;
yppa ráðumk yðru kappi,
Jóta gramr, í kvæði fljótu.
Haukr réttr ert þú, Hörða dróttinn!
hverr gramr er þér stórum verri;
meiri verði þinn, en þeirra,
þrifnaðr, allr unz himinninn rifnar.

* * *

Herskip vantu af hörðu stinnum,
hlunni geyst í Saltit eystra,
Skjöldungr! stétt á skörum hveldan
skeiðarhúf með girzku skrúði.
Vafðir lítt, enn vendir bifðusk,
verða hrökk, en siðr nam sökkva,
geystisk hlýr en hristisk bára
hrími stokkin, búnar grímur.
Rauðar bárut raudir síðan,
rimmu-yggr! í svænskar bygðir;
eigi gaztu liðskost lágan,
landsfólk sótti þér til handa.
Austan þorðu [úlfa ferðar
öldum kuðr] við hvíta skjöldu,
[tungurjóðr!] til tírar þinga
teknir menn ok dörr hin reknu.
Austan komtu með allrahæstum,
Yggjar-más, í þrænzkar bygðir,
fiðri-rjóðr! en fjándmenn yðra
fálma kváðu, œgishjálmi.
Ungan fráek, eyðir, þröngva,
úlfa gráðar! þeirra ráði,
skjöldungr stökk með skœðan þokka
skeiðarbrands fyr þér or landi.

* * *

Eignask namtu, óðal þegna,
allan Noreg, gotna spjalli!
mangi ryðr sér mildingr annarr
mæra, gramr! til landamæris.

* *

Síðan var þat, er suðr með láði
siklingr ýtti flota miklum,
skíði var þá skriðar of auðit
skorðu; rendi Visundr norðan.
Samnask bað til hverrar hömlu
— hræðask menn við ættar klæði
Gjúka — þótti göfugt eiki

þvíat veglyndum sanda
vin þínum skal ek, Rínar,
brag, þeim er bjartleyg fögrum
bauð ótta, guð dróttinn!

2. Mætr hefir minna látit
mik stólkonungr sólar
snjallr, en sómdi þolli
sverðels, bragar verða;
þó vil ek þróttar skýja,
þeim er engr var heima,
eldveitanda ítrum,
alfríðri, lof smíða.

3. Nefndr var ungr, sá er efndi,
ýta vörðr, í Görðum
œskigaldr við aldir,
Ólafr fyrir mér, stála.
Eldstökkum sák ekki
öll hygði vel snjöllum
hafs nema hilmi jöfra
heims bygð syni Tryggva.

4. Reggstriedar bað randir
ráðfimr bera snimma
jóskreytandi ýta
auðmildr á skip rauðar.
Frá reist framr (en. sýjur
flóð könnuðu góðar)
foldar hring til fengjar
fóstrjörð konungr hörðum.

5. Vestr helt varga nistir
víðfrægr lagar skíðum
(ár rauð ungr í þeisti)
Englands á vit (branda).
Fyrr vann öðlingr errinn
(engr), en Noreg fengi,
(harri var hilmi dýrri)
hefnd síns föður efnda.

6. Rak, sá er rausn vann mikla,
rjóðr með gengi þjóðar
víga borðs, ok verðar,
vestr hernað, fékk erni.
Endr frá ek borgir brendar
(brandr gall) á írlandi
[bléso vé], þar er vísi
vígmóðr um kom glóðum.

7. Brunnu ból, en runnu
[böl vann snógr] til skógar
[lýða sveit, áðr létti,
limgarmr] Skotar armir.
Ok hrynslóðar heiðinn
herr fyr elda þverri
vögnu vítt um eignaðr
vápnbautinn féll Gauti.

8. Snarr bar sigr or hverri
sárlóms mötuðr rómu
[hæst gékk hreggþjóðr] lista
[hvar lands er kom randa].
Gnóg var vist ok, vestan,
vel drengila fengin,
mærr áðr mildingr fœri,
margspám grám vargi.

9. Austr þingat kom yngvi
áðr, frá ek jarl af hjarli
(kœnn með krapti hreinum
Kristr tœði gram) flœðu.
Ógnmildr lét þá öldum
öðlingr, sá er gaf hringa,
(þjóð tók glöð við góðum
guðs ár) trú boðna.

10. Harðráðum gékk heiðis
hjaldrmagnaði skjaldar
skatna ætt á skreytta
skotjörð loga fjarðar.
Lýð gat lofðungr ráða
(landherr frá sið vándum
þá hvarf allr, ok illum)
úlítt (goðum nítti).

11. Ok fimm, sá er gaf gumnum
glólista, vann kristin

ljót, brinnandi lautar,
lönd elboði Göndlar.
Hvern viti hjálma þornar
(hann var ríkstr konungmanna)
elda runn, er unni
eljun slíkt at telja?

12. Hraustr vann Hjaltland kristnat
hlífar þeys, sem Eyjar,
stýrir stökkvifýra
stalls, ok Noreg allan.
Lét á Grœnland gætir
gunnblíðr komit síðan
vængjum vallar hringa
vegsamr trú ramri.

13. Vítt stóð ógn af ýti
[íslenzkum her vísi]
orms vallar [bauð allan
aldr guðs lögum halda].
Svá lét réttur, hinn er rítar
rjóðendr um vann góðar,
reyrs, við ráði váru
réttdœmr konungr settar.

14. Eigum [langa lægis]
liðrœkjanda frœknum
[hyrstríðir braut heiðni]
hjálmraunar þat launa.
Hrings hefir þarfastr þengill
þrym draugum sá bauga
(herr nýtr hodda þverris)
hingat norðr um orðinn.

15. Öll var hrædd við hollan
hrafni elgbjóð stafna
[vítt bauð öðlingr ýtum]
úþjóð [siðu góða].
Þann vissu gram Gunnar
grímu fárs, þeir er váru,
sannmiðjungar svinna
sér leiðastan, heiðnir.

16. Hreinbyggvir lét höggva
hrófs af mörgum þjófi,
hinn er um hvert ráð kunni,
hendr eða fœtr, at bœta.
Horvetna lét hjörva
hríðeflöndum, viða
austr þeims unnu löstu,
úsið jöfurr kviðjat.

17. * * * * tafni.
Hjörr reið, en sveif síðan
sundvargs boða mörgum
(hæstr varð geirs at gusti
grams tírr) af bol svíri.

18. Firði hjörr við herðar
hans; sagði frið lausan
dylgju reyr it dýra
(drósk álmr fyrir grani) hjálmi.
Norn kom flærð at fjörnis
[fólktjald rufu] skjaldum
(sár frá ek snörpum dreyra
seggjum) [langbarðs eggjar].

19. Frægs stillis varð falla
ferð, en (beitt var sverðum:
endr kom brúnt á branda
blóð) varð autt um góðan.
Auk und jöfri frœknum
Ormr hrauðsk; en félt rauðu
Eiríks hirð, áðr yrði
jarls ráð fyrir hjarli.

20. Hrafngreddir stóð, hoddum
hættr, jafnt sem ætti,
linns í lypting sinni
látrkœnn, fjör þrenni.
Yggs þikkjumk ek ekki
ógnblíðustum síðan
hjaldrs frá hoskum gildi
hafa sannfregit annat.

21. Gladdr sté jarl á eyddan
(el vigra þraut) sigri
grimmr með gengi framlikt

Grábak móins akra,
Lét úfám ýtis
elds lauðar hal dauðum
vitr af vánar otrum
verðung á kaf stungit.
22. Ok andvönum Endils
ítrskíð á dreif síðan
sannjörðungum sennu
sveif hundruðum undir:
svá at glójarðar gerði
gylfa skíðs (um viði
búkr hné margr fyrir mæki)
meinfœrt um lög hreinum.
23. Skaut á grœnt með grjóti
grár œgir ná sárum
[lágu liðsmenn bjúgir]
land [sem brúk um strandir].
En fjaðrdökkum flokkum
flugu hrafns at þar nafnar;
skygnum skœða sögnum
skógs hang var þangat.
24. Slóð drap svangt til grœðis
(sá vargr rekinn margan
höggvinn mann or hrönnum)
hlaupstóð jötuns móður;
Fœtr bar fálu sóti
(fjörrán) í val grána
(áðr beið herr fyrir hauðri),
hungrtrauðr, en frá rauða.
25. Náði jörð ept orðna
Eiríkr þrimu geira;
hans ráðum varð hlýða
hverr brimröðuls þverrir.
Hnípti drótt ok drúpti
(döpr þjóð var þar), Fróða,
fold, þann er flest gaf hauldum
fagrbygg, of son Tryggva.
26. Borit hefik hróðr [en hjörva
hóf samdi vel] lófa
elda [þeys] fyrir ásu,
[ítr, mestr at hlut flestum].
Aðr mun, óss en glóða
elris þrek, at veikum
greppr, megi öllum yppa,
örnfljótr brag þrjóta.

* * *

27. Veittu þess, er víða bœtti
várt eðli, stað bjartan,
heilagr Kristr, ok hæsta
hlíf þjóðkonungs lífi!
þvíat skýtjarnar skreytir
skíðs Olafi fríði
vögnu láðs und víðu
verðr aldregi tjaldi.

# 25. Búa drápa.

(Af Thorkel Gislesön).

Báru á vali víka,
(vel frá ek þeim líka
seggjum snarræði)
sverð ok herklæði.
Knúði hvast harða
[hljópu marir barða]
hregg á heflis völlum
[á humra fjöllum].
Blá þvó hrönn hlýrum,
hraut of brimdýrum
(kili skaut œst alda)
uðr hin sviðkalda.
Báru rökn rasta
rakka geðfasta
(þröng at rym randa)
til ræsis landa.

Við nam víðr mörgum
(vápn eru grimm törgum)
(nýtr gaf hest hröfnum)
Noregr skipstöfnum.
Herr bar hátt merki,
á Hamðis serki,
grimt kom él eggja,
at gékk lið seggja.
Meiddu fjör flotna,
flest varð hlíf brotna,
glumdu gráir oddar
grjót ok skotbroddar.
Hrutu fyr borð bæði
(brustu herklæði)
höfuð ok hendr manna,
hræ nam vargr kanna.
Neytti herr handa;
hríð var snörp branda,
lúst var fár randa
til fjörnis landa.
Féllu fleinbörvar,
flugu af streng örvar,
sungu hátt hjörvar
við hlífar görvar.
Gullu hræs haukar,
hvassir benlaukar
stýfðu liðs leggi,
lamdi grjót seggi.
Gnustu gráir málmar,
géngu í sundr hjálmar
(hauks varat friðr fjöllum)
í fjörnis stöllum.
Búa frá ek greitt ganga
(gladdisk svanr hanga,
vökt var gull gelti)
gegnum lið þeirra.
Hagl vá hvert eyri,
hraut á lög dreyri
(blóð þvó bens árum)
or bragna sárum.
Þar féll valr víða,
vé sá gyld ríða;
barðisk sveit snarla
á snekkjum jarla.
Örum réð sér snörpum
(slíkt er raun görpum)
flagð hit forljóta
af fingrum skjóta.
Gerðisk grimt fikjum
at gumnum ríkjum
(gnýr var hár hlífa)
hregg ok loptdrífa.
Steig fyr hlíf hesti
hrófs enn þrekmesti
gœðir gunnskára,
gladdisk naðr sára.
Niðr kom byrs bára;
Búi nam sér hvára
(ferð hykk friðar misti)
frœkn í hönd kistu.
Feldi Vagn virðu;
valdi of nái stirða
hrafn enn hvassleiti;
hrundi á borð sveiti.
Þá réð þess dála
(þrymr var hár stála)
eyðis unnglóða
Eiríkr skip hrjóða.

## 26. Ólafs Ríma.

(Af Einar Gilssön).

1\. Ólafr konungr örr ok friðr, átti Noregi at ráða,

gramr var við bragna hlífr,
boinn til sigrs ok náða.

2. Döglingr hélt svá dýran heiðr
dróttni himna hallar,
engi skýrir örrameiðr
öðlings frægðir allar.

3. Mildingr hafði menntir þær
er mestar váru í heimi,
hvergi frægra hilmi fær
hvárki af gleði né seimi.

4. Fimm hefir konungr kristnat lönd,
kann ek öll at nefna,
gramr vill jafnan rjóða rönd
ok rangan úsið hefna.

5. Rán ok stuldi refsti hann,
ok ræktar stjórn í landi,
hilmir lagði á heiðni bann
ok hefndi stórt með brandi.

6. Gramr nám lögmál setja svá
at seggir þoldu valla,
dáligan lét hann dauða fá
dróttins svikara alla.

7. Rekkar ýfðust ræsi á mót
ok rétti harðla sönnum,
váru konungi heimskligt hót
hafin af sjálfs síns mönnum.

8. Hárekr var fyrir brögnum bystr
búinn at stríða stilli,
þórir Hundr er þann veg lystr,
þriði var Kálfr enn illi.

9. Kálfr var fyrr með konungi sá
kærr í öllum ráðum,
nú er hann horfinn hilmi frá,
heiðri sviptr ok dáðum.

10. Þrændir gengu þort á bönd,
þeim var ljúft at herja,
háleysk þjóð vill rjóða rönd
ok ríkit konungi verja.

11. Fylkir ríkr, frægr ok mildr:
fréttir sannað þenna,
þá vill hilmir hraustr ok gildr
hvergi undan renna.

12. Bragningr lætr byrja ferð
bónda múg í móti,
hann vill jafnan hræra sverð
ok herða skot með spjóti.

13. Siklingr hafði samant þá
sínum görpum snjöllum,
lofðungs hann ok lýði at tjá,
langt bar gramr af öllum.

14. Hlýri konungs var harðla ungr,
hann vil ek fyrstan nefna,
víst nam Haraldr þykkja þungt
þrœndum strið at hefna.

15. „Get ek ei hrotta höggvit rönd"
Haraldr talar við garpa,
„bindi menn við mína hönd
mæki þann enn snarpa."

16. Rögnvaldr var mikils ok mestr
með konungi góða,
Brúsa sun nam bregða sterkr
brand í dreyra at rjóða.

17. Finnr Árnason frækn ok hraustr
fylgir jöfri sterkum,
Björn stallari tryggr ok traustr,
trúr vel ræsi merkum.

18. Sá var annarr Árna mögr,
ýtar Þorberg kalla,
hann lét stálin stinn ok fögr
í sterkum hlífum gjalla.

19. Þormóðr var við Kolbrún kendr,
konungsins skáldit dýra,
sá bar hvassar hyggju strendr
hvar sem garpar stríða.

20. Náðust menn í nilfungs flokk

nær sem risar at líta,
þeir hafa bragnar brynju rokk
brandi skerit enn hvíta.

21. Géngu fram fyr konungsins kné
ok kvöddu stilli enn teita,
buðu þeir bæði fylgð ok fé
frægum sjóla at veita.

22. Gramr réð spyrja garpa þá:
„gerit mér heiti at inna,
trú skulu greina seggir svá,
at satt megi til þess finna.“

23. Opt hafa þegnar þrjózku hafat,
þat mun engi lasta,
Gaukaþóri hafa gumnar nefnt
glaðan ok Hafrafasta.

24. „Treystum vér á mátt ok megn,
er margan riddara prýðir,
öngva hafa af áum fregn
okkrir sterkir lýðir.“

25. „Taki þér heldr helga trú
himna konungs með blóma,
virðar kastit villu nú
ok verit með oss í sóma.“

26. Lýðir gerðu lykt á því
at leysa þenna vanda,
skírnar laugn fara skatnar í
ok skynda guði til handa.

27. Þrekstórr kom til Þengils maðr,
þann frá ek Arnljót heita,
tók hann skírn ok gékk þó glaðr
grams í flokkinn teita.

28. Garpar fleiri at fylki renn,
en fyrðar mega þat telja,
siklingr nam sæmdarmenn
sér til liðs at velja.

29. Kálfr hafði múga manna,
merkta völlu víða,
níðingligt var [illegible] hans
niflung þeim at stríða.

30. Bjálfa klæddist hörðum Hundr
ok hans sveitungar margir,
þat hafa geysi grimmligt undr
gert Finnar argir.

31. Ræsir talar við Þorgils þá,
þat var mest af prýði:
„þér vil ek silfr í sjóði fá,
þú seð með auma lýði!“

32. Þorgils hugðar Þengils mál:
„þér innit framar hóti;
gef fyrir þeirra garpa sál,
er ganga oss í móti.

33. Herrinn drífr á hilmis fund,
at heyja ímun stranga,
svá var þrútin þeirra lund
at þraut varð fram at ganga.

34. Múginn þessi geysar gegn
gram með sárum vilja,
lögðu á orku ok alt sitt megn
jöfur við land at skilja.

35. Á Stiklastöðum var róman remd
ríkum konungi móti,
þar váru sköpt með höndum bremd
ok hörðu kastat grjóti.

36. Hárekr eggjar herlið sitt,
heitr mörgum sóma:
„lúki garpar geysi strítt
gram fyrir harða dóma!“

37. Góða sverðit Hneitir hét,
hafði gramr til víga þar;
þarfyrir margan Þengill lét
þegn at jörðu hníga.

38. Gumnar hlaupa geystir fram
grams fyrir merkit væna,
reisa þanneg randa glam
ok rista skjöldu græna.

39. Gellini tók at geysast hart,
ok gerði rómu stranga;
sannliga lét hann beggja mart
sáran dauða fanga.

40. Árna synir stóðu undir mæðr
einart ærögu afl magna,
kendist ei svá klókr maðr,
kœmi hlíf at gagni.

41. Þormóðr nam brytja bráð
bleikum fálu hesti,
varði konung með dygð ok dáð,
darra el hann hvesti.

42. Þórir hundr þrautar gildr
þreif sitt spjótit snarpa,
laga var hann ok höggva mildr
við harða konungsins garpa.

43. Þorsteinn hét sá er Þóri viðr
þar nam fram at ganga;
sá var kendr knarrar smiðr
kominn í villu stranga.

44. Konungrinn hjó til Þóris þá,
þat frá ek undrum sætti:
ekki beit hans bjálfann á,
brátt sem grjóti mœtti.

45. Björn stallari bystr ok reiðr
barði Hund í móti,
síðan hné við sannan heiðr
seggr á Þóris spjóti.

46. Þorgeirr vóð í randa regn,
ræsi náði at finna,
snarr réð konungr þrjózkum þegn
þessi orð at inna:

47. »Þeygi gerir þú, Þorgeirr! rétt,
at þröngirmönnum mínum,
lypta ek þér af lágri stétt,
lokit mun sigri þínum«.

48. Konungrinn hjó með Hneiti þá,
svá hrauð af eggjum báðum,
Þorgeirr dauðr á lyngi lá,
lífi sviptr ok dáðum.

49. Þorsteinn réð á þengils kné
þunnri öxi at sníða;
síðan lét hann líf með fé
ok féll í ánauð stríða.

50. Björtum varp sér brandi frá
buðlungs höndin mæta,
sjóli bað með sönnu þá
sjálfan guð sín gæta.

51. Þórir lagði í konungsins kvið
köldum snótar ræfum,
hilmis sál tók hæstan frið
himna grams með náðum.

52. Kálfr hjó til buðlungs hystr,
batt sér þungan vanda;
ramliga var hann á reiði lystr,
ræsi þeim at granda.

53. Myrkri sló yfir menn ok hjörð
við mildings dýran dauða,
litu þá hvárki lög né jörð,
lýð aflar þat nauða.

54. Þá kom Dagr með drengi sín
darra þing at heyja,
margr hlaut við mikla pín
maðr af sút at deyja.

55. Œsilig var odda hríð,
undrum frá ek þat gegna,
mátti ekki meira stríð
af málma leikr fregna.

56. Hræðilig var hjörva gnauð,
harðar brynjur sprungu;
drengir fengu dapra nauð,
dörr á hlífum sungu.

57. Stórt var þetta manna mót,
mest kom hjálp til bragna;
daufir fengu ok blindir bót,
hjúgir heilsu fagna.

58. Þorgils geymdi þengils lík,

þat fór heldr af hljóði;
maðr tók sýn fyrir merkin slík
af mætu konungsins blóði.

59. Fróni er huldr fylkir mætr,
firðr nauð ok grandi,
líkami konungs var mildr ok mætr
mánuðr tólf í sandi.

60. Þeim kom virðum vándlig þraut,
at vísis fengu reiði;
geislar skinu um grund á braut
grams af dýru leiði.

61. Lýðir tóku upp líkama hans;
lutu þá konungi snjöllum;
hár ok negl var heilags manns
hátt at vexti öllum.

62. Hildings taka þá helgan dóm
hallr í skrín at leggja,
nú er Krists at hjarta blóm
ok blíðust miskunn seggja.

63. Dróttni færði öðlings faðm,
ýtum líkam seldi,
nú er hann Guðs á hægri hönd
himins í æztu veldi.

64. Buðlungs heiðr er bjartr ok ríkr
bæði um lönd ok geima,
fæddist engi fylkir slíkr
fyrr norðr í heima.

65. Reiðst þú ei, þó þengill, þér
þyrða ek vísu at bjóða,
biðr ek Ólaf bjarga mér
við bragning allra þjóða.

---

# Anhang.

---

## Breve fra Biskop Haakon i Bergen.

### 1. Til Kong Magnus Erikssön.

Virðuligstum höfðingja ok kærasta herra sínum Magnúsi með guðs miskunn Noregs, Svía ok Gota konungi, sendir Hákon með sama miskunn byskup í Björgvin kveðju ok sik sjálfan, með öllu því er hann má honum til virðingar, heiðrs ok æru gera. Optliga hafit þér margfaldat með oss konungligrar tignar mildi ok gæzku með mikilli staðfestu, mjöliga ok sérliga nú er vér yðr funnum ok hjá yðr várum kærliga ok lærliga teknir í Osló, svá at vér kennumst, at hvárki höfum vér orðhegi eðr kunnustu svá viðrkvæmiliga ok framaliga yðr at þakka sem yðarri tign hæfir ok vár skylda krefr. Því biðjum vér guð allsvaldanda at hann fylli várn vanmátt með

sínum náðum, ok láti oss svá lengi at lifa at vér megim með óbrigðiligri hollostu téð ok gört þat sem yðr megi vel líka. Papta vára alla er þér gáfut oss lifuga með bréfi yðru fengum vér öllungis með fullnaði ok greiðskap af herra Guðþormi prófast eptir því sem vér beiddum, sem vér af hjarta yðr þökkum, ok með sama hætti fyrir öll önnur privilegia ok frelsisbréf, er vér af yðrum náðum fengum. Bréf yðart en þér gáfut minni virðuligri frú fengum vér henni, þakkar hon yðr mikilliga fyrir þann yðarn góðvilja ok allan annan. — Tíðendalaust er hér alt með oss, útan slíkt sem herra prófastr kann yðr at segja. Várum vér á leiðinni frá yðr til Björgvinar einn dag ok einn mánuð, mjök svá nýkomnir heim þá er þetta var skrifat. Gerna undirstæðim vér, sem guð lefi oss at sé, yðra velferð ok heilsu með góðum ok löngum lífdögum. Bjóðit til vár, yðarn þjónustumanns nú eðr síðar, um alt þat sem yðr megi vel líka. Biðjum vér ok at yðr eigi misliki at vér kunnigt gerum um þann skotska svein er oss fylgði ok yðart bréf hafði, bjóðandi, féhirðinum at hann afreiddi hann með einum hvítum tersél; þó fékk hann engan, með því at vér undirstóðum at engi var til, hvárki hvítr né grár; stendr á yðrum náðum hvat þér vilit framleiðis hér um gera eðr bjóða. Sæm vér þó gerna fyrir yðra skyld at hann væri fyrr afreiddr með einum hvítum formél, þó at krankr væri, eðr ok svá mörgum grám sem svaraði, heldr en nökkurn tíma mætti hann þat segja at hann hefði lengi alls engis biðat. Yðr ok alla yðr velviljandi geymi ok styrki faðir ok sonr ok heilagr andi. Amen. Skrifat í Björgvin *3 non. novembr. anno domini* 1337.

2. Til den unge Bjarne Erlingssön af Gizke.

Ærligum manni ok sínum kærustum vin, Bjarna Erlingssyni, sendir Hákon með guðs miskun byskup í Björgvin kveðju &c. Kærleika, vináttu ok góðvilja, oss jafnliga téðan, þökkum vér yðr mikilliga; nafnliga ok sérliga fyrir bréf þat er vér næstum af yðr féngum. Undirstóðum vér at þér vildut oss í Túnsbergi gerna sét hafa; þat sama hefðim vér með yðr gernsamliga gört, ef framliðandi ár, komandi vetr, blíðr byrr boðinn ok búinn hefði oss eigi boðizt; biðuðum vér þó tvá daga í Túnsbergi. Gátu þér, þóat at þarfleysu svá sem oss þykkir, um nökkura svá okkra vináttu viðráttu um kveldum. Man þat guð vita vér hyggjum hafa öfundlausa ok hatrlausa ok án alls langrækis; segja menn at vörm er vina senna; fyrir góðu tökum vér yðru kalsi, ok svá væntir oss at þér með oss gerir. Heilsit várum herra konunginum á vára vegna með várri þjónostu, ok verit honum sem nærkvæmastir til alls góðs ok dygðar, sem vér væntum at þér gerna gerit. Óttumst vér at vér höfum ritit honum langt bréf, í hverju þó meðal annarra hluta er vér

